

Eilífi Gud! miskunna þig yfir mig, og géf þú mér þann vísdóm, forsjállega ad telja mína fáu daga, forsjállega ad brúka mína stuttu tíd, og forsjállega ad endurkaupa hvert forsómad augnablik, þar ed mín eilífu forlög eru þar undir komin.

## 30. Hugvekja.

Þitt ord er vor hjartans gledi og huggan. Jer. 15.

Hegar eg elska Gud og Jesúm Krist, þá gét eg í ollum lífsins tilfellum hugbraustur verid. Hvert, sem eg lít til þess umlidna, þess nærveranda ellegar hins ókomna, styrkist eg í þeim ásetníngi, ad vera hjá mínum Endurlausnara, ad hverjum einum eg vil mér halda. Eg finn ad sönnu, þá eg adgæti mitt umlidna líf, ad eg einninn varid hafi æfi minni í heimsins gjálífi og til heimsins lystínga; en, hvílíka huggun finn eg þar hjá midt í þessari sorglegu endurminníngu! eg gét ecki hugsad til þeirra umlidnu tímanna, án þess undir eins ad þacka og þeckja alla þá vegu, um hverja Guds miskunsemi hefir mig framleidt. Allstadar þecki eg þá nádugu forsjón, sem Gud hefir fyrir mér borid, jafnvel og þá,

er eg eñ géck á vondum villustigum. Eg kañast vid þær heimuglegu advaranir, med hverjum hañ tídum kalladi mig til ad gæta skyldu miñar, og med hvílíkri gledi og huggun má þá ecki mín sál uppfyllast? O Gud! hversu endalaus er þín miskunsemi! má eg med Spámañinum undirtaka; þegar eg er Jesú, fyrir trúna, sameinadur, liggur mér í léttu rúmi hvad, sem adkémur og ágengur í þessu lífi. Heimsins óstödugleiki, ránglæti og álas, sem er svo sorglegt þeim, er elska hañ, þénar mér til þess, ad eg læri því betur ad þeckja, hversu farsæll eg er, sem útvalid hefi mér añañ Herra eñ heimiñ; en þó huggast eg eñ þá meir vid umþeinkíngu þess, sem eptirkomandi er. Eg bíd þeirrar sælu vonar og þess luckulega augnabliks, þá eg iñtakast miñ í þeirra himnesku herfveita samfélag, aptur sameinast brædrum mínum, sem eg misst hefi á jördunni og ódaudlegum Gudi sjálfum; eg kañast þá vid þad, ad þó eg hafni því, sem nærverandi er, tapa eg þó engu, þared allt þetta jardneska mun eptir fá lidin augnablik horfid, og þær þreyngíngar, sem eg hefi lidid, mega ecki koma í nockurn samjöfnud vid þá dýrd,



sem mér er fyribúin í himninum. Eg veit og má saña: ad nálægir hlutir hverfa í burtu skyndilega, eru ecki þess verdir ad nockurr telji þá, eptir ára eda jafnvel 100 ára tölu, þó svo lengi audnast mætti ad njóta þeirra. O! því hefi eg ecki fyrri látid mig leida af Jesú stjórnnn, svo eg odlast mætti þessa sælu? því hefi eg ecki leitad þessarar sameiníngar vid miñ Endurlausnara, til ad gjøra hid umlidna, nálæga og eptirkomanda mér audveldara? Æ! slýttú þér, sála mín! vid enda þessa dags, ad vínga þig vid þiñ Gud, hvers nád og gædska mun gjøra, ad allt verdur þér gott og gledilegt. Slít þú af þér bøndin, sem eñ þá binda þig vid jørdina, og kom sídan ad nóta þér þau gædi, sem þinn Jesús býdur! þú fyllist, ad vonum, óróa, þegar þú minnist þiña drýgdu berinsku-brota; hversu mikla mædu orsakar þér ecki sjón nálægra eymda hér í heimi? hversu mikillar áhyggju valda þér ecki umþenkíng þinna komandi tilfella, og hversu sorglegir verda ecki vid allt þetta þínir dagar?! O! léttu nú á þér byrdinni, og leitadu, sálu þinni rósemdar hjá Jesú; já, leitadu fyrirgéfníngar hjá honum á þínum fromdu syndum; gledi hjá honum á

nálægri tíd, og sáluhjálplegrar vonar fyrir komandi tímana!

## 31. Hugvekja.

Þó samtók gjördu himin, haf, og haudur mér til ama, hættum stæd' eg umspenntur af, og ógn hels í bili sama, en heimur allur hyrfi mér, Herra Gud! samt eg treysti Þér, óttast fár eckert framar.

Sú nád og miskun míns Guds, sem vardveitir mig og hefir híngad til vakad yfir mínum dögum, uppfyllir nú mitt hjarta med djörfúng og trúnadar trausti. Því skyldi eg efa um hans handleidslu, þared sérhverr dagurinn, já, sérhvert augnablik míns lífs sýnir mér andsjáanlegustu merki hans vísdóms, almættis og gædsku? Nej! eg fæ ecki añad enn íhugad ókomnu tímana med því trúar-öruggasta hjarta, þared sá sami alvísi og nádugi Herra rædur fyrir þeim, sem audsýndi sig mér svo dýrdlegañ á umlidna tímanum. Eg veit því fyrirfram, ad hverr ókomiñ dagur mun gefa mér nýar sannfæríngar hans nádugu forsorgunar fyrir mér; eg mun framvegis



óqvídinn vona mega ad finna hann vera þann sama mildiríka velgjørara, sem' á-nægjanlega veitir mér allt hid góda. Hann mun leida mig á þeim vegi, sem mín fávitska og breiskleiki varna mér añars ad gánga; hann mun snúa frá mér þeim háskasemdum, sem framvegis munu mæta mér á miñi Pílagríms-reisu; hañ mun bæta þann skort, sem fylgir jafnan mínu áñgkomulagi; hañ mun framhalda þeirri umhyggju og kjærleika, sem hañ hefir borid fyrir mér, allt frá módur líñ, hañ hefir aldrei aflátid ad vera minn Gud og hjálpari; máttur og yfirburdir hans guddómlegu veru og sañleiki hans fyrirheita géfa mér þó óefanlegustu fullvissu um allt þetta; eg veit hañ og ad vera minn mildiríka Gud, og mitt hjarta gledur sig af því ad hañ svo fúslega hjálpar mér. Eg vil því prísa þig, minn Gud! því ad þú gjørir svo vel vid mig; en eg veit og fyrifram, ad sú komandi tíd hefir mér mótlætíngar búnar og ad eg hér eptir ecki heldur-muni frí verda fyrir øllum þjáníngum. Já, eg yrdi eiñ medal þeirra ólucklegustu mañsképna, ef eckert mætti mér þad, sem fengi læckad mína drambsemi, stødvad mitt óstødugljndi og hrært

mitt hjarta til ad keppast eptir betri og varanlegri gædum. Þú munt því best sjá og áqvarda mér þad, sem mér er naudsynlegt og fyrir bestu, minn Gud! og á stundum, vegna minar sönnu velferdar sjá hentugast ad straffa og audmýkja mig; en eg bid þig af öllu minu hjarta, ad þú vyrdist ad géfa mér þolinmædi, von og huggun, til ad medtaka og svo hid ógédfelda af þínum fødur-høndum, og kannast vid þinn gædskufulla tilgáng í öllu því þú gjörir. Vissulega muntú einnig í mótlætingunna skamti høndla miklu nádarsamlegar vid mig, enn eg verdskulda og ecki leggja á mig stærri þjáníngar, enn eg fæ borid; eg vil því audmjúkur vona á þig og öldúngis afhenda mig þinni gædsku og nád fyrir Jesúm Krist. O! minn Gud! þú, sem enn þá aldrei létst nockurn þann til skammar verda, sem sett hefir sitt traust á þig, láttú mig og fá ad reyna trúarinnar sáluhjálplegu verkanir, og finna hversu luckulegur sá er, sem má vona á þig, og afhenda sig med fullu trúnadar trausti á þitt vald. Eg fel mig nú á þessari stundu þinni trúføstu vegleidslu í øllum tilfellum. Hvad gétur mér illt mætt, ef þú

ad eins ert minn Gud og miñ Frelsari? hvad hefi eg ad hrædast, sertú ad eins mitt traust og hæli?

## 32. Hugvekja.

Þvi far þinn veg nú, þú heimur fallvalti og hefd þín ótrú! eg snŷ hug til himins og hann stunda á, til Herra mins Jesú, minn Frelsar ad sjá; þar hjá þeim útvøldu hann hét og bjó mér, ,:, vist sjálfum med sér ,:,

Vor borgar-réttur, vor von og vor ágvardada eilífa vistar-vera er á himnum; ad hugsa þángad heim, daglega meir og meir ad sannfærast hér um, og þess vegna miña ad meta þad jardneska, þad er vor skylda á medan vér búum á þessari jordu. Gud hefir því allopt gjort oss samastadinn hér svo ordugann, ad vor umsorgun og þánkar dragast skyldu frá heiminum til himinsins; ad vér sist gjorum oss i lund, ad vér hafa kunnum eins mikla gledi og unadsemd hér, eins og vér þar á sídan vænta megum. Þegar daudiñ lokssins ber ad dyrum hjá oss og vér skulum rádstafa voru húsi, verdur allt þetta jardneska litilsverdt og fánŷtara eñ nú i vorum augum. Allt þad vér mik-





ils hofum metid í þessu lífi, mun oss þá sýnast, sem eins og veidt, en hitt þar á móti, sem vér höfum lítils metid, verdur oss svo dýrmætt, ad vér þá dæmum þad verdskuldad hafa allan vorn kjærleika allann vorn aldur. Ef ad vér adgætum þetta, nú á medan vér erum heilir heilsu, yrdum vér betur þar um sannfærdir, hversu fánýtt þetta líf er. Ef ad vér réttilega hugleiddum himinsins farsæld, mundu oss víst minna verdar álítast eymdir og armæda þessa lífs. Ef ad vér réttilega yfirvegum, ad oss er hér ætlud vera einúngis um stutta stund, og vér tímanlega megum búa oss undir vora burtför til þess himneska födurlands, þá mundi oss ecki gánga svo nærri ad þola lítinn mótgust og ordugleika á ferdinni, svo sem hitt, ad missa alla hægd og gledi þá hédan alkomnir erum. Ef vér ydnglega hugsum úti, til hvers Gud einkanlega setti oss hér á jördu, þá mundum vér gladir og fegins huga, framqvæma svo mikid gott, sem oss mogulegt væri í þessu stutta lífi. Ef vér einúngis vildum meta himnanna farsæld ad hálfu leiti vid þad, sem hún er í raun og veru, þá mundum vér sannlega meira vilja til hennar vinna. Svo opt, sem vér



ihugudum himinsins vegsemd, mættum vér sannfærast um vort seinlæti til þess góda, og um heimsins ófullkomlegleika. O Gud! fyrst þér þócknast hefir ad lengja vort líf allt híngad til, svo géf oss nú nád til ad yfirvega, ad vér snarlega megnum hédan halda, og ad vor velferd er undir því komin, hvernin vér erum undir þessa burtför búnir; lát oss upphvetjast af voninni um þau dýrdlegu laun, sem þú hefir heitid oss, ef vér ad eins ótraudir keppumst eptir eilífdinni og hennar farsæld. O! ad vér megnudum ad framgvæma þinn vilja med eins miklli glédi og þeir sælu andar, Englarnir, sem skóda þitt auglit! o! ad himinsins umhugsan mætti vekja alla vora lífs og sálar krapta og géfa oss æ meiri og meiri laungun og styrk til dygdanna æfíngar! láttu þad vera vora einnstu stodugu ástundun, ad gjörast verdugir til ad ná þeirri sáluhjálp, sem oss er í himnunum áqvordud! þessa skulum vér einúngis óska, þar vid skulu vorir þánkar skémta sér, og þetta á og má vera vort stoduga mark og mid, frá hverju engir jardneskir hlutir fái oss snúid. Þannig skal vor umgengni vera á himnum, hvadan vér væntum vors Drottins

og Frelsara Jesú Krists, sem mun umminda þañ líkhama, er vér í þessari vorri lægingu berum, ad þañ líkur verdi þeim líkhama, hañ í dýrd sinni hefir, med hans voldnga krapti, sem alla hluti kann sér undirgéfna ad gjora.

## 33. Hugvekja.

Hversu gótt, sem lífid er, varir þad þó ecki nema stutta stund, segir Syrach 41.

Heilbrygdi, ríkdómur, vyrdíngar og ástsæld, eru þau gædi, sem allir í túmanum óska sér ad eignast og ef vér vissum þeirra flestu maña bæna iñihald á þessu qvøldi, mundu þessir hlutir vera helzta efnid af óskum þeirra. Þegar eg med athygli prófa sjálfañ mig, fiñ eg einnig laungun eptir heilbrygdi, ríkdómi, vyrdíngum og vinskap í hjarta mínu. Þessa laungun er ecki ad lasta, en mætti eg ad eins velja réttu medølin til ad ná þessum gædum, vildi eg einúngis bidja Gud um dygdugt hjarta, þá mundu øll þessi gædi hvad vissast verda mín eign, þvíad Guds ótti er vegurin, á hverjum eg vona má ad ødlast heilsu, ríkdóm, vyrdíngu og ástsæld. Ef eg er réttskickadur fyrir Gudi,



má eg helzt vanta mér heilbrygdi og lánglífis, því þá æfi eg þær dygdir, sem vidhalda mega heilsu minni; þá fordast eg lesti, sem stytta mína daga. Ef eg gudhrædsluna elska, þá mun mig síst ríkdóm vanta. Þá mun Gud stýra mínum athøfnum med sinni sérlegu og mildiríku forsjón, blessa mín fyrirtæki, og láta mínar gjørdir farsællega luckast, og þó eg nædi ecki miklu ríkidæmi, mundi þó gudhrædslan géfa mér ánægt hjarta, án hvers ríkdómur yrdi mér einúngis byrdnrauki, og ástand mitt engu þolanlegra. Sé eg dygdugur, þá verd eg bædi virdtur og vel metinn; sérhverr, sem elskar rádvandt framferdi, mun nota og virda mig mikils, og yrdi þetta meir enn fullkomid jafnvægi á móti þeirri vanvirdu, sem eg saklaus lída kynni af ógudlegum. Elski eg Gud med hjartans einlægni, mun mig aldrei vini vanta; þvi þá mun eg ætid finna þá vini, sem med einlægum kjærleika og hreinu hjarta verda mér unnandi, og greida úr mínum vandrædum, eins og þau væru þeirra egin. Sú er þvi sérlegasta ósk mín á þessu qvøldi, ad eg verda megi gudhræddur og dygdugur og audnist mér þad, hefi eg allt. Þvi

gudhræddari sem eg er, því rólegri, ánægdari og lucknlegri mun eg verda, eckert mun eg fyrir þad missa af því, sem heimsins börn keppast svo ákaft eptir, og ecki skal mig eptir því lánga, þared eg á betri andlegd; heilbrygdi minnar sálar mun og géra mér líkhamans sjúkdóma léttari og þolanlegri; Guds nádar ríkdómur mun uppörva mig, þegar útvortis skortur þreyngir ad; ad vita mig Gudi kjæran, og honum um mig hugad, mun gjöra mig gladsinna, þó heimurinn snúi vid mér bakinu, og vegna fullvissu um Guds og Jesú kjærleika, mun eg þolgódur umbera, þó vinirnir bregdist mér. Eg verd því ad öllu leiti, og í öllum kríngumstædum farsæll, hafi eg gudhrædsluna til ad bera. Ad eg megi gudhræddur verda, skal því min innilegasta bæn á þessa dags qvöldi.

## 34. Hugvekja.

Drottinn Gud er sól og skjöldur, Drottinn gefur nád og heidur, hann mun ecki láta þá vanta neitt gott, sem á hann vona. Ps. 84.

Þegar eg yfirvega hvad Gud er, og hvad eg er, þá mætti sú umþenking uppvekja hjá mér þá djúpustu lotníngu. Eg



gæti þá ecki añad enn nálægt mig Gudi med tilfiñanlegustu íhugun miñar eymdar og óhæfilegleika til alls ens góda, og þetta er lika vegurinn, á hverjum eg fiña mun nád hjá Gudi. J þessu ásigkomulagi mun eg honum þócknanlegur vera, þegar eg lært hefi ad þeckja mig sjálfañ og audmykja mig fyrir hans dýrdlegu hátign; mín vesæld og eymdarskapur mun ad sønu því olla, ad eg varla dyrfist ad upplypta mínum augnum til þessarar hátignar, en hans augu munu því heldur líta ofan til mín, sem eg eptir hans bodi og dæmi míns Jesú, er saunaudmjúkari; þañig á mig komiñ mun eg æ óhultur og gladur voga ad nálægjast Gud. Mín Guds þjónusta, sá virdíngarfulli ótti, sem eg ber fyrir honum í trúnni, med tilfinníngu sjálfs míns eymdar og óverdugleika, mun honum víst þægari, eñ þótt øll veraldin færdi honum hégomleg breñt offur. Mín bæn mun vissulega þreyngja sér ad hans veldisstóli, og hræra hann til ad gjøra mig hluttakandi í hans nádarfullu fyrirheitum. Hañ, sem heyrir bænir þeirra vesælu og hjálpar þeim, sem hafa kløckvann og audmjúkann anda, mun efalaust heyra mína bæn, og flýta sér ad

hjálpa og miskunna mér, hann mun ecki forsmá mitt sundurkramid og óngrádt hjarta, ecki minnast minna synda, heldur láta þær frá sínum augum burt hverfa eins og ský fyrir vindi; á þeirri vondu tíd, á angistar, neydar og hørmúnganna degi, skal eg víst voga ad nálægja mig til hans í hverju, sem ad høndum ber; já, í daudans sídustu adsókn skal eg óhultur og óhræddur voga til hans ad flýa; þegar mér hvergi í heiminum er lengur vært, skal eg dyrfast ad leita hælis hjá mínum Jesú og med hans krapti og adstod sigra þenna sídasta óvin. O minn Gud! kénn mér ad verda sann-audmjúkur, þú ert mikill og yfir alla hluti upphafinn, en eg er eckert; þú ert eilífur og ætíd hinn sami, þín ár fá enganu enda, en mín tilvera á þessari jørdu er eins og einn dagur og líf mitt líkt skugga. O Gud! kénn þú mér ad sjá og þeckja, ad eg er alls eckert og ad eg hefi verdskuldad daudann vegna minna mørgu synda. Án þín framgeng eg í megnri blindni og fávitsku, en sje ecki þína reidi gégn syndum mínum, fyri hverri eg mundi þó eilíflega tortýnast; mín augu fá ecki heldur hættuna sjed, er eg sveyma í, sem er;



ad eg líða kynni eilífa smán og vanvyrðu, sem verdskulduð endalok minnar dramb-semi, nema þú, með þínum góða Anda, vyrðist ad vísa mér veg til sannrar auð-mýktar og lítillækkunar sjálfs míns. Æ! hversu lengi mun eg enn ráfa villtur frá þeim sanna auðmýktar vegi? hversu lengi álíta mig fullsterkann, enn þótt eg sé stadd-ur í mikilli eymd, hverja eg hverki hug-leiði né þecki? nær mun þitt náðar-ljós, eilífi ljósanna Faðir! fá algjörlega burt-rýmt þessu myrkri og fásinnu úr hjarta mínu? Sjá, ó Guð! mig lángar nú til að rata þenna farsældar veg; verka þú sanna auðmýkt hjá mér, svo eg megi þér þóknast, því eg er brotlegur syndari, sem hefi skort á þeirri hrósun, er fyri þér gyld-ir. Vertu mér jafnan náðugur og láttu þitt orð lýsa mér og kenna mér þín réttindi!

# 35. Hugvekja.

Mitt athvarf er til Guðs; vonið á hann alla tíma, gott fólk! Psálm. 62.

Hvað fær oss ángistar, ollað, þegar vér bæði í tilliti til þess nálæga og hins ókomna, getum haft þá örruggu von: að öll vor velferð hér í lífi sé í höndum vors

Guds? hañ þeckir allar vorar þreyngíngar, og hefir nóg medöl til ad frelsa oss frá þeim. Hans miskunsemi mun ecki neita oss neins þess, sem í raun og réttri veru er oss þénanlegt; hví skyldum vér setja vort traust á meñina, sem eru eins brygdulir og sú hjálp, er vér vœntum oss af þeim? því skyldum vér eyda vorum dögum í þessa lífs sorgum, þared vor lucka er í hendi vors Guds, sem hefir þegar áqvardad fyrifram þañ tíma, er vér skulum heñar njóta, hversu lengi hún vara skuli og verda oss til gledi? vona þú einúngis á hañ, mín sál! og afheudtú þig hans vísu og nádugu stjórnun, sem best sjer fyrir öllu; hversu qvídafullir verdum vér ecki tídum, þá vér lítum til þess ókomna? hversu margar og þúngbœrar naudir eru oss kañské búnar á efri dögum, þegar vér verdum gráhærdir og gamlir? máské þeir vinirnir, sem nú eru vor huggan, yfirgéfi oss þá; máské lángviñur og strángur sjúkdómur nidurbrjoti þá heilsu vora; máské fátœkt, forakt eda oñur eymd verdi hlutfall vorra ókomnu daga. O þú örvœntingarsama hjarta! til hvers skulu þessar harma-tölur og sorgir, þar ed allt þad, sem á komandi tímanum mœta skal þér, stendur ecki í þínum



höndum? hann, sem stjórnar allra maka lucku-kjorum á jordunni, hann hefir og áqvardad þín, og hvernig máttu vænta þér aunars af þíns milda Fodurs hendi enn þess, sem í sannleika er þér nytsamlegt? og þó ad vid þig kynnu nú framvegis þvílik tilfelli fram ad koma, sem væru þér óþægileg, eru þau þó nytsamleg, svo sem þér áqvördud af þíns besta Fodurs vísdómsfulla tilgángi, og hvad munu þig stoda qvídafullar hugsanir? hvert munu þær mega þínum eymdum aptra, sem þú álengdar þykist fyrirsjá, ellegar gjora þær sjálfum þér léttbærari enn þær annars verda kynnu? fel þínum Gudi alla ókomna tíma og þau lucku-kjor, sem þér eru áqvordud, eru þér best og sáluhjálplegust; en berir þú enn nockra áhyggju fyrir ókomna tímanum, þá hugsadu einkanlega til daudans, til grafarinnar og dómsins; leitadu þeirrar lucku, sem varanleg er, midt í þessum umbreytingum, og veldu þá vegu, sem leida þig til hennar, því jafnvel í þessu tilliti hefir þinn Fadir borid umonnun fyrir þér; hann hefir áqvardad þér farsælann ódandlegleika, látid þinn Endurlausnara afreka þér eilífa gledi; lifdu þar fyrir eins og sómir þeirri manneskju, sem





á dýra lucku í vændum; lifdu í trú á Jesú og í voninni um sælann ódaudlegleika; þá mun jafnvel engin hørmúngafull ókomin tíd hafa neitt óttalegt ad skélfa þig med. O Gud! þú, sem hefir géfid oss lífid, vér þøckum þér af hjarta þá huggun, ad vor lucka í þessum og hinum ókomna heimi stendur í þínum høndum, svo vor sála þarf framar engu ad qvída; þú munt úthluta oss svo miklu, sem nægir til vorrar naudþurftar hvern dag; allt viljum vér medtaka af þinni hendi, eins þann mótlætinga bikar, sem þú kannt ad oss rétta, viljum vér ánægdir medtaka; vér viljum drecka hann og segja med vorum Jesú: verdi þinn vilji! Med þessum ásetníngi viljum vér áfram halda vorri Pílagríms-ferd, þú munt og, vor Gud! á komandi døgum vors lífs vera vor Gud og Frelsari; vér hughreystum oss vid þína óendanlegu gódgirni, því þú munt allt vel vid oss giøra.

## 36. Hugvekja.

Minnst á grof þína, midt í gledi.

Hverr einn dagur, sem yfir oss kémur, leidir oss nær daudanum, gef minni



og eilífdiñi og hverr veltnema einhverr af oss sé, añ þess hönum kölni þad nú til hugar: þegar framstigin á þañ grafar-backa, sem eptir litiñ tíma alltaf mun hylja hans líkhama til ens sídasta dags; svo mikid vitum vér med vissu: ad því fleiri daga vér lifum, því meir nálægjumst vér lífsins qvøldstundu. Vér fáum þess ecki dulist, ad sá þánki fyllir oss sorg og þúngsiñi, ad vera nálægur daudanum, grøfiñi og eilífdiñi. O Gud! hversu markverdt er oss ecki þetta? vér þurfum ecki efast um, ad þad í raun réttri nálægist oss, en um hitt efumst vér: hvert vér erum svo á oss komnir, ad vér med gledi og gódri von vogum ad reña augum vorum til þessa; því ef ad sá yfirvofandi daudi og sú all-nálæga eilífd ecki ega ad skélfa oss um of, verdum vér ad nálægjast þig, o vor Gud! en vor samvitska, þetta hátalandi, ótuhlýda vitni í sjálfum oss, ber fram, ad vér erum þá seim lángt frá þér, og ad vér mættum verda eilíflega ólyckulegir, ef vér nú værum svo nálægir daudanum, ad einkis fresto eda frístundar vært nú framar ad vænta. En ef vér nú í dag høfum í sídasta sinni sjed dagsins ljós hér í heiminum, og ef vér nú í sídasta sinni þenktum

hér til þín, o vor Gud! ef dauðinn apt-
urlykti vorum vörum midt í því vér nú
erum ad bidja þig, og sídasta ordid, sem
vér tölum á þessari stundu, yrdi hid síd-
asta í þessu lífi. O Gud! hversu mjøg
bløskrar oss ecki þessi þánki, og hversu
audveldlega má þó ecki hann og þessi til-
gáta uppfyllast? því, nærsta skjótur er
allopt banvænn sjúkdómur ad búa um
sig í mannlegu holdi, sem ber ætíd nóg
dauda tilefni í sjálfu sér. Og hversu
mørg hastarleg tilfelli, sem lítil sýnast,
géta þaradanki gjørt enda á þessu fall-
valta lífi: einúngis ein hættuleg bilta,
einn svala-dryckur snøgglega teygadur,
einúngis ein smá æd, sem hrøckva kann
innvortis í líkhamanum, géta þess ollad,
ad lífsvøkvarnir missa ordulega rás; og
þá er strax vor daudi og vor dómur fyr-
ir høndum. Á þessari einu stundu —
eptir því sem reiknad er ad vidberi á sér-
hverri klucku-stundu — vænta 4000
manneskjur í heiminum síns sídasta vid-
skilnadar, og qvedja ad fullu hiartalífs-
inum þad ecki mega ské, ad einhverr vor
ástvinur, einhverr af oss sjálfum sé nú í
þessara tølu? en, þótt nú allar þessar til-



gátur brygdust, er þad þó víst, ad daudinn kann ad yfirfalla oss á þeirri stundu, er vér minnst væntum hans tilkomu og vér máské helzt væntum og óskum oss ens lengsta lífs. Þessi óvissa um daudans nálægd skal kenna oss þann vísdóm, ad hugsa ætíd til daudans og hans tilhugsan minna oss sífellt á þá naudsyn; ad búa oss, sem best, undir hann. Því skyldum vér slá á frest þessu svo mjøg áríd-anda verki, þared undandráttur inn er svo hættulegur, en ókomni tíminn óviss? Nú, á þessu augnabliki, á medan vér ennþá heyrum, ennþá sjáum, ennþá finnum, viljum vér flýta vorri umvendun; ennþá er hún audveld, en hversu ørdug mun hún ecki verda oss, þegar vér erum gamlir vordnir í vorum syndum? Ennþá høfum vér krapta til ad íhuga vort apturhvarf; en hversu miklu þýngri mædu mun þetta þá ecki kosta, er sjúkdómar og ellinnar þúngi hafa kraptana veikt, eda jafnvel svipt oss þeim? Ennþá er oss audid ad fara dagbatnandi og audsýna sonarlega ávoxtu vors apturhvarfs; en þessarar gledi og heilla megum vér án vera, ef vér fyrst á daudastundunni førum ad snúa oss til Guds. Þetta augnablik er




eñn í voru valdi, en hvert hid ókomna verdur þad, er mjøg óvíst. O Gud! lát oss víslega brúka þetta augnablik, og géf þú oss náð til að þenkja svo alvarlega um þetta efni alla vora æfi, sem vér nú látumst þenkja. Láttú oss nálægjast þig meir og meir, þá liggur oss í léttu rúmi nær helzt daudiñ nálægist oss, því vér munum vid hans tilkomu nálgast vora sáluhjálp.

## 37. Hugvekja.

Ef ad þér gjerid gott og lídid med þolinmædi, þá munud þér finna náð hjá Gudi, því þar til erud þér kalladir; þared Kristur hefir og lidid fyrir ydur, og lét ydur þá dæmi eptir, ad þér skyldud feta í hans fótspor. 1 Pét. 2.

Jesú gjørvalla liferni var hid ljósasta dæmi uppá náúngans kjærleika og hjartagædsku, og þared oss er þad einig fyrisett þessar dygdir ad æfa, hvert fáum vér þá valid oss ædra dæmi til eptirbreytni? Hversu ástúdlega umsorgun bar hañ ecki fyrir mannkynsins velferd! Hañ brúkadi sína krapta, ecki einúngis til hjálpar, þegar hann var um hjálp ákalladur, heldur vitjadi hañ sjálf-



ur blinnâ nauðstoddri og band þeim að-
stöð sina; með miklum erfidis-munum
ferdadist hann til einna fjærlægustu staða
og vitjadi fátækustu landsbygda, svo að
bædi meiri og minni njóta mættu huggu-
unar og hjálpar af nálægð hans. Oved-
inn kom hann einum aumu til hjálpar og
gêck um kríng til að gjöra gott. Hann
gaf einum blindu sjón og sjúkum heilsu;
hann gaf hinum vesælustu það, sem ennþá
var dýrmætara enn lífið ellegar líkham-
ans heilbrygdi, gaf þeim skynsemina apt-
ur, sem hana höfdu mist og það, sem
gêck lángt yfir alla hans velgjörnínga,
frelsadi þeirra aumu sálir frá myrkaña
yfirvaldi og syndanna þrældómi; hann
lêt sína tilbidjendur adnjóta sinnar gud-
dómlegu náttúru og bjó þá undir eilífa
sáluhjálp; hann gleymdi bædi matar-
nautn og allri rósemi einúngis til þess,
að fórnfæra sjalfum sér og láta sig á
krossinn negla til mannanna velferdar;
hverki fêck honum aptrad mæda síféldri
sjálfs-afneitun nê lastandi túngna bak-
tal frá því, að halda fram erindi og sýsl-
unum sinum; hann leitadi engra met-
orda, engrar lofdýrdar, engra verdlauna;
það, sem hañ stundadi, var eckert annað

enn hans Fodurs dýrd og mannelskjanna farsæld. Þetta var oll hans lángan, þar til midndu allir hans kappsmunir, sá var tilgángur pinu hans og dauda. Mun nockurntima þvílík gædska hafa til verid, sem þessi gædska? Hvernig gétum vér vyrdt fyrir oss þetta Jesú góðgjordasama líferni, án þess alvarlega ad óska þess og af ollum kroptum ad keppast eptir, ad vort líferni einnig mætti svo prýdt verda mañelsku, eins og allt hans líferni? Hann hefir gésid oss dæmid til eptirbreytni, vér egum ecki einúngis ad dást ad hans miklu elsku, heldur og sýna hana hjá og á sjálfum oss. En hversu mætti ecki margur hverr vor á medal blygdast, þá vér náqvæmar hugleidum þetta efni? Jesú líferni var rétt nefnd samanhángandi kjærleiks-kédja, en vér fáum varla sýnt eda talid einúngis eiñ tíma vors lífs, á hverjum vér hreinañ kjærleika audsýnt hofum. Hañ leitadi sjálfur hiña aumu, en vér forsmáum þá opt, þegar þeir leita vor. Sérhver mæda var honum þæg og þócknanleg, þegar hañ einúngis fécl gott afrekad; en vér erum tídum hardgédja og omiskunsamir, jafnvel þá, þegar oss veitir, þad sem audveld-



ast gott ad gjøra. O! þú guddómlegi mañeskju vinur! hverju ölltir þér erum vér meñirnir? Endurskapa þú og nýk vor hjørtu, ad vér mættum þér sem líkastir verda. Amen!

## 38. Hugvekja.

Sjá þú! augu Drottins líta til þeirra, sem hann óttast og vona á hans miskun. Ps. 33.

Hvad mun valda því, ad meñ ecki hafa öruggari trú til Guds eñ almennt skédur? því erum vér svo tídum vantrúarfullir og efasamir? sáum vér jordina skodad, getum vér vyrdt fyrir oss himininn án þess vér undir eins reñum augunum til sjálfra vor og blygdumst vora vantrúarfullu efasemi? hverr sær einúngis eitt augnablik efast um almætti Guds og gædsku, sem yfirvegar bædi hinar almeñilegu og sérdeilislegu roksemdir hans gædsku og gódgirni? Einn morgúninn segir þad ódrum og hverr dagurinn eptir annann auglýsir þad, hversu mikil ad eru dásemdar verk Guds miskunar. Vor unlidna æfi gefur sjálf vitnisburdinn um hans gódgirni, eins og vor egin reynsla stadfestir allt hvad segjast kann

um trúfesti hans. Sólin rennur upp og gengur undir, en sannleiki Guds og trúfesti mun aldrei bregdast. Náttúrunnar gángur kann ad umbreytast, en Gud er óumbreytanlegur, og gétur þeim ómøgulega brugdist, sem setja á hann sitt traust. Hans mátt ber oss ad heidra, ad dást ad hans gædsku og trúfesti; ad treysta nockrum hlut ødrum enn Gudi, er ad reida sig uppá fallvaltann grundvøll. Þegar vor Gud blessar oss, þá erum vér blessadir, blessadir í inngángi vorum og útgángi, blessadir í vøku og svefni, blessadir í lífi og dauda, blessadir í þessu og ókomnu lífi. Blessan Guds vors mun undan oss gánga, svo sem leidarstjarna, og fylgja oss, eins og verndar engill. Vér snúum oss því til þín, þú almáttuga og gædskuríka Vera! því allar sképnur med sameinudum kroptum fá síst hjálpad oss: sért þú oss fjærlægur, þá megnar enginn madur, og jafnvel enginn engill med nálægd sinni, ad verda oss til nota. Ad þínu bodi hættir sjálf náttúran ad lidsinna oss, allt er þér audveldt, þú þarft einúngis ad tala eitt ord, og þá gengur oss allt ad óskum. Þitt forsjónar auga fær fridad vort óróafulla



hjarta, þegar sorg og mæda geysar í voru brjósti. Þegar þú ad eins litur vinsamlega til vor, er oss í léttu rúmi þó allur heimurinn snúi vid oss bakinu. Stydjir þú vor efni, þá mun oss allt ad óskum gánga. Lát oss því einúngis setja allt vort traust á þig og á alls ekkert vona, sem þér er minna. Lát þína hönd æ vera yfir oss, ætíd vardveita oss og géf oss ætíd óhultum ad finna sanna hugarins rósemi undir þinni forsjón og handleidslu. Til þín flýum vér, lát oss því vernd finna hjá þér mót öllu því vondu, sem vorri daudlegu náttúru er medfylgjandi; en hvernig er þad mögulegt, ad þú, almáttugi Gud! viljir yfirgéfa þá, sem vona á þína hjálp? Nei! fyrr mun himin og jörd forgánga, enn þín trúfesti og sannleikur bregdist. Þú hefir lofad oss, ad þú viljir hjálpa oss, þig mun síst ydra þinna fyrirheita; med því öruggasta trúnadar trausti um þad, ad þú viljir vyrda oss þinnar nádar, gaungum vér úti þad ókomna og óvissa, sem þú sjálfur hefir ákvardad ad yfir oss koma skuli. En — þó vér vissum nú fyrirfram allar þær óheillir, sem oss mæta ættu, mundum vér þeim ecki framar qvída, heldur enn nú, er þær eru oss huldar; því

vér höfum þá huggun, að þú viljir stýra þeim öllum til vors sannarlega besta. Þínir vegir veri svo torsóktir, sem verða mega, vér reidum oss að öllu leiti uppá þína vegleiðslu, sem mun hægt og oss heillasamt gjöra allt hið óbæga, er oss á leiðinni mæta kann. Ókomna tíðin má svo myrk vera, sem vill, fyrir vorum sjónum, vér vitum að þú munt hana uppljósa fyrir oss og leiða oss til þeirrar sælu, sem oss er ætlud og geymd. Tilfelli vor mega svo sérleg, svo undarleg vera, sem vilja, vér viljum þó fagna í þér, o vor Guð! og gleðja oss við vora sáluhjálp, sem fyrir höndum er.

## 39. Hugvekja.

Vona þú á Drottinn og gjör hvað gott er.
Psálm. 37:

Hversu mikil lucka er það ecki fyrir oss, að vita Guðs forsjón til vera, á hverja vér setja þorum óhult trúnaðar traust? hver finnis rósemi og sálar ánægja má stærri vera enn sú, sem grundvallast á þeirri fullvissu: að óskiljanleg Vera bert umsorgun fyrir oss, sem er óendanlega náðug, vís og almáttug? getum vér haft



nockra vissari von, enn þegar vér felum oss á vald þeim Gudi, sem þegar bar umönnun fyrir oss, þegar vér vórum í módurlífi, og sem fyrirfram hefir umhugsad og áqvardad allt þad, sem vér vidþurfa mundum alla æfi vora? sem talid hefir alla vora daga, og fyrirfram lagt grundvöllin til allrar vorrar lucku, sett vorum ólucklegu tilfellum takmörk, og stýrt þeim oss til lucku? kan nockur lucka meiri ad vera enn sú, sem grundvöllud er á þessari trú, þessari fullvissu? en hvers vegna veitir þér þá svo ordugt, sála mín! ad láta sannfærast hér um? yfirvegadú eginlegleika þíns Guds, sem hefir skapad þig og hingad til vidhaldid þér; líttú til Jesú, af hverjum þú vænta mátt alls frelsis í þessu og ókomnu lífi; yfirvegadú þau dýrmætu fyrirheit, sem hin trúfasti Gud hefir géfid þér í sínu ordi; yfirvegadú hvernig þeim hefir vegnad, sem hafa reidt sig uppá Gud, og lærdú af öllu þessu, ad sá almáttugi ber umhyggju fyrir þér, med födurlegri trygd og guddómlegum vísdómi. Vér höfum fullkomna roksemd fyrir þessum sannleika, vér mættum annars efa allt, já, ad sólin sé björt, og ad vér sjálfir séum til, ef vér í nockru





efa villdum forsjón vors Guds; vér bljótum því ad audsýna vora trú í verkinu, þegar í dag sleppa ollu vøll, ollum qvída fyrir þeim ókomnu tímum. Vér skulum lifa allteins og þessi fullvissa krefur, ad sonnu varléga og med forsjálni, en þó áhyggjulausir og gladsiña og fela oss og oll vor efni á Guds vald; hegda oss allteins og hlýdin born og oldúngis reida oss á umbyggju vors vísa og náduga Fødurs, sem elskar oss heitt og vill alla þá umonnun fyrir oss bera, sem hañ sier oss vid þurfa og oss er fyrir bestu. Þá audsveipnustu hlýdni ber oss ad veita ollum hans bodum og fyrir engu odru umbyggju bera eñ því eina, ad vér æfum þær skyldur, sem hann krefur af oss. Já, þó oss sýnast mætti einhvern tíma, ad hañ svipti oss siñi náð, megum vér samt ecki láta hugfallast, heldur allteins øruggir og Job var undir sínum þjáningum, jafnan taka oss þau ord í muñ: aldrei skal eg afláta uns mín endalykt kémur, ad vona á Drottiñ, því þótt hañ deydi mig, skal eg samt á hañ vona. Fengjum vér ad eins inurætt vorri sálu þetta gudrækilega sinnislag, mundu alls eingin lífsins umskipti eda breytingar, engin oláns tilfelli, sem oss mætta eda vér

qvídum fyrir, koma vorri von til ad skeika eda deyfa vort trúar-traust, í hverri helzt óróssemi og biltingum, sem mætti adkoma. Midt í enum qvídvænlegustu óláns tilfellum mundum vér gladir og hughraustir vardveita stoduga þolinmædi í sálum vorum, en engu ad sídur njóta þessa lífs med ánægju; vér mundum þá heldur eckí varir verda vid nockra þá nærverandi óró- semi, er svo mikiñ fjølda manna hrella kañ á þessum tíma. Prísa mundum vér þá Gud fyrir þad lidna líf, gledja oss í því nálæga og óqvídnir vænta ens komanda, er í hønd fer. O Gud! vyrdstu ad styrkja oss í þessari trú og gjøra æ hæfari og verdugri þinar nádarríku umsjónar.

## 40. Hugvekja.

Svo skal ei framar nockur neyd, né heldur þessa líkhams deyd, mér frá þér megna ad venda! o Drottinn! eg er ástkjær þér, elska vil eg þig stødugt hér, en annars heims án enda. Send mér, sem þér þócknast gledi, þjáning medur, þig alvísann, eg vil þó safnan í öllu prísa.

Svo lengi, sem vér lifum í heimi þessum, megum vér sífellt búast vid því,

ad ógédfeld tilfelli bert einnig; oss ad höndum; ad óska sér einúngis óblandadra ánægjudaga hér í lífi, það væri ad krefja þess, sem ómögulegt er í svo umbreytingasömum heimi, sem þessum, er vér byggjum. Það væri og jafnframt hættulegt fyrir vora sönnu velferð; þared vor líkhami er, eptir náttúru sini, yfrid veikur, vor skynsemi mjög sljó, en girndir vorar svo ósedjandi; þared margir þeir, sem vér hljótum ad umgángast í heiminum, eru svo ótryggvir, egingjarnir og kjærleikslausir og allir hlutir umhverfis oss æ svo óstødugir, svo svipulir, já, sjálfir vér eigum einúngis skamma tíd fyrir höndum ad lifa hér á jördunni, hverju megnum vér vænta þess, ad lífsstundir vorar blandist ecki ødruhverju med ógédfeldum augnablikum? og þó það mögulegt væri, ad vér gætum frír vordid fyrir øllu ógédfeldu, hverjir óholl mundi ecki sú sífeldа lucka voru andlega ásigkomulagi? í hverju gudlausu andvaraleysi mundum vér þá ecki fram ganga? hversu lítid mundum vér þá skeyta um Gud, æfilok vor og eilífdina? því er midur! vér verdum þess varir hjá sjálfum oss, hversu vidvarandi óblønduð lucka



blæs oss upp og gjörir tilfinníngarlausa, vid serhverja kristinndómsins advörun og áminníngu; hversu miklu skadvænni mundi þá ecki fyrir oss enn þá meiri og varanlegri lucka! o! hvad megum vér þá ecki þacka þér, vor gódi Gud! ad þú höndlar svo nádarsamlega vid oss, ad audmýkja oss á stundum med eymda og mótlætis tilfellum; sérhverr af oss má efalaust vidurkénna: ad ef vidvarandi lífsins lystisemdir og ánægja, hefdu sífellt fallid í vort skaut, mundum vér sannarlega á þessari stundu ecki hafa hugsad til þín; í þess stad mundum vér miklu heldur hafa látid oss umhugad, ad halda áfram í syndum og löstum, enn leita vorrar gledi í umgengni med þér. Lofadur vertú því, elskulegt Fadir! fyrir þad ástand, hvers þú unntir oss. Med audmjúkri lotníngu og þacklæti kyssum vér á þína Fodurhönd, sem áthlutad hefir oss fáein mædu augnablik mót svo mörgum gledistundum; og þó eru vissulega þeir sorgar-dagar fáir, sem vér höfum lifad, og vort mótlæti léttbært, þegar vér samanberum þad vid margra annara medbrædra. Vér þurfum einúngis ad renna augum vorum til margra sjúkra og sárra

vesælinga, margra fátækra hjálparlausra, sem ásamt oss lifa í heimi þessum, og þá minnum vér þess brádt varir verda, ad margur einn hefdi fullt efni til ad öfunda oss af vorri léttu byrdi. Vér höfum góda heilsu og heilbrygdi, eda vér lifum med glödu, ánægdu hjarta, ellegar egum trúann, einlægann ástvin; hvert af þessu fyrir sig, má gjöra oss ihaldna, þó vér höfum þad ecki allt saman. Vér viljum því ecki mögla eda örvæntast fyri þad, þó Gudi þóknist ad láta oss nockra, enn litla, hlutdeild fá þeirrar mædu og eymda, sem hann af nádarríkum tilgángi hefir úthlutad þessari jördu. Hverr veit hvada mótlætti vér egum enn þá vid ad búast í þessu lífi? hvad helzt þad verdur; viljum vér þess bída, og styrkja vort hjarta med öruggri von til hans, sem úthlutir því. Þar um erum vér fyrirfram fulltrúa, ad þó Gud hafi áqvardad oss nockrar þjáningar, hefir hann inndireins áqvardad hugggun og endurnæringu oss til handa. Efalaust þurfum vér, í þeim kríngumstædum ad væntta alls góds af hans mildu forsjón; og þó ad nockud af þessu bregdast kynni, sem vér nú í voninni huggum oss vid, er þó hitt víst



uppá ad byggja, ad daudiñ mun efliflega svipta oss ollum eymdum. O vor Gud! vér skulum fram gánga, med þeim stødugu ásetníngi, ad leggja oss med audsveipni og audmýkt undir þína vísdómsfullu, fodurlegu stjórnun. Hafir þú ásvardad oss blída medlætis daga, viljum vér kappkosta ad brúka þá med þacklæti; en hafi þitt vísa ráð heldur valid oss sorglega tíma, skulum vér einnig taka þeim fúsir og prísa þig eins fyrir þá, en med holinmædi, von og vilíngri undirgéfni leggja oss undir þína Fødurhønd, sem aldrei úthlutar þínum børnum ødru en því, sem gott er og þeim heilsusamlegt.

## 41. Hugvekja.

Mín hjálp kémur frá Drottni, sem skapad hefir himin og jørd. Psálm. 121.

Ef ad vér einúngis ættum ad reida oss á vora egin krapta, ef ad vér þyrdum ecki ad trúa á þañ Gud, sem gjørvalla náttúruna hefir í siñi hendi, sem niðurradar hlutaña gángi, sem ber umsjón fyrir ollu því, er hañ skapad hefir og stýrir øllum tilfellum med vísdómi og gædsku, og ef vér nú ecki vissum, ad þessi almáttugi

Skapari væri vor líknsamur Gud og Fadir, hvad mundi þá af oss verda í heiminum? eckert hæli hefdum vér þá í naudunum, enga huggun í sorginni, enga ánægju í luckunni og enga rósemi í daudanum. O! hversu aumir værum vér þá! hversu ólucklega glatadir! betra væri oss þá, aldrei ad hafa verid til, enn þannig ad hrekjast um í heiminum án Guds. O! hversu óttalegur mætti oss ecki vera sá þánki? hvernig kynnum vér med gledi ad sjá dagsins ljós? hvernig fengjum vér, án sorgar, risid úr reckjum ad morgni dags, eda lagt oss til hvíldar ad qvøldi, ef vér ecki gætum gjört þá skýlausu játníngu: eg trúi á Gud almáttugann Skapara himins og jardar? en, þared vér ná trúum þessu, og Guds Andi kröptuglega sannfærir oss þar um, mega hver helzt tilfelli mæta, sem vilja, vér munum sanit qvídalausir og rolegir taka þeim vandrædum, sem ad høndum bera. Vér skélfumst þá háskasömu tíma, sem adkoma kunna, en Gud getur á einu augabragdi umbreytt hlutanna óttalegasta útliti, og jafnvel þótt heimurinn forthýdist, verdur þó Gud vort hæli og styrkleiki allá tíma.



Ef vér skélfunst offóknir vorra óvina, hatur þeirra og vondsku, er Gud þó máttugur ad skýla oss og vardveita, innýkja og yfirvinna vondskufullar áráfir vorra offóknara; séum vér í háska, vegna vondra manna heiminglegra svikræda, getur Gud þó gjort þeirra svikrædi ad engu, þvi hjá honum er styrkleiki og visdómur; heimsæki oss fátækt og skortur, er þó Gud sá, sem hefir einúg þessi tilfelli í sinni hendi, hann fær umbreytt fátækt og skorti til ríkdóms og nægta; ef vér föllum í þungvæna sjúkdóma, svo vor náttúra hlýtur ad verjast vid daudan, hofnum vér engu ad sídur öruggann mód, þvíad Gud fær oss ecki yfirgéfid, þegar vér ad eins vonum á hann; hann mun gjøra vora sjúkdóms þjáningu þolanlega, endurnæra vort sorgmædda sinni, gledja vort hjarta med sinni huggun, vardveita oss í þess sídasta óvinar yfirfalli og medtaka vorar sálir í sitt miskunar skaut. Þannig megum vér rósamir og óqvídnir vera í öllum tilfellum og gledjast vid vors Guds nádugu stjórnun. Sá, sem stýrir heiminum, er mjøg mildirikur Gud, sem elskar oss, hvers gledi er ad gjøra gott, sem fær hjálpad oss og verndad, þó alls heimsins veldi

gjørdi samtök oss á móti, hans augu vaka yfir oss dag og nótt og midt í hans reidi, sem vér med syndum vorum høfum verdskuldad, minnist hann sinnar miskunar fyrir Jesúm Krist. Svo hátt upphafinn, sem hann er, lítur hann þó nidur til hinna litilmótlegu, og miskunar sig yfir þá aumu og hinar vesælustu sképnur sínar. Hallelúja! Því Drottinn, sá almáttugi Gud, stjórnar med gædsku og vísdómi! vér viljum fagna og vera gladir og géfa Gudi dýrdina. Þitt ord, o vor Gud! er øll vor huggan; þad er vor lífs-regla, uns vér fáum ad sýngja þínu nafni lof og eilíft Hallelúja í Engla og útvaldra sambúdum.

## 42. Hugvekja.

Rósøm samvitska' ef er ad eins, eign mín, hvad kann þá bløskra mér? hvad fær þá ordid mér til meins, megn þegar qvídi adra skér?

Þú leitar ad rósemi, sála mín! en þad er stadreyndur sannleiki: ad þú fær hana ecki fundid hjá nockrum skøpudum hlutum, því sídur hjá sjálfri þér. Settu því fyrst til sídu alla þá hluti, sem líf þitt gjøra svo órólegt, og hjarta þitt svo ángurvært; hefir þú sjed nockurn



ágjarnañ sífeldlega gladañ? Þeckirdú nockurn á medal þeirra voldugu á jördu, sem endi þañig æfina, ad hañ ecki mæti svikum, verdi opt ángurvær og leidist lífid? Til hverrar eldingar eda hættu fær hann sagt: þú skalt ecki hitta mig? og — staddur á brúsanda hafi — til bylgjuñar: þú skalt ecki dreckja mér? Lærdú þó um sídir ad kannast vid þiñ vanmátt. Megnar þú ad bjóda luckuñi ad fylgja þér eda óluckunni ad skada þig ecki? Kalladú á vortimann, ad hann enn þá bídi vid; bjod þú blómstursins fegurd, ad hún ecki svo hastarlega folni, en þetta mun ecki hlýda þér og þú mátt sífellt rósemdar sakna, Yfirgéfdú því sképnurnar og leitadú Skaparans; leggdú gjorvalla byrdina, sem á þér liggur, hversu þúng, sem hún er, uppá hann og láttú þig af honum endurnæra, þá máttú allra hluta vona, án þess ad verda á tálar dreginn í von þinni. Þær syndsamlegu girndir, þær óleyfilegu óskir, sú lockandi vellyst, mátalaus sjálfs-elska og allt þad, sem eykur þér qvol, mun þá frá þér flýa, en þú munt gladur verda vid hjálp þins Guds og vardveitslu; rósemd og birta mun umkríngja þig, dagar þínir og næt-

ur minu hjartari verda enn vordagamna sólskin. Sífellt muntú ánægdur vera med Guds þíns vilja, láta þér allteins nægja þinn deildarverd og þótt þú ættir oll ríki veraldar og þeirra dýrd. Fögnudur ens betra og komanda lífs mun gjöra þér allskyns umbreytingar, órósemi og mótlæti létt. O! mín sála! þú, sem á þessari stundu girnist máské rósemi, fær þú þér þessi medol í nyt, sem uppfylla munu þínar óskir. Leitadú ecki rósemis í þeim hlutum, er ad sonnu svæfa kunna þitt hjarta og gjöra þad tilfinníngarlaust, en fylla þad ecki neinum varanlegum fridi og rosemi. Settú þér tídum rétt skírlega fyrir hugskots sjónir, hina sídustu umbreytíngu, sem þú nálægist. Hvad helzt, sem ecki fær huggad þig í daudanum, er eckert, já, vissulega eckert varanlegt gott; en hitt, sem má gjöra þér daudann værann, þad er medalid, sem einnig kann ad gjöra þér lífid yndislegt; eckert, oldúngis eckert annad enn gód samvitska, fær þetta verkad. Stundadú þess vegna ad odlast þenna dýrgrip, þá muntú þar med finna allt annad samtengt, sem gjöra má þig ad luckulegri og ánægdri manneskju; gód samvitska mun vera þér skjöldur á móti ollum mót-



gángi, hún mun gjöra þér þessa lífs ględi yndislega, já, einúngeyngis þínar útlegdar þolanlega. O Gud! aldrei fáum vér bedid þig um dýrmætari blessun, en góda samvitsku. Þau tilfelli, sem þú áqvardad hefir ad oss skuli mæta, mega vera svo á sig komin, sem vilja, daudinn má adkoma þegar þér þóknast, vér erum engannveginn aumkunar verdir, þegar vér ad eins egum góda samvitsku. Styrk oss til ad ödlast og vardveita hana, o vor gódi Fadir! fyrir Jesum Krist. Amen!

## 43. Hugvekja.

Allstadar vidverandi Gud! vér þig í ellu sjáum: á hátign þína' í hverjum stad, hvörsum í stóru og smáu. — — —

Hvílíkur þánki er þad ecki, þegar vér íhugum heimsins stóru byggingu? þegar vér vitum, ad einhverr hlutur eda líkhami, er med hradasta flugi héldi áfram ferd sinni, þyrfti meir enn 20 ára tíma til ad fá komist til sólarinnar? Þegar vér hugleidum, ad stjarnanna óteljanlegt fjöldi er einúngis sólir, sem sýnast oss eins og smáir lýsandi púnktar, vegna þess ad þeir eru oss svo miklu fjærlægari,

eñ vor sól, hversu ógrípanlegur má oss þá ecki vera sá þánki, ad Gud gagnskodi gjørvalla veroldina, eins hennar minnstu parta? ad hann er nærverandi øllum verøldum, ad hann veit allt hvad vidvíkur sérhverri, jafnvel minnstu sképnu sinni? En hversu sem skynsemin fellur í stans vid þenna þánka, er þó sá sannleiki óbrygdull: Gud er allstadar; Gud er nálægur gjørvøllum heimi og hañ er einig nálægur oss. Eda mun þá sá gódi Gud, sem svo vísdómslega tilbúid hefir allann heimiñ, eins hañ andvyrdilegasta orm, ecki hafa til ad bera vísdóm og speki nóga til ad þeckja alla hluti? Mundi andaña Skapari ecki vita sálariñar þánka og ásetning? hvad fær hinn óendanlega iñilukt? hvad eñum ómælilega takmørk sett? hver speki má hiñ alvísasta bresta? hver makt fær hinum almáttuga apturhaldid? Maklega máttú falla í djúpustu undrun, sála mín! er þú hugleidir þetta; hverr má, sem ber, dást ad mikilleik þvílíkrar speki, sem med einu guddóms tilliti sjer og granskodar allra hluta byggíngu, sem veit og þeckir allt, telur allar himinsins stjørnur og undir eins hárin á þinu høfdi? hverr má, sem ber, dást ad



stærd þess máttar, sem verkandi er á öllum stødum og í öllum alheimna endimörkum, sem skapadi ormiñ, forsorgar hann og titlínginn, og þó undir eins vidheldur sólu og stjörnum um gjörvallar aldir þeirra? en, þó ad þig, mín sál! furdi þessi óútmálanlega hátign, ber þér öllu framar ad láta þessa sannleika vidurkénníngu, verka heilsusama umbreytíngu þíns hugarfars; veri þér æ í vakandi minni allstadar nálægd og alvitska þíns Guds; hugleid þú ydnglega ad Guds tillit þreyngir sér inn í innstu fylsni þíns hjarta, og ad hann sjer eina og sérhverja lystíngu,er qviknar í þínum huga, sérhverja girnd, og sérhverja tilknýandi orsök þinna athafna; hugleid þú og, ad enginn stadur er svo fjarlægur, enginn afkymi svo dymmur, hvar hann ecki sé nálægur og sjái þín verk; fái þá þvílíkar hugleidíngar haldid þér aptur frá vondu, munu þær verda þér huggunar uppspretta, sem aldrei uppþornar. Sú hugleidíng um þinn allstadar nálæga Gud, mun upplífga þig, þegar þú grætur í einrúmi; þegar þú stynur undir þeim mótlætínga þúnga, sem þú ecki mátt ødrum opinbera, en væntá þér

hjálpar þar med. Þú munt í öllum umbreytíngunum verda þar af styrkur; hvert sem þú fer og flækist, gengur þú allstadar fram undir umsjón þess Guds, hvers bodi og banni himin og jörd verda ad hlýda. Hañ, sem frá sínum veldisstóli lítur ofan til allra, er á jördu byggja, og stjórnar öllum sínum sképnum med vísdómi og gædsku; hann ber óendanlega umhyggiu fyrir þiñi frelsun, þiñi sáluhjálp. Þegar ótti Drottins ætíd og allstadar vísar þér veg, og þú framqvæmir þad, sem hans Anda er þócknanlegt, hversu óhultur, hversu farsæll framgengur þú þá ecki á öllum þínum vegum, uns þér á sídan audnast hlutdeild á himnum? Send þú oss, trúfasti Fadir! þína nad til svo ad framgánga hér, ad vér verdugir fiñast mættum þinnar trúföstu vegleidslu og umsjonar, á medan vér lifum. Amen!

## 44. Hugvekja.

Vitid þér ecki, ad heimsins vinátta er Guds óvinátta? því hverr, sem vill vera heimsins vinur verdur Guds óvinur. Jak. 4.

En — erum vér þá í nád vid Gud? þar um megum vér fullvissir vera, þeg-



ar vér eckert þad ad hofumst, sem ollir oss hans óvináttu, og því skyldum vér ecki var ast ad brjóta af oss vináttu Guds? þess Guds, sem gjort hefir oss svo margt og svo mikid gott, sem gefid hefir oss þetta tímanlega líf, og heitid oss hinu eilífa? þessa Guds, sem í sérhverju tilliti sýnir sig ad vera vor trúfasti vinur og velgjorari, já, vor ástríkur Fadir? samt sem ádur, þó vér af reynslunni þeckjum Gud þvílíkann, fáum vér samt, því midur! ecki med sønnu játad um oss, ad vér jafnan séum fullkomlega ánægdir med alla vegi Guds og hans mildu skipanir, svo vér þess vegna maklega mættum efast um hans nád og vináttu, er vér þar med svo þrálega af oss brjótum. Æ! látum oss því ollu ómaki betur enn hingad til verja til þess, ad læra ad þeckja bodord vors Guds, og hans trúføstu vegleidslu, sem hverttveggja er fullkomid og gott, þó oss ecki ætíd sýnist samsvara tilhneigíngu vorri; sú þecking mun sannfæra oss um, ad øll verk og rádstafanir Guds eru oss heilla- og ábata-samar. Vér munum þar vid fríast frá óánægju yfir Guds rádstofunum, og því sídur efast um þad, ad vér séum í vináttu vid Gud, já, fridþægdir vid Gud fyrir hans





Son og vorn Lausnara Jesúm. O! hversu farsælir erum vér þá! hversu lítilsverd er oss þá eckí oll sú heims lucka, sem menn almennast keppast eptir án Guds og medtaka án þess ad þacka honum? med hvílíkri medaumkun megum vér þá eckí vyrda þá fyrir oss, sem fíkjast eptir lucku, án þess ad láta sig nockud varda um Guds nád edur hans kjærleika, en gjora sér í lund, ad þeir ná nunni fullkominni sinnis ánægju og rósemd í þessum heimi af syndlegum hlitinni? Séum vér í nád vid Gud, má gjørvallur heimurinn vera svo óánægdur med oss, sem vill, því hann fær oss alls eckí grandad á medan hann eckí orkar ad svipta oss Guds nád; margir finnast og vissulega á medal manna gódsinnadir og unnandi dygdinni sammæla og verdskuldads heidurs, hverjum enga orsök ber ad gefa til klögunar eda reidi gegn oss, en sérhverr Rúm ekki illqvittni, sem eckí mætir oss nema af þeim vondu, er allt færa á verra veg, mun skyndilega hjadna, sem bóla vatns fyrir vindi, þad má og jafnvel nóg veldr til ad gjøra oss vini, þó vort góda hjartalag og kristilega framferdi eckí vært af kunnugt ádur; eckí skínandi í sérhvers



augum, ellegar vor góðverk ecki fengju enn þá lýst fyrir monnum; það skal oss þá nægja í leyndum gott að gjöra, ecki svo fyrir manna sjónum, sem fyrir hans augum, sem sjer hvað í leyndum skéður. Þegar hann álítur oss í náð, er oss fyrir minnstu, þó oss bresti lofstýr af monnum, já, sé Guð ánægður með oss, og ef vor tímanlega lucka kréfði, að hið góða, sem síng mætti í fari voru hrdi hér kunnugt, veitir hans forsjón álhægt þetta í ljós að leiða. Því skal oss um eckert svo umhugað, sem að ödlast þá fullvissu, að Guð sé ánægður með oss. Því skulum vér allt það ástunda, er þar til verka má, af ollum mætti; við sérhvert fyrirtæki, í hverju helzt standi, sem vér erum, skulum vér einarðt aðspyrja vort hjarta: mun Guð vera með þig ánægður? en verðum vér nockurs þess varir hjá oss, sem bægja megi frá oss Guðs náð, eður vér fyrir það hana missa, skulum vér láta oss hjartanlega ydra þess, hata og fordast það framvegis, en með stoðugum betrunar ásetníngi vanda vort líferni á komandi tímanum, og fyrir vor afbrot leita líknar hjá Jesú, fyrir hvers blóð, eður pínu og dauða, vér ydrandi

vænta megum fyrirgéfníngar, og med þeirri trú ødlast fullvissu um náð Guðs. Vér skulum einig kostgæfilega ástunda, að varðveita þessa lucku, stunda, að allt vort framferði ávinni oss vors Guðs og Jesú kjærleika; hañ sé vort støðuga mark og mið, þá munum vér njótandi verða þeirrar yfirgnæfandi farsældar, eins í sjálfum dauðanum voga að reiða oss á vinfengi Guðs. Hvílík blessan mun það ecki fyrir oss, þá að mega deya, sem Guðs vinir og sem hans óskaborn? þá mun óblønduð gleði fylgja vorri fullvissu um oss fyribúna ínngaungu í añañ æskilegri heim, hvar Gud eilíflega vera mun vor vinur, og vér eilíflega verðum hans eign.

## 45. Hugvekja.

Herra! bænheyrðu mig á neyðarinnar degi, nafnið Guðs Jakobs frelsi mig. Ps. 20.

Hverr dagur hefir sína þjáníngu, en sérhverr dagur færir oss einnig sérlega velgjørnínga; til að sañfærast þar um þarftú, sála mín! einúngis að samlikja þiñi daglegu eymð, við þína daglegu lucku; hvað høfum vér daglega að bera? vér finnum máské til erviðisins þúnga,



máské fátæktarinnar ørdugleika, vér líd-
um máské baktal eda órétt af mönnum;
máské vér finnum hversu þúngt veitir ad
bera veikann líkhama; hversu þúngt ad
sporna og sjá vid syndunni, ellegar máské
önnur heimingleg eymd, huld sorg, neydi
oss til ad qveina og andvarpa sárlega.
Þó vér nú reyna mættum eitthvad af
þvílíkum bágindum, þó oss mætti þáu
öll sérhvern dag, megum vér samt vid-
urkénna: ad sérhverr dagur ber oss síná
blessun. Einn sólar-geisli, sem vermir
oss, einn dryckur, sem svalar oss, einn
braudbiti, sem sefar vort húngur, svefn-
inn, sem endurnærir oss, vinnan, í
hvers fadmi vér lifum ánægdir; allt
þetta er oss blessan. Sérhvern dag um-
lídur oss Guds þolinmædi; sérhvern dag
verkar hans Andi í vorum hjörtum; sér-
hvern dag megum vér bidja vorn Gud;
þetta er vor daglega ánægja; en, hversu
mikla gledi gefur oss ecki hans margvís-
leg nádar rádstafan? gledilegar, gédþeck-
ar fregnir, fengin sigur yfir hjarta vorn,
óvænt heppni og jafnvel þær heillir, sem
vér ödlast megum af sjálfu mótlætinu,
ad verda audmjúkir, vitrir, þolinmódir
vid reynsluna, er allt þetta til samans og

hvad eitt sérklagi ecki sannarleg lucka? er þá sérhverr dagur, sem vér lifum, ecki sannur velgjorningur vid oss? vér segjum: vort líf er stutt, en einn dagur er þo styttri enn allt lífid, og ein þjáning opt styttri eñ heill dagur, en Guds náð varir eilífiega. O! ad vér mættum, vid þessar hugleidingar, venjast af ad qvarta um skør fram, þó eitthvert mótlæti oss ad höndum beri, eda þó vér ecki alltaf bødum í rósum. O! ad vér vildum eins náqvæmlega telja fram Guds velgjorninga vid oss, eins og vér gjørum oss ómak fyrir ad auka vora qvøl og margfalda vorar egin mædur. Enganñ dag lifum vér þañ, ad oss vanti tækifæri til ad íhuga gæsku vors himneska Fødurs; séum vér ad eins eptirtektasamir um hans fødurlegu rádstafanir, munum vér á sérhverjum degi vors lífs, hversu mædusamur og mótlætingafullur, sem hann verda má, þó finna nóg efni til ad prísa og lofa hann; því ber oss ætíd ad vera ánægdum med hans stjórnun, og í øllum tilfellum halda oss fast vid hann í von og þolinmædi. O! mín sál! haldtú þá hóf í øllum umqvørtunum; því hvad



er þad, sem hryggir þig? máské jardnesk og fánýt gledi, sem sá Alvísi hefir þig svipt? máské eitthvert óhappa tilfelli, sem Gud baud verda þér ad enn meiri lucku? máské einhver hindran þinnar velgengni, sem seinna má verda þér til góds? því viltu þá qvarta og klaga? Nei! — vertú ætíd hughraust og vonadu á Drottinn; gleymdu því aldrei hversu gott Gud gjörir þér, jafnvel þá, er hann þig typtar; yfirvegadu jafnan þína ákvördun og tilgáng Guds med því ad bæta þér vid í heiminum. Umbreytíngar þíns lífs eiga ad minna þig á heimsins fallvalta óstödugleika og himinsins órjúfanlegu gledi. Senn mun eilífdarinnar dagur uppremna þér og þá mun engin þjáníng, eckert andstreymi framar til vera, heldur einber heill; engar typtanir, heldur einskjær nád; engar andvarpanir, heldur lofsaungvar einir; þá munt þú gleyma allri sorg, en þó þú minnist hennar, muntú samt gledja þig þar vid, ad hverr einn dagur, sem þú lifdir hér, hafdi þér til betrunar, þér til uppvakningar og lærdóms, einnig nockra þjáningu medferdis.

# 46. Hugvekja.

Hverr, sem veit nockud gott ad gióra, en gjörir þad ecki, honum er þad synd. Jak. 4.

Hversu margar stundir munum vér eckt mega halda tapadar, þegar Herrañ loksins krefur reikníngs fyri þær? mun hverr eiñ af oss þá framkoma fyri Dómarañ og segja: Herra! eg hefi á sérhverri stundu giört þad þú baudst mér? má eckt miklu framar margur á medal vor hiñu qvida, ad hans sanna játníng verdi: svo margar þúsundir stunda hefi eg aflífad og á medal þeirra svo margar, á hverjum eg hefi eckert giört, eñ eydt miklu fleirum med syndugu athæfi? Hversu margar stundir hefi eg ecki brúkad til ad sedja mínar girndir? og þessar stundir eru tapadar. Hversu margar eru ecki þær stundir, á hverjum eg forsómad hefi þad góda, sem eg var skyldur ad gjöra og hafdi svo opt tækifæri til? og þessar stundir eru tapadar. Hversu mörgum stundum hefi eg ecki varid til ónytsamlegra og jafnvel fáfengilegra fyritækja? og þær stundir eru einig tapadar. Hversu margar stundir hefi eg ecki brúkad til þvi-



likra hluta, sem ad soñu áttu ad gjorast, en vóru þó ecki gjördir í þeim tilgángi, ad vídfrægja|Guds dýrd og efla vorra.medbrædra heillir? einnig þær stundir erú tapadar. Hversu mørgum stundum eyddi eg ecki til þeirra hluta, sem ad soñu vórú syndlausir, en urdu syndsamlegir, þared þeir gengu út yfir takmorkin, sem Guds Bodord høfdu mér fyrisett? og þær stundir erú tapadar. Þegar vér nú einlæglega ranseknum vort umlidna líf, vóru þá ecki flestar vorar æfistundir þannig á sig komnar? megum vér þá ecki gjøra þá sorglegu játníngu; ad flestar vorar stundir séu illar sóadar? en hversu margar stundir munum vér eptir ega enn þá, til ad útsóa þannig? munum vér enn þá ega svo margar stundir olifadar, ad vér endurkeypt fáum vora svølludu tíd? máské vér varla enn þá egum eptir áttunda part ad lifa mót þeim stundum, sem vér híngad til eyddum; máské oss nú ad eins sé þessi stund leifd. Æ! látum oss þá brúka þetta augnablik til þess, ad ydrast vorrar vanbrúkunar umlidnu stundaña, og med allri alvørugéfni þenkja til þeirra komandi. Því færri, sem þær vera kunna, því dýrmæt-





art skulu þær oss; med tvofaldri umhyggju viljum vér þær brúka, og ecki láta oss úr minni lída þann tilgáng, sem vort gjørvalla líf hafa á, sem er, ad búa oss sem best undir þá laungu eilífd, svo ad vér í henni odlast mættum eilífa farsæld. Alltaf viljum vér setja oss Jesú dæmi fyrir sjónir, sem enga eina stund forsómadi af þeim honum géfnar voru hér á jørdu; ydnir skulum vér vera í því góda, á medan bad heitir eñ þá í d a g. Daudans nótt dregur yfir þegar minnst varir, og þá fær enginn lengur erfidad, en audveldlega gétur missir eiñar stundar gjørt oss eilíflega ófarsæla. Ecki skulum vér gjøra oss umhyggju um bad, þó marga sorgar-stund beri ad høndum oss, því framar reynist vor dygd, því hreinni verdur vor ánægja, því stærri verda vor laun, vér munum finna endurgjald allra velbrúkadra stunda á sídan í himninum. Eñ þú, o Jesú! hvers gjørvalla líf var svo óstraffanlegt, og eñ hreinna, heldur eñ sú stund, hverja hinn heilagasti vor fær best lifad, láttú allann grandvarlegleika, allañ verdugleika þíns heilaga lífs, forlíka fyrir allar vórar, til ills og ónýtis eyddu æfi-stundir; géfdú oss nád til á þess-



ari stundu og jafnan ad hugleida og gjöra þad eina, sem heyrir til vors fridar; einuig þessi stund er vor nádarstund. Gjör þú oss hæfilega til ad lifa þannig, ad þessi stund verdi oss ecki til ótta í daudanum, né til áfellis fyrir þínum dómstóli í eilífdinni! Bænheyr þad, o Jesú! Amen!

# 47. Hugvekja.

Allir vegir Drottins eru einskiær miskun og sannleiki fyri þá, sem vardveita hans sáttmála og vitnisburd. Psálm. 25.

Ýmisleg mörg, dymm og sorgleg tilfelli eru samtvinnud í voru lífi hér í heimi; vér vitum ennþá ecki hvert þeir vegir muni oss leida, á hverjum Guds forsjón bydur oss ad gánga. Vér sjáum fyrirætlanir enuþá ófrámqvæmdar, torfærur, sem bágar synast yfirferdar; vér verdum nockurra tilfella varir med framtid, sem vyrdast gagnstæd nádarríkum tilgángi Guds og ymislegrar útbytíngar hans velgjörnínga, sem vekur oft ad eins sorglegan eptirþanka hiá oss. Margir vorra medbrædra í heiminum synast oss nád hafa, í ydjuleysi og lostum, átjósanlegustu lucku, hverja vér





med ølln því ómaki, sem vér til ens sama vørdum, aldrei sámm ødlast. Vér sjáum þarna einn heilbrygdann midt í svalli og óhófi, en hér annann beygdann af krøm og veikindum, med allri hans hófsemi. Vér sjáum einn vyrdtann, elskadann, vel metinn, þó med litlum eda engum yfirburdum yfir hvern óvalinn mann, en þar á mót márgann rádvandann og dugandis mann af mørgum hatadann, øfundadann, bakbitinn, lítilsvyrdtann, med allri hans dánumennsku. Þessi og þvílík tilfelli ens mannlega lífs, leida oss tídum til sorglegra umþenkinga og moglunar á móti Gudi. En — þegar vér nákvæmar yfirvegum allt þetta, megum vér prísa Gud eins fyrir þad, ad vér finnum adrar røksemdir til þessarar guddómlegu rádstofunar; af hverjum vér þeckt fáum luckunnar umbreytingar betur ad samsvara vísdómi Guds og gæsku. Þau vøld, sem hinn óverdugi keppist svo ákaft ad ná, eru honum opt falls ollandi; óhófsams svallara og sælkera munadarlífi, verdur einhverntíma ólífjan hans heilsu; vidhøfn og skrautlæti hins drambsama vard ad einberum hégóma; heimsins hól og hrósanir steyptu hinum metordagjarna

 

ónytjúngi, og útvortis lucka óráðvandra, bjó sjálfum þeim hastarlega biltu þá minst varði. O þú alvísa forsjón! ecki viljum vér lengur lasta þínar ráðstafanir, hvörsu ó-ljósar, sem þær á stundum vyrðast vorum skamsýna skilníngi, því myrkari, því hulð-ari, sem þinn tilgángur er oss, því farsælli mun hann oss reynast; ecki skal það oss ángra, þó oss finnist þínir vegir á stundum krókóttir, heldur giora oss rólega við yfir-vegun margra þeirra dæma, sem vér á stundum sjáum fyri augunum, og þó helzt þeirra, sem vér heyrum opinberaða í þínu orði; þann dæmi hefir þú géfið oss til upp-lýsíngar og huggunar um þína náðugu forsjon, til þess vér ætíð skyldum treysta þér einum, hvörsu báglega, sem áhorfast kann og hvernig, sem allt veltist hér. Þú ert sá, sem með sérlegri náð minntist á Nóah í því almennilega og mikla synda-flodi og sem uppihéldst örkinni í vötnum og offaregni. Þín forsjon varðveitti og leiddi Abraham frá ættingjum sínum til þess fyrirheitna landsins. Þú leiddir Jakob á hans ferðum; þú forst með Joseph í Egyptaland, og frelsaðir hann frá allri eymd; þú bauðst hröfnum að færa þínum Spámönnum fæðslu; þú hélst Davíð frá

hjardar geymslu til Konúngs tignar, og vér, erum vér ecki sjálfir vitni til þiñar dásamlegu forsjónar? hversu margir hildir vegir vors lífs eru oss nú ecki ljosir vordnir? hversu margt héldum vér ecki ólucku-efni fyrir oss, sem vér høfum sídan reynt, ad vard medalid til vorrar lucku? hversu opt hafa ecki þau harma tár, sem vér úthelltum á sorgar-døgunum umbreytst í føgnud og gledi? hversu opt høfum vér ecki byrjad þann dag med harma-kløgunum og qveini, sem vér endudum med fagnadar loffsaung til Guds? og hversu augljós mun oss þá ecki í himninum sídarmeir verda vísdómur og gædska allra þiña rádstafana? Eilífi Gud! vor trú og traust á þinni Guddóms forsjón verdur æ því meir ad aukast, sem vér óefanlegri røksemdir finnum um þína mildiríku forsjon; vér viljum med trúar ørуggu hjarta vænta þess alls af þér, sem naudsynlegt er, til vorrar sonnu lucku og farsældar; alla vora vegu, øll vor efni viljum vér fela í þitt vald og umsjón, og undir eins stoduglega vona, ad þú munir allt vid oss vel gjøra; vér þeckjum ecki þá vegu, um hverja þú vilt leida oss, en þetta vitum vér og þad hughreystir



oss, ad hvernig sem þeir oss álengdar byrdast, munum þeir þó, vid náqvæmari yfirvegun, gefa oss ætíd nóga orsök til þeirrar vidurkenningar: Drottinn! rétt-látir og sannir eru þínir vegir! þú ert hulinn Gud, þú, Israels Gud, vor Frels-ari! lofad veri þitt nafn ad eilífu!

## 48. Hugvekja.

Bidjid baflátanlega. 1 Thessal. 5.

Bænin er eitthvert dýrmætasta medal til ad gjöra oss hæfa til medtöku Guds velgjörninga; því ecki er vegurinn neinn einn til þess, ad ødlast vináttu Guds, sálar ró og von um eilífa himna-ríkis sælu. En — hverr er nú þessi vegur? hann er audmjúk medkenning vors veikleika og allra vorra misgjörda, eu ørugg trú og traust til miskunsemi og gædsku hins allrahæsta Guds. Til þessarar aud-mýktar og trúnadar trausts fær trúnd bæn leidt hinn beinasta veg. Þegar vér skynsamlega ákøllum Gud og bidjum hann eins hvers, hvad helzt, sem vera kann, med hvílíkri tilfinningu egin vanmáttar, hvílíkum ordum ber oss þá fyrir hann ad framkoma? mun þad ske án þess neyd-

in,bendi oss til, hversu vanmegna vér erum heñi sjálfir af ad létta, og þess vegna undir eins til ad audmýkja og vidurkénna oss óbœfilega til ad vidhalda, vernda, betra og helga oss sjálfa? vogar þá nockurr af oss ad treysta svo á siñ egiñ sánýta mátt og alls engañ verdugleika, ad hañ ecki segi med Abraham: Herra! eg hefi dyrfst ad tala vid þig, þó eg sé einúngis dupt og aska? dyrfist þá nockurr af oss annad enn játa med Jakob: eg er allt of óverdugur allrar þeirrar miskunar og trúfesti, sem þú hefir audsýnt mér? einkum þegar vér gætum þess, ad vér frá barnæsku vorri erum af syndinni fleckadar manneskjur; jafnvel þo Gud frá barndómi hafi gefid oss óteljanleg merki og sannfæringar um sinn kjærleika, höfum vér þó svo gálauslega, svo mótþróanlega brotid hans bodord. Þegar vér dyrfumst enn þá ad bidja Gud um fleiri velgjörnínga, megum vér þá ecki andvarpa med audmjúkum anda og segja: Drottinn! høndladu ecki vid mig eptir minu óþacklæti, endurgjald mér ecki eptir misgjördum minum? í hvílíku ástandi sáum vér eckert annad gjört, enn sett allt vort traust til Guds nádar, fyrir Jesúm



Krist; ecki faum vér reidt oss uppá eg-
in dygd vora, sem er svo veik, svo ófull-
komin, svo blöndud breiskleika, heldur ein-
úngis uppá verdskuldun og fridþægíngu
vors guddómlega Frelsara. J þessari
trú megum vér þar um fullvissir vera,
ad Gud ecki muni synja oss þess, sem
efla má vora sonnu og varanlegu luckú;
med því innilegri hjartans vidqvæmni,
sem vér andvorpum til Guds, sem vors
mildirikasta Fødurs, því øruggara verd-
ur vort sonarlega traust á honum; því
náqvæmlegar, sem vér setjum oss fyrir
sjónir ad ødru leiti vorn óverdugleika, en
ad hinu, fridþægjandi pínu og forþénustu
hans Sonar, því óhvikulli og sigursælli
verdur vor trú. Vér verdum þar vid
hæfari til ad medtaka Guds ómetanlegu
nádar gædi. Þad er í trausti Jesú
fullnægju-gjørdar fyrir oss, ad vér med
gledi og djørfúng vogum ad nálgast, í
audmjúkri bæn, vorn himneska Fødur;
o hvílik heiløg gledi! hversu óútmálan-
legur føgnudur! hvílíkur forsmeckur
hinnar komandi himnesku sælu géfst oss
þá ecki í bæninni! o! ad vér því ecki
lengur vanrækja nædum, ecki lengur med
gáleysi æfa svo heilaga ydju! o! ad vér

þó vilðuun yðuglegar yfirvega hver lucka það er fyrir synduga manneskju, að voga að tala í bæn sinni við Guð og kalla hann sinn Föður!

Upp til himins með hjarta hreint,
Að horfa' og segja: Guð minn! þú,
Ert æ mitt athvarf ljóst og leynt,
Hver lucka veitist stærri' enn sú?

Sæl ertú, kristna manneskja! sem grundvallar þína trú á Jesú friðþægingu og fyribón! o! hvílík lucka þér, nú þegar þér í lífi er gefin: að hann vill heyra þína bæn og þitt ákall, sem er þinn góði og almáttugi Faðir? hvílíka rósemi finnur þá ecki sála þín, já, fögnuð, sem útpressa mætti einber gleði-tár af augum þínum, þegar þú upplyptir þeim til Guðs, sem er þér allt og þín öll von? Þessi luckú, þessa rósemi má vor auðmjúk og trúarörugg bæn afreka oss, þá munum vér reyna, hverju kroptugt þetta farsældar medal er, til að styrkja vorn hug og vora von. Vér framgaungum þá, líknarfulli Faðir! hraustir og óqvíðnir undir þinni varðveitslu og náð og styrktir af þínum krapti; glaðir tökum vér á móti sérhverri sorg, nauð og hættu, sem aðkoma kann. Þannig í vorum bænum að mega unn-



gångast hig, o vor Gud! hér á jördunni og vænta enn framar ad vera á sídan eilíflega hjá þér í himninum, þad sé æ vor huggan og vor gledi, vor styrkleiki og vor vegsemd í lífinu. Amen!

## 49. Hugvekja.

Vitid þér ecki ad þér erud Guds musteri og ad Guds Andi byggir í ydur. 1 Cor. 3.

Ad vera Guds barn og musteri hans heilaga Anda, þad er sú ædsta farsæld, sem veita má ómetanlega mikla gledi sérhvérjum kristnum, sem hana á. Sénum vér Guds born og eilífs lífs erfingjar, hvsum vér þegar odlast miklu meira enn heimur þessi fær nockurntíma gefid oss ellegar frá oss tekid. Hvad er þad til á vorri jördu, sem framar megi auka oss hrigdir, þegar vér med vitnisburdi ens heilaga Anda erum fullvissir um velþócknun Guds? Máské oss hriggi misstir eda skortur einhverra jardneskra audæfa? en sérhvert Guds barn á oendanlég audæfi í vændum. Sé Gud vor Fadir, mun hann víst ala önn fyrir oss hér í lífi. Máské oss hriggi einhver æru-krenking eda byrdinga missir? en sönn





vér nockurntíma ædri vordíngu náð, enn heirrt að vera sameinaðir óendanlegum Gudi; þær sálir, sem af íbúð helgags-Anda eru hafðar upp yfir allra holdlegra girnda yfirdrottnum, heckja og gledjast vid adra lángtum ædri vegsemd, lángtum hreinni lystisemdir enn þær, sem hafa sín upptök af stundlegum og bégómlegum hlutum. Vér þeckjum og umgaunguimst þá jafnvel hér hañ Gud, sem er sjálfur kjærleikurinn, sem svo foður-lega lét sér um oss hugad vera, ádur eñ grundvöllur veraldarinnar var lagdur, sem er alvís, nádugur og miskunsamur Fadir og Gud, sem stjórnar ollum hlutum til vorrar sönnu farsældar. Vér þeckjum og reynum hann ad vera vorn trúfasta og eilífa vin, sem situr á Gud-dómsins veldis-stóli, sem af kjærleika til vor hefir allskonar ordugleika hins mæðusamasta lífs, og sjálfur látid lífid fyrir oss; vér þeckjum og finnum andans verkanir, sem uppfylla oss med fridi og gledi hins eilífa lífsins. Guds vinsengi og sálarinnar rósemi, er því vor ríkdómur, vor heidur, vor huggan og vor sáluhjálp hér á jördunni. Skal þá ecki svo ómunrædileg Guds nád vekja oss



til ad þjóna Gudi med því hreina fram-
ferdi? en — hvad er þó náttúrlegra enn
þessi þánki: eg er fyri trúna ordinn Guds
barn; holdsins girndir, heimsins fásinni
finn eg nú gagnstædar minni áqvördun
og vonin um hid eilífa líf, sem Gud hef-
ir verkad í mínu hjarta; allt of dýru
verdi er eg til þess keyptur, ad eg hér
eptir vera skuli helmsins og syndarinnar
þræll. Mín kostgæfnasta ástundan skal
því framvegis mida til þess, ad hryggja
ecki þann Anda, af hvers ibúd eg nýt
þeirrar lífsins yndælustu lucku, lífsins á-
nægju og rósemi og ad missa ecki aptur
þá nád, sem Gud, af óverdskuldudum
kiærleika, hefir kallad mig til. O! þú,
gódi guddóms Andi! innrættu siálfur
vorri sálu þetta þér þócknanlega hugar-
far; stjórna þú og upplífga oss, svo ad
vér med þinni vegleidslu mættum fá um-
flúid þær snörur, sem hold og heimur svo
optlega leggja í veginn fyrir vora dygda
æfingu; upplýs þú vor augu, svo ad vér
þeckjum þær háskasemdir, sem umkringja
oss, en géf oss öruggann hug og dug til
ad strída gégn þeim; leid þú oss á rétt-
um vegi, svo vér ecki villumst af hon-
um framá lastanna léttfæra veg, né þar

med leidumst enn lengra frá voru rétta takmarki; géf oss nád til ad veita þeim hendingum eptirtekt, med hverjum þú vekja vilt vora sálu, en ecki mótþróanlega ydurþagga þær; styrk oss á sorgar og neydartímar degi med þinni huggun og hjálp; lát vora fullvissu um þá sælu, sem vér eigum í vændum eilífdinni, æ sterkari verda, ætíd meir lifandi í vorri sálu; undirbú þú oss þannig, vor Gud! ad vér qvedja kunnum heim þenna med rósemd og gledi, hvenær sem þínum vilja hédanaf velþóknast.

## 50. Hugvekja.

Hverr vill skilja oss vid Guds elsku? hørmúng eda mótlæti? offókn eda húngur? klædleysi eda lífsháski eda sverd? allt þad fáum vér yfirunnid fyrir hann, sem oss elskadi. Róm. 8.

Vort náttúrlega vanmætti er oss af engu audsjáanlegra, enn þegar vér hugleidum svo margann gódann ásetning, sem vér høfum oss stødugt í hjarta, en aldrei verdur af oss framqvæmdur. Hversu margur ásetningur liggur ecki hulinn í vorum huga, er aldrei kémst lengra? Hversu mørgu lofum vér ecki Gudi á morgni hver-

 

inni í vorum daglegu bænum, þegar vér gaungum til altaris, vid viss tilfelli, sem gjöra oss hugsjúka fyri voru lífi? hversu tídum má ecki einbert gódur ásetníngur vera í stad vors gjörvalla kristindóms? og hvar er þá framqvæmdin? med hverju sönnum vér þá, ad ásetníngurinn hafi verid vor alvara? þad er einúngis víst, ad Gud hefir ecki hér í heldur látid oss skorta sína þeckjanlegu hjálp; frá honum einum kom oss sá gódi ásetníngur, med hverjum hann vildi fá oss uppvakta og leidda til ad æfa þad góda; en ad vér ecki látum þetta Guds verk í vorri sálu ná sínum tilgángi, þad vottar ljóslega vorn óvilja, vora leti, vorn mótþróa og vort gáleysi. Ad sönnu vantar oss ecki afsakanir og hindranir, en vóru þá vorar afsakanir æ sannar og hindranirnar óvinnandi? megum vér afsaka oss med vanmætti vorum, þar vér vitum ad Gud, eptir velþóknun sinni, verkar bædi viljann og framqvæmdina í oss? ellegar, vantadi oss tækifæri til ad framqvæma vorn ásetníng? hvernig fengjum vér og þetta sagt, án þess ad vort gjörvalla líf vitnadi á móti oss? hvílíkann skada höfum vér ecki gjört oss sjálfum? hversu mikid gott er ecki for-

sómad? hversu mörg tækifæri til eins góda höfum vér ecki þar vid misst? Vör samviska hefir ad sönnu máske nockud hrærst um siñ, en vort hjarta hefir sídan ordid því hardara og þverbrotnara, er þá ecki ad óttast ad vér höfum upptendrad med þvílíkri adferd, gudlegá reidi í gegn oss? O! ad vér værum eins stadfastir í vorum ásetningi, sem sá fortapadi sonur, er ecki ad eins ásetti sér ad snúa heim aptur til fodurhúsaña, heldur gjördi sig ad öllu ferdbúiñ, já, flýtti sér heim; máske vér byrjum nú á þessari stundu helgañ ásetning? ad miñsta kosti bæri oss ad gjöra þad. O! ad hañ þó, eins og fyrrum svo margur gódur ásetningur, ecki hvirfi burt samstundis! snúdu því öllum þínum hugreñingum, sála mín! til þessa efnis og géf þú med athygli gaum ad þeim gódu hræringum, sem í hjarta þínu uppkoma kuña; sládu ecki á frest ad framqvæma þeña ásetning, þar þú allteins lítid rædur yfir hjarta þínu og ókomnum tímunum. Endurnýadu nú á þessari stundu þañ sáttmála, er þú svo opt brotid hefir og vertu framvegis stödugri í þínum gódu ásetningi. Drottiñ Gud! hér er allt vert



hugarfar, allur sá ásetníngur kuñur, sem nú qviknar í vorri sálu. Þú veitst hversu breytilegt og hvikult, hversu veikt, hversu þverbrotid vort hjarta er; æ! gjör þad stadfast og øruggt og hlýdid í því ad æfa hid góda. Uppvektú vora sálu sífellt med godum og heiløgum hræríngum, sem þiñ Andi verkar í oss! hjálpa oss til ad framqvæma þann góda ásetníng, er vér nú byrjum, ad vér ecki vanrækjum vora sáluhjálp eda tortýnumst vegna þess góda ásetníngs, sem vér aldrei kappkostudum ad framqvæma.

## 51. Hugvekja.

Allt umbreytist í heimi hér, um harmakjør mín allteins fer; Gud farsæl afdrif gefur þeim, gædskan hans alveld stjórnar heim; þjáist hér hold og þoli hel, þar lídur mér um eilífd vel.

Eckert augnablik er til, sem er ødru fullkomlega líkt. Vort ástand umbreytist sífeldlega og — sem sérlegast er — vér verdum þess allteins lítid varir hversu hastarlegur óstødugleikinn er og hins, hversu fljótt jørdin á sérhverjum degi veltist í hring. Jafnvel oss þægi. legustu hlutir eru hvad mestum óstødug.

leika undirorpnir; nú erum vér heilbrigdir, gladir, ánægdir, en munum vér einig verda þad á næstu stundu! ské má vér stridum þá vid daudan eda einhverja sorg og mædu; einnig þetta augnablik, sem vér brúkum til samtals vid Gud, hverfur ódfluga burtu og hvar er þad nú? hverr þess vottur framar? Vissulega er þad sorglegt; þegar vér yfirvegum allra hluta ostödugleika og verdum þess sífellt varir, ad tíminn lídur á burt, rétt eins og reykur eda fossandi vatns straumur. Hversu opt gledjum vér oss ecki af blómlegum og heilbrygdum líkhama, af rjódum kinnum og hraustlegu yfirbragdi, af fjörmiklum sálar og líkhama kroptum, en skyndilega hverfur vor gledi, þegar oss rennur í huga, ad máské nú þegar verdi vor líkhami máttlaus, afskræmdur, orendur, vidbjódslegur. Hversu ánægdir erum vér ecki í skauti vorra kjærustu vina, þegar innvortis kjærleiki sameinar þeirra hjarta vid vort og sameginleg sorg gjörir vora eymd ad þeirra egin? en þegar oss hvarflar þá í hug, hversu umbreytanlegt og fallvalt þetta allt er, ellegar vér alvarlega setjum oss fyrir sjónir þan tíma, þegar vér munum apturlykja þeirra aug-

 

um edur og þeir vorum, æ! þá megum vér í hvert sinn hriggjast, þegar vér lítum þá og undir eins munum til þessa. En þið: ríkdómur, metorð, sællífi og von! hverju opt hughreystum vér oss ecki við yckur í voru lífi? en þegar vér íhugum yckar óstödugleika, hversu þeisk og sorgleg verdur oss þá ecki yckar umhugsan? hversu gladvært verdur ecki vort auga, við morgun sólarinnar upprúna, en hve sorgfullir verdum vér ecki þar á móti þá oss hvarflar í hug, að sólin líka einhvern tíma verdur myrk fyrir vorum augum og morguninn ecki framar gledur vort hjarta? Við þvílíka ógèdfelda reynslu, blöður vort hjarta að hriggjast, en hressttú þig upp, sála mín! láttú enga sorg yfirbuga þig; óstödugleiki jardneskra hluta má gjøra þig vísa og luckulega; sjálfur þeirra óstödugleiki sær opinberað þèr mikilleik Guds almættis; í hans hendi eru allar þíns lífs og luckn umbreytíngar, sérhver þeirra leggur sitt til fullkomunnar þess gjørvalla. Hversu jafngèdja máttú ecki lokfins vera, þegar þú hugleiðir náttúru þeirra hluta, sem hjarta þitt er svo fastlega bundið við? hversu léttara mun þèr þá ecki falla að missa þessa

hluti, þegar þú fyrifram hugleidt hafdir hversu mogulegt og líklegt þad sé, ad þú munir þá missa? Þú átt þó einkis ad njota af ollu því, sem þér fellur í skaut odruvísi, enn eins og þad væri á hlaupum. Þú mátt smacka lífsins saklausu ánægju, en hennar óstodugleiki á ad kenna þér, ad géfa þig ecki alla vid henni. Þú átt ad álita jordina eins og hennar gædi verdskulda, en vid endurminníngu þeirra forgengilegleika ad dempa þína of freku lanngun til þeirra; þacklát og undrandi máttu skoda og medtaka vordaganna fegurd, þeirra lockandi prýdi og heillasomu gladværdir, en læra þó þann vísdóm af sérhverju blómstri og laufbladi, ad hugleida endir allra hluta; þar vid á ad vekjast hjá þér lángan eptir betra og fullkomnara lífi, hvar engin umbreyting eda umskipti, engin óstodugleiki mun framar finnast. Því optar, sem forgengilegleiki og óstodugleiki mannlegs lífs verdur þér fyrir sjónir settur, því vissar sannfærist þú um þá farsæld, sem í betra lífi bídur þín og ad varanlegleiki þessarar farsældar muni þar umbúna þér allra hluta óstodugleika hér á jordu, þá verdur þú Guds og hann verdur þinn; já, eilíflega verdur hann þinn og



frá honum mun þig eckert fá skilid, ecki þreyngingar, sorg eda missir eda neyd, hverki helviti, líf né daudi.

## 52. Hugvekja.

Er Gud med oss, vér engri þá, óluckú þurfum qvída, hann má traust setja hverr einn á, í hrigdum mædu tida.

Hvernig, sem vér í huganum vyrdum fyrir oss vort ásigkomulag, í hverjum helzt lifsins umbreytíngum vér adgætum þad, sjáum vér ætíd og allstadar egin eymd vora, neyd og þarfir, en undir eins forsjón Guds því óddáanlegri, því vissari. Ef vér yfirvegum þad hjálparlausa ástand, í hverju vér bárumst inní heim þenna, þá sjáum vér, ad varla er í gjørvollum heiminum ad finna svo ó-særa skêpnu til ad bjarga sjálfri sér, sem manneskjuna; jafnvel þá, er vér høfdum nockrum þroska náð og odlast meiri krapta, vórum vér þó allt of vanmegna til ad útvega sjálfum oss forsorgun. Vér erum undirorpnir oteljandi útvortis mótlætingum og margvíslegri innvortis órósemi, þúngum hofudskêpnanna áføllum og annara manneskja ofbeldi, svo

ad oll mannleg forsjálni reyniſt nærſta veik til ad fá oſs fyrir því verndada, og allur vor kraptur ónógur til ad afſtýra þeim áfollum, ſem oſs eru búin af ollu þeſſu til ſkada og tjóns. Margar búngar freiſtíngar, margar huldar tálſnørur verda í vegi fyrir oſs, ſem vér hverki fáum þeckt né hindrad; vér kunnum ad rata í margar og ovæntar háſkaſemdir, ſem engin mannleg greind fær fyriſjed; vér erum undirorpnir margsháttar veikleika og ſjúkdómum, mørgum órétti, ſvikum og prettum af odrum, ſvo vér ørvænta mættum ad komaſt af, já, ølduúgis vanmegnaſt undir ſynda, ſorga og eymdanna byrdi, ef vernd Guds forſjónar ſkildi vid oſs. Auk allra þeſſara tilfella, ſem ofbjóda vanmætti vorum, þurfum vér enn þá ad ſtrída vid ſkort og ørbyrgd. Vér verdum varir hjá oſs fýſna og tilhnegínga, ſem vilja láta ſér fullnægja, ſem annars ángra og qvelja og gjøra oſs órólega. Ef ad vér hefdum nú enga adra hjálp í þeſſu áſtandi, enn vora egin krapta, hverſu illa yrdi vid þeſſu rádin bót, hverninn vorum ſkorti aflétt? hverſu fáar óſkir vorar fengjum vér þá uppfylltar? óſyrirſjed tilfelli, óvæntar



hindranir megna ad önýta jafnvel vort forsjállegasta áform og øll þau medøl, af hverjum vér væntum oss mestra heilla, duga allopt ekkert; því yrdi þad med øllu forgéfins, þó vér daglega risum upp árla, gjørdum nætur ad døgum og ætum vort brand med sorg, ef Guds adstod ecki blessadi vora ástundun og styrkti vor fyrirtæki. Sérhverr dagur færir oss heim sanñin um allt þetta; margvíslega og daglega verdum vér varir vid veikleika vorn, þørf og eymd vora. En, svo mjøg, sem þessi hugleiding mætti svipta oss hug og dug, svo kroptuglega finnum vér oss þó styrkta og hughreysta, þegar vér íhugum þañ sannleika: ad sá almáttugi himins og jardar Skapari, á hvern vér trúum, er vor Fadir og velgjørari. Undir hans umsjón gaungum vér med gledi á móti øllum þeim tilfellum, sem kuña ad hitta oss. Med fullu trúnadar-trausti afhendum vér øll vor efni í hans nádarríku stjórnun; af vorum Gudi, sem elskadi oss svo heitt, ad hann útgaf siñ eingétiñ Son Jesúm oss til endurlausnar, megum vér vænta oss alls þess góda, sem vort frelsi og sáluhjálp vidþarf; já, hann, sem gaf oss Soniñ, mun vissulega géfa oss allt gott med honum. Sú

von og fullvissa mun æ hughreysta oss í sérhverri eymd og neyd; hún skal oss jafnan nóg, þo eitthvad af tímanlegum munum bresti, og heimsins blídt atlæti umflýi oss, því sé Gud med oss, hverr kann þá vera í móti oss?

## 53. Hugvekja.

Æ! vøknum daudinn ádur enn kallar, oss á óvænt-
ri hédan stund; aldradir bædi og úngir falla, í
sótt og hraustir hels í blund. Sín afdrif fyr-
ir enginn sjer, ætíd vidbúinn sæll því er.

Hvílíkur ásetníngur er oss mønnunum hæfilegur, hverra líf er svo stutt, og þar hjá einka mikilvægur. Hversu skamm-ur tími er þad, sem vér egum enn þá ólif-adann? eru þad hundrad, edur eru þad færri ár? og þó þad væri nú einhver hin lengsta áratala, mundi þó ecki sú ei-lífd, sem alls enga áratølu né enda hefir, krefja øll vor ár til undirbúníngs? eda vitum vér fyrir vort banadægur? gét-ur þad máské ecki runnid oss upp med morg-undeginum? er þá undirbúníngur und-ir daudann nockurra ára, mánada, fárra daga eda augnablika verk? hlýtur ecki viðurkénníng syndarinnar og ángur af



heñi á undan ad gánga, eda vort hjarta og gjørvälla hugarfar ádur ad umbreytast, enn vér stígum þad mikilvæga stig, yfirum takmørk tímans og eilífdarinnar? hversu mikill eptirþánki, hversu miklir kraptar útheimtast ecki ásamt vidvarandi ydni og ástundun hér til? hversu naudsynlegt er ecki þess vegna, ad vér nógu snemma gjørum oss vidbúna, já, búumst sem best undir þetta mest áríðanda stig af øllum? Þad, sem enn er eptir af vorri hérvist, hvert heldur þad eru ár, dagar eda fá augnablik, hverfur ódum á burt og þessir ókomnu tímar munu þó auka vora fordæmingu á sídan, efad vér ecki brúkum þá forsjállega. Fyrr enn vér verdum þess varir, er vort endadægur upprunnid, og dandinn fyrir vorum dyrum, og þá mundum vér fyrst hriggvir skélfast, ad allur vor gódi ásetníngur í svo lánga tíma vard ad engu. Hversu skammann tíma egum vér enn ólifadann, spyrjum vér aptur? vér vitum þad ecki, og þessi óvissa ætti ad gjøra oss forsjála og umhyggjusama um brúkun vors lífs. Vér ættum ætíd þannig ad lifa, eins og sérhverr dagurinn væri sídästur vors lífs; vér ættum ætíd svo





ad breyta, sem vér mundum óska oss ad, hafa breytt vid endir vorra daga. Vér ættum ecki ad mæta voru enda dægri, sem vitskola menn og gárúngar, heldur med ytirvegun og gódum undirbúníngi; opt ættum vér ad spyrja oss sjálfa: munu þessar lystisemdir, þessar gladværdir, þessi ríkdómur, þessi metord verda mér, sem i daudanum, og eg álít þau nú, á medan eg lifi heilbrygdur? mun eg, þá med ánægju minnst géta þeirra athafna, sem eg nú hefi fyrir stafni, þegar eg á bana-sænginni renni augnunum til baka til míns lidna lífs, og hugleidi öll míns lífs-fyrirtæki? þegar vér höldum siseldt ófram þessari eptirgreuslun í öllum lífsins athöfnum, med réttri hjartans einlægni, og stödugleika, mætti hún, ad minnsta kosti hafa þá heilsusamlegu verkun fyrir oss, ad vér forsjálli, yrdum í brúkun jardnesskra hluta og vorum fyrirtækjum. Æ! tökum nú á þessari stundu fyrir oss nýtt og betra sinnislag; í dag erum vér einum degi elldri ordnir, ellegar, sem er hid sama, vér erum komnir einum degi nær grøfinni eñ í gjær. Líf vört kann máské einn þá ad vara nockra, en þó til vissu mjög stutta stund, ef



vér metum þad eptir augnablikum og jöfnum svo saman vid eilífdina; en uppá þessa svo stuttu, svo ódfluga og hvérfúla stundu á þó ad koma vor eilífa lucka eda óhamingja. Hvérsu dárlegt má þad þá ecki vyrdast, ad láta sér öldúngis úr minni lída, vegna þessa nálæga og þegar útrunna lífs vora eilífu áqvördun? eda, skulum vér, skynsemi gæddir og af Jesú endurleystir, vér, sem erum himinsins borgarar, lifa allteins og dýrin, sem enga réttuefnda skynsemi ödludust, hafa þess vegna engar skyldur ad varдveita, ecki heldur sektir fyrir þeirra vanrækt ad óttast? egum vér þá þánkalaust ad eyda þeim stundum, sem ecki eru vor eign heldur enn annad? skyldum vér hafa lifad svo marga daga, sem allur vor aldur innibindur, en géta þó ecki sagt um ein þeirra: þenna dag hefi eg verduglega lifad? skulum vér fresta vorri yfirbót uns hin lánga og ógnarlega eilífd yfirfellur oss midt í andvaraleysinu? Onej! onej! veri nú sá ásetníngur stödugur hjá oss öllum á sérhvérjum tíma, sem Gud unnir oss lífsins, ad hugleida og verka vora sáluhjálp, þá verdum vér sælir!

54. Hug-

# 54. Hugvekja.

Kénn mér þá vitsku, vel, svo telja; vegferdar minnar daga hér, ad þinn eg stundi' veg ad velja, vakni til sælu' og lífs hjá þér. O Gud! þá daudans dregst ad nótt, deyja géf þú mér vel og rótt!

Sá tími mun einusinni adkoma, sem svipti oss øllu því, er vér nú álitum ávinníng vorn. Vort líf, vor heilsa, vor tímanleg velgengni, metord og lystíngar, allt hvad vér kjært høfum í þessum heimi, varir þó ecki lengur enn til vors dauda dags, og þegar ad þessum degi er komid, eru øll vor fyritæki, sem vér ásett høfdum ad framqvæma, topud, vér hljótum þá ad snúa bakinu vid því øllu, sem vér nú álitum ad vera oss ávinníng á jørdunni. Hversu umþenkíngarverdur og þo óþægilegur, má ecki sá tími vera sérhverrar mañeskju náttúrufari, því daudinn er náttúrunnar óvinur; þad er því ónáttúrlegt ad bera engann qvídboga fyrir því, sem lífi voru er skadvænt; hversu þúngt er ecki vorri mannlegu náttúru, ad yfirgéfa sambúdir hinna lifendu, vorra kuñíngja, vorra ástvina, og sjá þann tíma nálægjast, sem leidi oss í hid ó-



kunna land eina daudu, hvar vér eilífliga-bindrumst frá þeim athøfnum, sem vér álitum oss hér naudsynlegar; ad ryckjast burt frá vorum allra bestu vinum, sem elskudu oss eins og sinn augastein, já, héldu oss ad vera þad tré, undir hvers skugga þeim var øll ánægja ad mega hvílast; ad fá alls eckert med oss tekid af allri vorri útvortis vegsemd og yfirlæti, nema lélégann moldar-hjúp, sem þó ecki fær líkhamann verndad fyrir rotnun og ørmanna nøgun: hversu fátæka gjørir oss ecki þessi tími? fátækari enn vér vórum allt frá vorum fædíngardegi. Uns vor dánda stund adkom, vorum vér máské virdtir og heidradir af hverjum manni; vor rád vóru sókt, vorum bodum var fylgt, þángad ad og ecki lengra nádi vor eignar-réttar á því, sem vér undir høndum høfdum. En, daudinn sviptir oss øllum eignar-rétti og allri eign og hvørki má framar heita um líkhama vorn og lík-kistu, né um grøf vora, ad þetta, ané heldur annad, sé þadan af vor eign; líkhama og kistu eignast ormar og rotnan, og sömu grøfina allopt adrir medbrædur vorir; inun ecki þessi tími mega óttalégur virdast vorri, vid þennann heim svo

fast bundnu náttúrn? efalaust má hann þad vera, þegar vér álítum dandañ eins og náttúrlegar mañeskjur; en — sem kristnir — ödlumst vér strax añad hugarfar; allt hid óttalega fær annad útlit í vorum augum; missirinn verdur vor ávinníngur, þegar vér álítum daudann eins og sannkristnum ber; því þegar vér náqvæmlega adgætum endir vorra náttúrlegu afdrifa, géfst oss ánægjanleg orsök til gledi. En, ó þú, lífsins og dandans Herra! þad er þessi hættusami tími, sem vér hugsum svo litid um, en skélfumst þó fyrir, því vid hans umhugsun hverfur öll vor lýstisemd. Æ! virdstú ad gjöra oss daudans umhugsun þæga og óttalausa og leida oss fyri sjónir vora réttlætíngu í daudanum frá syndiñi, vort fullkomnada frelsi, vora eilífu sáluhjálp, þad hnossid, sem vér keppumst eptir og þá lífsins og vegsemdarinnar óforgengilegu kórónu, sem umbuna mun alla vora mædu Gjör þú oss vitra, keñ oss opt og ydugleg ad hugsa — jafnodt og vorar æfistundir framlída — þannig: lof sé Gudi! nú er aptur eitt stig til eilífdarinnar áfram komid! Þegar nú loksins þar ad kémur, ad allar

vorar lífsstundir eru útrunnar, lát oss þá sofna útaf með ánægju í hjartanu, svo vér aptur megum uppvakna í eilífri gleði. Aldrei fáum vér hér í heimi meiri blessun oðlast, aldrei farsælla og rólegar lifað, enn þegar vér vitum og fulltreystum því, að þessi vor ósk muni verða af þér bænheyrð; já, þú munt bænheyra oss, mildasti Faðir! vér reiðum oss uppá þína miskunn og náð í Jesú nafni, og fulltreystum því, að sökum hans pínu og dauða, viljir þú einnig farsæla vorn síðasta viðskilnað, þegar vér ástundum að búa oss verðuglega undir hann, með því að hlýðnast þínum boðorðum, og á meðan vér lifum, ástunda að þóknast þér. Ó! vertú jafnan í vorum breiskleika máttugur! Amen!

## 55. Hugvekja.

Hvað viltú svo qveina og klaga, kjer útskipt þér, sála mín! því með sorgum svo þig naga? sjá! þinn Guð vill heillir þín; eg í Guði glaður er, Guð! mín sál fulltreystir þér, öllu' er reyn' eg viltú venda, til vegsamlegs og farsæls enda.

Að öll vor sorg og mæða í heiminum er svo óstöðug, géfur oss huggun í sérhverri eymd; enginn er frí frá sorg-

um og andstreymi á jørdunni um alla æfi sína; lofadur veri Gud, ad allar vorar mótlætíngar, allir vorir hrigdar tímar eru umbreytíngum undirorpnir! væri allt añad undir sóluñi forgengilegt og óstødugt, en eymdirnar einar óumbreytanlegar, þá hefdum vér fyrst efni til ad andvarpa og qveina yfir voru lífi; en oss til heilla og huggunar eru þetr útvortis hlutir, sem mega hryggja oss, allteins breytilegir. Opt þerrast vor tár í sama vetfángi og vér grátum, og þegar vér hyrjudum eina stund med umqvørtunum, endudum vér hana allopt med gledi, og hofum vér ecki einatt um æfi vora fundid marga þesskyns gledirika reynslu? hvérsu tídum veinudum vér ecki ad morgni dags; Drottinn hefir gleymt mér! en ádur eñ qvøldid kom, máttum vér vidurkéñna: Drottiñ miñtist mín og blessadi mig; jafnvel undir sjálfri mótlætíngañá byrdi, héfir Gud opt rétt oss þá endurnæríngu, sem lét oss gleyma allri vorri sorg; hvérsu óvidurqvæmileg var þa tídum vor umqvartan yfir varanlegleika eymda vorra! hvérsu grundvallarlaus vor vantrú, og ótilhlýdileg vor møglan á móti Guds for-



sjon! ef ad vér vildum leitast vid ad útvega sjálfum oss rósemi, géfum þá gætur ad þeirri náqvæmu og mildu forsjón med hverri Gud leidir sín börn. Jósephs líf, Jobs forlög, Davíds tilfelli, já, Jesú sjálfs nidurlæging, gétur sannfært oss um, hversu vísdómslega, hversu nádarsamlega Gud hagar breytingum þessa mannlega lífs. Því skyldum vér þá vanvyrda svo þañ náduga, alvísa Stjórnara allra mannlegra tilfella, ad vér ecki tækjum oss af þessum og óteljandi ödrum dæmum, huggun og gledi í vorum ókomnu lífsstundum? Hvernig fengjum vér verdskuldad ad lifa nockra glada stund, ef vér ecki viljum þolinmódlega umbera hluar ógédfeldu? Þessar nú nálægu stundir géta verid oss á einhvern hátt mótdrægar, því sífellt finnum vér nóg tilefnid, sem gjöri oss hugsjúka og ángurværa. Látum nú þessa stund vera oss til reynslu og æfingar i þolinmædi, til ad leggja oss med ánægju undir vors Guds vilja. Vér skulum enga áhyggju bera fyri ókomnu tímunum, heldur dæma um þá eptir hinum umlidnu, en einsetja oss ad lifa bædi þeña og sérhvern dag vel. Ecki skulum vér festa vora þánka

einúngis á mótlætíngum þeim, sem oss þykja nú máské bitrar, heldur minnast hinna tímanna, á hverjum vor neyd munt umbreytast til hagsælda og vor hrigd snúast í fögnud. Sé nú þessa tíma svo lángt ad bída, sem vill, hañ kémur samt efalaust, þó ecki yrdi fyrr enn vid umskipti tímans og eilífdarinnar. Þá mun allt þad fyrir oss upplýsast, sem oss er nú of myrkt og hulid, um tilgáng Guds med hans reynslu og bendíngar hér á jördunni; þá mun þad einnig heita mega um oss: byrjanin var undrunarverd, en endirinn vegsamlegur. En máské vér á þessari stundu egum vid engar mótlætíngar ad berjast, né þurfum ad stynja undir nockrum þjáníngum, en munu þá ecki heldur neinir aumir finnast í kríngum oss, sem nú andvarpa mega? í vorri breytni vid þá skulum vér leitast vid ad verda Gudi líkir, og svo framt vér megnum, lína og létta þeirra eymdum. Þad kjærleiks verk mun einhverntíma hughreysta oss, þegar vér erum í eymdum staddir, og þar ad auki áhýsa adra ad létta undir vora byrdi, þegar mótlætid heimsækir oss eins og þá, og þó þad yrdi ecki, mun samt Gud sjálfur verda vor



tkúfasit hjálpari, sem stjórnar öllum vorum mótlætíngum til farsællegs enda. Ó! hversu gladir megum vér ecki vera þá, þegar Gud stjornar öllum efnum vorum! hann minn og, vegna Jesú fridþægíngar, af oss létta allri neyd.

## 56. Hugvekja.

Eg vil þacka Drottni í mínu hjarta; eg vil segja frá öllum þínum dásamlegu hlutum; eg vil gledja mig og fagna í þér; eg vil sýngja þínu nafni lof, þú, allra Hæsti! Psálm. 9.

Þó ad velgjorníngar hins miskunsama Guds væru ecki svo oteljanlegir, þó ad þeir vorudu ecki nema um vissa tíd, þó ad hans gódgirni hefdi med þessum degi endaz, gætum vér þó ecki ord fundid til ad prísa med kjærleika Guds verduglega. Þó nálæg stund gæsi oss ecki orsök til ad prísa hañ, mættum vér þo færa honum óendanlega lofgjörd fyrir allar umlidnar. Svo lángt, sem vér lítum til baka og til hins umlidna vors lífs, finnum vér allstadar orækar rokkseindir og merki uppá hans nád og velgjorníngal Vildum vér telja hans velgjordir, mættum vér framtelja sérhvert vort ædarslag;

sérhvern andar=drátt; sérhvern þánka. Því þegar vér ad eins reikna villdum saman þá velgjørninga, er sérhverr dagurinn, sem vér lifum, sjálfkrafa færir oss, svo sem: ljósid, loptid, fædúna, krapta til erfidis og vort líf, hvørsu margir vrdu þá ecki allir Guds velgjørníngar vid oss ad lökunum? Hvörsu margir þá þeir, er han árid um kríng, hvert árid eptir annad, já, allann vorn aldur, lætur falla í vort skaut? hvörsu ber oss ecki ad þacka alla Guds velgjørnínga vid oss á barnsaldrinum og hinum efra alldri? svefnsins velgjørnínga? hina huldu og nádarríku forsjón, hverrar vér urdum ecki varir? endurlausnarinnar velgjørnínga? O Drottinn! óteljandi og ómmrædanleg er þín nád! ad framtelja alla þína velgjørnínga, er oss syndugum og fáfródum ecki unnt; ad ihuga verduglega fjølda þínna dásemdar=verka, er engum dandlegum gefid, þared jafnvel englarnir mega furda sig vid þeirra hugleidíngu, dást ad og prísa þína gædsku. Vorkenntu því líknarfulli Fadir! veikleika og vanmætti vorrar sálar, og fyrirgef þu oss þad tilfinníngarleysi, ad vér ecki létum ihugun þína velgjørda upplifga oss, sem vär, ecki leida



oss til hjartanlegasta þacklætis og fúsrar hlýdni vid þin bodord! Þó vér gétum ecki upptalid alla þína margfeldu nád, viljum vér þó leitast vid ad ígrunda hana, ad láta hana ætid vera oss hugfasta, ad auglýsa hana ödrum. Þótt vér ecki nema ad nockru leiti þeckt fáum stærd þinnar miskunar, viljum vér þó því meira ómaki verja til ad þeckja, hversu ónógir sjálfum oss vér erum, hversu óverdugir, hversu vanmegna; já, þó vér gétum aldrei verduglega prísad Gud med ordunum, viljum vér því kappsamlegar leitast vid ad dýrka hann med voru framferdi. Þó ad vér ecki fullkomlega fáum skynjad hans miskunarríka kærleika í þessum heimi, skal oss samt því innilegar lánga eptir himninum, hvar lángtum meira af hans nádar verkum mun oss verda kunnugt, þar mun líka vor túnga fá honum súngid verdugri lofgiörd. Fáum vér ecki vegsamad hann í voru lífi, munum vér þo gjöra þad í dandanum og útgánga af heiminum med þeim lofsaungi: Drottinn! hversu mikid hefir þu gjört vid mig? En þegar vér loksins upphafdir erum til þinnar dýrdar, eilífi Gud! munum vér fullkomlega fá þeckt, hversu mikid

þú hefir vid oss gjört; þá mun vor sála prísa þig, og vor andi gledjast í þér, vor Gud og vor Frelsari!

## 57. Hugvekja.

*Kénn mér, o Gud! sem gætir mín, gánga fram eptir bodum þín, ordugar líssins leidir! sam-vitskunnar þá frid eg finn og fögnud eilífann, Drottinn minn! er þú útveldum greidir.*

Ad lifa heilaglega og í sannri trú og gudhrædslu, leitast vid ad verda Gudi þócknanlegur og honum æ líkari, þad er vor kallan, tilgángur vors lífs, vort mark og mid og vor lucka. Stunda þú því, kristinn madur! ad ná skírri, sannfærandi og fullkominni þeckingu um skyldur þínar, hverju sérhver þeirra sé naudsynleg þér, og þar hjá ad sínu leiti dýrmæt. Endurnýadu og styrktu þessa þína þeckingu tídum, og brúkadu hana og æfdu í daglegu liferni; lærdu ad skilja, ad skylda þín, jafnvel sérhver hin ordugasta, er þín lucka; vaktú því yfir þínum girndum og sinnishræríngum, svo þær leidi þig ecki afvega; trúdu sjálfum þér aldrei ofvel, og prófadú daglega hjarta þitt og framferdi grandgæfilega, því sérhverr dagur, sem þú lifir,



er dýrmætur partur þinna lífs-stunda. Hnýsadu opt og med trúnadi hjarta til Guds og Jesú, og leitadu í yfirvegun hans fullkomlegleika og verka, í hans velgjorníngum, en þó einkum í þeirri endurlausn, sem hañ þér afrekadi, helgustu upphvatníngar og kroptugustu medala til ad lifa rádvendu og dygdugu líferni. Fiñir þú vanmætti þitt, láttu þad því framar knýja þig til heitrar bænar um hjálp hans og nád, sem lofad hefir ad láta sinn krapt verda í breiskum máttugann. Lærdu æ betur og betur ad þeckja sjálfann þig og heiminn, sem þú lifir í, og hugsadu tídum til þess, hvers vegna Gud lét þig fædast og lifa á jordunni; þenktu þar um opt, hversu líf þitt er stutt; um tign og mætti þiñar sálar og heñar ódaudlegleika. Hugsadu um dygdaña umbun og lastaña straff, sem framkoma mun, ecki einúngis í þessu lífi, heldur og hinu ókomnu eilífd; nidurþagga þú aldrei rádleggíngar samvitsku þiñar, né þína iñvortis blygdun yfir hinu vonda, því sú tilfiñíng er verndari og vaktari hins góda hjá þér; ástundadu strax frá barndómi ad hlýda rádum gódrar samvitsku, ádur eñ hjarta þitt skémmist og forherdist af lastaña vana gégn því góda; sjádu

til að hafa ætíð eitthvað nytsamlegt fyri stafni. Lærðu, að takast ómak og ordugleika á hendur; því, omakslaust skéður engin dygða æfíng, engin verdskuldan, engin lucka. Neitaðu sjálfum þér opt leyfilegra lystisemda, svo að þú þar við venjist á að drottna yfir þínum tilhneigíngum; fordastu umgengni vondra, en sæktu samgvæmi ráðvandra; lærðu forsjálni af þeirra dæmum og speki af undirvísun þeirrar heilögu Ritníngar. Gjör þetta og haldtu áfram í því, þá muntu vara í dygðum, vara að farsæld med varandi innvortis ánægju. Höfum vér þessar reglur oss ydduglega fyrir augum, munum vér smámsaman leiðast og venjast á að breyta eptir þeim, og hversu dýrmæt er þá ecki vor lucka? fáum vér henni að eins náð, er allt fengið, sem vor ágvarðan útkrefur, allt, sem vér fáum hér nockurntíma óskað oss; þá gétum vér lifað í rósemi og ánægju, og á síðustu stundum vors lífs, mun þessi rósemd og ánægja, sem vér nú smockum, þegar vér gjörum trúar-örugga bæn til Guðs, ecki við oss skilja. Med því stærri laungun, sem vér nú óskum oss í lífi og dauða, að varðveita þetta hugarfar, því



innilegar qvokum vér til þín, heilagi og gódi Gud og Fadir! ad þú vyrdist ad géfa oss krapt til ad elska og ydka saña gudhrædslu, sem veitir oss svo mikiñ og heilsusamaň ávinning. Endurnýa þú vor hjörtu med þínum goda Anda, og géf oss þad hugarfar, sem gjöri oss í raun og veru dygduga og sannkristna. Géf ad vér sífeldt mættum verda þér sjálfum líkari, sífeldt taka framförum í vísdómi og dygd, sífeldt verda þér eñ náqvæmlegar sameinadir, svo ad vér finna mættum sífeldt vaxandi rósemi og ánægju af því ad gjöra hid góda; og séum vér eñ þá lángt frá þessari lucku, æ! géf oss þá nád til ad ödlast hana, og svo ad eblast í dygdunum, ad vér þar med nálægjumst vora soñu lucku; þegar vér byrjad höfum ad feta þeñaň farsældar veg, styrki og leidi oss þá, veika og óstoduga, þín volduga hönd, svo ad vér aldrei þadan í frá af honum villumst.

## 58. Hugvekja.

Gud! þín stærd er ómælanlig; umkríngir guddóms ljósid þig, daudlegum osskiært öllum; þó er þinn kraptur öllu nær, alheima', er skynsemd mælt ei fær, geim rædur þú gjörvöllum; eins

smærst og stærst, allt ber vottinn um þig,
Drottinn! er vér sjáum, í þínum verkum
og fundið fáum.

Aldrei fáum vér nógsamlega yfirvegað verk vors Skapara, sem byrtast fyrir augum vorum og á degi hverjum krefja vora nágvæmu athugasemd og dýrkun hans, sem þau svo dásamlega gjörði. Hvað má framar hræra vort hjarta, framar fylla vora sálu heilagri undrun, enn skoðun Guðs dásemdar-verka, sem eru svo vegsamleg og verðug elsku? Hvað framar minna oss á hans speki og gæðsku, enn skoðan svo margra skapaðra sképna, við hverja Skaparans almætti, vísdómur og gæðska auglýsist oss jafn-aðdáanlegt? Hvað framar hjá oss styrkja traustið á Guðs alvoldugu stjórnun, enn þegar vér hugleiðum og vyrðum fyrir oss þá almennilegu forsjón, sem allt eins nákvæmig umbyggju ber fyrir lífi jurtanna og dýranna? hvað seair oss sérhvert gras-strá, sérhvert blómstur, sérhver uppvaxandi jurt? hvað gjörvöll náttúran? mikil, aðdáanlega mikil eru verkin Drottins. Hverninn má nockurt, jafnvel prýðilegast meistara-verk manna, koma í



samjöfnud vid heimsins dásomu bygg-íngu? unm snoturt málverk einhvers lands mikils metandi á móti sjálfu land-inu, í hverju oll náttúrunnar prýdi og gædi eru sameinud? en hvad veldur því, ad vér svo mikils metum mannlegar í-þróttir og verk, en erum þó svo kaldir og tilfinníngarlausir vid Guds dásemdar verk í náttúrunni? sannarlega, ef vér hug-leida vildum þess gjorvalla skopunar-verks undrunarverdu stærd, og hversu ó-mælilega vídt þad nær; náttúrunnar ó-umbreyttu regla og reglulegu umbreyt-íngu: fjolda hinna skopudu skepnanna, og margfoldu kyn-breytíngar; sérhvers prýdi, ordu, reglu og sambönd, fengjum vér ecki haldid oss frá, fullir undrunar ad upphrópa: mikil eru verkin Drott-ins! Mikli, ómælilega mikli Skapari! vér undirtokum med ollum þinum skopud-um skepnum og játum: vér erum einúng-is dupt og aska, eintómur skuggi, ein saum aldrei framar þeckt og undrast og fur dad þina stærd og mikilleika; en vid saunburd vors audvyrdilegleika vid þína hátign; vér saum ad sonn ecki skyngist í náttúrunnar innstu fylsni, en hitt, sem vér sjáum útvortis fyrir augunum, er fullnóg til

ad inntaka vort hjarta og fylla þad undrun og lotníngu; vorir vitsmunir eru hálf-verk, og vér fáum þig hér ad eins þeckt eins og í speigli og rádgátu, en á sídan, þegar hálf-verkid tekur enda og vér loksins náum fullkomnari þeckingu, þá munum vér enn betur skilja og sanna mega: ad mikil eru verkin Drottins; þá munum vér og, lengra leiddir í þeckíngunni, verduglegar fá prísad Gud. En á medan vér dveljum hér á jørdunni og skodum hans verk, skal vor ydja sú, vor vísdómur og vort augnamid, ad læra ad þeckja og prísa Skaparans mikilleik. Svo opt, sem vér rennum augunum upp til himins, svo opt, sem vér skodum jørdina, svo opt, sem vér lítum til sjálfra vor; svo opt skal tilfinníng hans mikilleika verda oss innrætt og vor andvyrdilegleiki þvi kuñari. Fyrir þér niðurkrýpur vor andi, og fullur undrunar tilbidur þig, mikli, óendanlegi Gud! ef ad þú tækir frá oss þína nádar-hønd, og þitt almætti leiddi oss ecki, þá mundum vér undir eins tortýnast. Lofud veri jafnan þín miskun, sem svo nádarsamlega lítur ofan til vor, sem þó erum eingúngis dupt og aska, og vill leida oss um



allar eilífdir, hvar vér med heilagri undrun og himneskum føgnudi fá skulum ad skoda og prísa þig óaflátanlega.

# 59. Hugvekja.

Bænin má alldrei bresta þig, búin er freisting hvimislig; þá líf og sál er lúid og þjád, lykill er hún ad Drottins nád.

Þegar vér lesum Biblíuna med eptirtekt, finnum vér í henni svo yfrid mørg og óræk merkileg dæmi þess, hversu kroptug sé trúud og alvarleg bæn, ad þad mætti fásinna heita, ad vilja med vantrú og efasemd neita sannleika þvílíkra dæma. Fyrir safnadarins bæn í Jerúsalem var Pétur útleiddur af sínu fángelsi. Móses gjordi bæn sína til Guds, og Israel géck þurrum fótum yfir um hafid rauda. Elías bad til Guds, og Gud vøkvadi jørdina med regni; hann bad, og eckjunñar daudi sonur í Zarepta, kom aptur til lífsins; hañ bad, og eldur féll af himni og eiddi brenni-forninni. Ezechíel bad til Drottins, og 15 ár løgdust til hans aldurs; já, Jesús sjálfur, þegar hañ, á sínum hérvistar døgum, offradi bænum, var bænheyrdur af sínum himneska Fødur.

Hvernig sáum ver efast um, ad bænir vorar munu hafa líkañ krapt, eins og margra heilagra maña bænir á fyrri tímum, ef vér bidjum af tráundu hjarta? er Gud ecki óumbreytanlegur í sinu almætti og í siñi gædsku? er hans nád ecki endalaus? mun háñn þá hætta ad elska og miskuna oss, sem kalladir erum eptir nafni hans Sonar, endurleystir af honum og styrktir af hans fyribón? Onei! þín gædska, vor Gud! varir eilíflega; þín eyru eru aldrei aptur byrgd svo, ad þú ecki viljir heyra oss þá vér frambérum vora qvelnstafi fyrir þig; þín hond er aldrei ofstutt til ad hjálpa þegar oss liggur á; þú munt allteins bænheyra oss og onnur þín born, þegar vér einúngis bidjum þig med audmjúkri og helgadri sálu. Í þessari fullvissu komum vér nú til þín, nádugi Gud! og útausum voru hjarta í trúar-orúggri qvoldbæn fyri þinu augliti. En — um hvad bidjum vér þá? máské um krapta til ad lifa vel og gánga á þinum vegum? o! hversu ljúft væri þér ecki ad heyra þá bæn? hversu ríkuglega muudir þú ecki uppfylla þessa vora ósk? máské vér bidjum einúngis um tímanleg og forgengileg



gædi? o! ad vér þó ecki képptunnst svo á-
kaft eptir þessa heims fallvalta munadi,
heldur miklu framar eptir himinsins far-
sæld! o! ad vér leggja pflónun vorn vilja
og allar vorar lystingar undir þinar vísu
forsjónar vilja og, eins og kristnum sómir,
kappkosta ad girnast æ meir og framar hid
góda! o Gud! stjórna þú voru hjarta med
þínum Anda, ad vér einig í vorri bæn,
fáum hagad oss eptir þessum óskum og á-
setníngi vorum. Gef oss þad vísa, guds-
hrædda hjartalag, sem þú gæddir Saló-
mon med, ef þín rödd kjæmi til sérhvers
vors í siñ stad, og segdi: bid þess, er þig
girnir af mér! ef vér mættum velja, eigin
luckukjör vor, lát oss þá velja eins vitur-
lega og hañ, og andsvara þér: Drottinn!
Drottinn! gef þínum þénara skynsamt
hjarta, svo hañ skilja megi hvad gott og
illt er, og um þessa blessun bidjum vér nú
á þessari stundu. O Gud allrar miskun-
ar! gef oss rádvandt og skynsamt hjarta!
ef oss andnast þessi gædi, þá munu oss allt
añad gott tilfalla; þá munu uppfylla
allar vorar óskir og eptirlángauir. Og
þó vér færum varhluta af audlegd, met-
ordum og ödrum tímanlegum ávinníngi,
skal þó vísdómur og dygd vera hér vor

óvidjafnanlegu ándæsi og vor ávinníngur. Þegar vér einúngis eignumst þína nád og þína velþócknun, þá er einkis framar ad óska.

## 60. Hugvekja.

Guds ótti med ánægju er mikill ávinníngur. 1 Tím. 6.

Ad miklu leiti koma margar vorar hrellíngar af því, ad vér erum opt illa ánægdir med vor lucku kjør; einatt jøfnum vér saman ástandi voru vid annara manna; því erum vér ecki — segjum vér opt vid sjálfa oss — svo ríkir, svo heidradir, svo lucknlegir, svo ánægdir, sem hinir, er sídur sýnast verdskulda þad enn vér? Vid þvílíkar hugleidíngar gleymum vér optastnær því góda, sem Gud hefir gefid oss og því þacklæti, sem vér egum honum ad lúka. Lítid munum vér til, med hversu margfoldum velgjørníngum Gud hefir blessad oss. Lítid hugleidum vér allann þann kjærleika, nád og lucku, sem vér mundum í voru gjørvalla lífi jafnan hafa þeckt, ef vér med eptirþánka hefdum gaumgæfa viljad vort ásigkomulag,



Litid gætum vér þeirra medala, sem Gud brúkad hefir til ad géfa oss allt þad, sem vér vidþurfum, svo vér mættum ánægdir lifa; já, enn framar: vér könnumst lítid vid þann mismun, sem er á oss og svo morgum þúsundum annara, sem mættu kángtum midur ánægdir lifa, heldur eñ oss géfst orsök til. Vér lifum í landi þessu fríir og frjálsir; en — hversu margir medbrædra vorra eru ecki innibyrgdir í þraung fángelsi og ófollt lopt, liggja á hordum bálkum, fá ecki sól og sumir enga dags skimu ad sjá? Vér sofum optast vært á nóttum og rísum flestir heilbrygdir upp ad morgni dags; en — hversu margir medbrædra vorra eyda ecki nóttum med qveini og veini og dögum í sorg og sjúkdómum? Vér hofum þad, sem vér þurfum á ad halda til lifsnæríngar vorrar; en — hversu margar þúsundir maña leita þar á mót á stundum vida forgéfins ad braudi og lifsnæríngu? Vér njótum heilsu og heilla; en — hve marga beygir ecki kross og karar, sæng djúpt í eymdir og vanvyrdu? Vér ofundum adra af þeirra lucku; en — þeir hefdu meiri orsök til ad ofunda oss. Því skyldum vér þá vera óánægdir med þad hlut-

fall, sem Guð hefir oss veitt, og sem eſá-
lauſt er oss hið beſta eptir vorú áſtandi
Sannſær oss, ó Guð! æ betur og betur
nú það, að hlutdeild sú, sem þú skamt-
að og útdeildt hefir sér hverjum af oss, sé
hverjum og einum hin hollaſta og gagn-
legaſta. En þar eð ánægt hjarta er hin
dýrmætaſta lucka í lífinu, svo géfðú oss náð
til að öðlaſt hana, að vér ecki lengur van-
þyrðum þig með möglí og umqvørtun-
um. Minntú oss ſífeldt á vorn óverð-
ugleika, sem ecki verðſkuldar neitt af
þeirri gæðſku, sem þú í vorn umliðna
lífi hefir oss auðsýnt; láttú þetta leiða
oss til að prísa þig fyrir sérhvern vel-
gjørníng, hverſu lítilfjørlégur, sem hann
oss vyrðaſt kynni, og ſtyrkja vort trúnað-
ar trauſt á þér; og hvernig ſkyldum vér
vantreyſta þinni náðugu ſtjórnun, þar
vér sannſærdir erum um þína náð og
þinn vísdóm! nei, eiliſlega ſkal sú vera
áſtundan vor, að setja vora von til þín,
að óttaſt og elſka þig; þeſſar dygdir
munu leiða oss til ſífeldt að viðurkénna
þá lucku, að vér ſtanda megum undir
þinni ſtjórnun. Þinn ótti ſkal varð-
veita oss frá syndum, og þinn kjærleiki
hugga oss í hverju, sem að høndum kém-



ur og med hvílíku sinnislagi fáum vér med gledu gédi tekid sérhverju, sem ad her, já, gengid med djorfúng á móti daudanum; því hvernig megum vér í honum vænta annars en gods af þeim Gudi, sem í lífinu lét oss einbera gædsku í tje?

## 61. Hugvekja.

Hvad, sem þú gjorir, hugsa bér: hvert þvílíkt ydja hæfdi þér, ef í því verki ættir þú, andast þá strax og dæmast nú.

Hin besta regla, eptir hverri vér laga egum allar vorar athafnir, er sú: ad vér tídum samanberum þann dóm, sem vér sídarmeir fella munum yfir athafnir vorar, vid þad álit, sem vér nú hofum á þeim. Vér ættum á stundum ad íminda oss ad vér lægjum sóttveikir; vér ættum einatt ad renna þanukunum til þess óttalega augnabliks, þegar þessi nálæga tíd skal enda taka og eilífdin byrja. Opt ættum vér ad spyrja sjálfa oss: hvad mun eg líklega segja um þann lifernisháttt, sem eg nú færi, þegar þúngur sjúkdómur yfirfellur mig, medolin fá ecki líknad lengur, Læknirinn stendur úrrædalaus, en harmandi kjærustu ættíngjar og





vinir minkringja sæng vora, og allt þetta segir mér: að eg standi á ytstu lífsins tröppu og á sjálfum grafar barminum! hvöð munum vér þá dæma um það andvaralausa framferði, í hverju vér nú dagléga framgaungum og eyðum mestum hluta æfi vorrar, og um lasta-fullar lystisemdir, sem gledja oss svo mjög og svalla vorri tíð? hvern dóm munum vér um allt þetta fella á hinum skélfilega degi, þá himnanna kraptar munu hræra sig, jarðarinnar grundvöllur tekur til að skjálfa, og höfuð-skepnurnar bráðna af hita, en dómstóllinn verdur reistur upp og bækurnar opnast, í hverjum allar vorar gjörðir, orð og þánkar, uppteiknaðir eru! ef að vér athuga vildum áðurnefnda reglu, mundum vér alla hluti álíta með meira safnaðar gédi: skélfast mundum vér þá við þvílíkar athafnir, sem vér nú í andvaraleysi leikum oss að; óttalégar háskasemdir mundum vér á þeim vegum finna, hvar vér hyggjum nú hættulaust. Ef að vér lifdum samqvæmt þvílíku hugar-fari, mundum vér á sérhverjum degi verda varfærnari, og engar dagsins athafnir byrja, fyrr enn vér yfirvegað hefdum allt, sem vér tæk-



jum oss fyrir hendur; fyrr enn vér útgengum, mundum vér spyrja sjálfa oss: hvert gengur þú? hvada freistingar munu þér mæta? hvada tækifæri munu þér bjódast til ad gjora gott? þegar vér þannig berum tídum oss saman vid sjálfa oss, mundum vér brádum framförum ná á dygdanna vegi, hverju, sem vér ádur hefdum afvega genaid. O Gud! vort athvarf er því til adstodar þinnar: kenn oss ad leggja stund á þessa ydju, er vér sjáum oss svo nytsama, svo heilsusamlega, og fyrst þú gáfst oss skynsemdarfulla sálu, svo gefdu oss nád til svo ad lifa, sem skynsömum mönneskjum vel somir. Já, þú, sem hefir oss leidt frám á þessa vegferd í heiminum, vid hverrar endir vér finna munum annadhvert líf eda dauda, eillfa lucku ellegar eilífa ólucku, vyrdstú svo ad stjórna öllum vorrar vegferdar fót-stigum, ad vér hreppa mættum þá sælu, sem á ad vera tilgángurinn allra vorra óska og athafna! géf oss en þá tíma til ad hugleida vora vegu og snúa oss til þinna réttinda, og svo ad vér innifelum þad allt, sem vér umbidja þurfum í einu einustu ósk, bidjum vér nú, ad þú, o Gud! vyrdist ad




géfa oss hann vísdóm, náqvæmlega ad hugleida vora endalykt og dóminn, sem á eptir mun fylgja, en svo lifa, ad vér vid þessar mikilvægu umbreytíngar, enga orsøk fáum til ad gráta þá dagana, sem vér lifdum hér, heldur eilíflega fagna og gledjast hjá sjálfum þér í dýrdinni.

## 62. Hugvekja.

Sannlega, sannlega segi eg ydur: hvers þér biddjid Fødurinn í mínu nafni, þad mun hann veita ydur. Jóh. 16.

Jesús hefir þad afrekad oss, ad vér nú bidja þorum almáttugañ Gud; hins skammarlegasta óþacklætis gjordum vér oss seka, ef vér vanvyrda vildum þeññ vorn Herra í vorri Gudsþjónustu, voru þacklæti og bænum vorum; aldrei viljum vér gleyma því: ad Jesús er sá, hverjum vér þacka egum allt þad hjálpræði, sem oss er géfid í tíma og eilífd. Einúngis fyri hans verdskuldun erum vér Gudi þócknanlegir og megum vænta oss bænheyrslu. Fyri hañ fáum vér fullvissu þá, ad Gud, sem máttugur er ad blessa oss, vilji þad eiñig gjøra. O! ad vér ætíd, þegar vér framberum naudsynjar vorar fyri Gud, miñt-



minst þess dýrmæta sannleika: ad sá Gud sem vér ákøllum, er Fadir vors Drottins Jesú Krists! med því trúar øruggara trausti, og med því meiri djørfúng munum vér þa voga ad snúa oss til hans, og fela honum á vald vorar egin og vorra medbrædra naudsynjar; þar vid mun og hjarta vort endurlífgast, ad vér, fyrir krapt heilags Anda, køllum megum Jesúm Krist vorn Drottinn og med trúudu hjarta eigna oss þad allt, sem þessi vor Endurlausnari hefir afrekad oss; þá mun vor trú vara og vort traust á honum aukast. Til þín, eilífi Sonur Guds! nálægjum vér oss á þessari qvøldstundu; bid þú einnig med og fyrir oss, vér viljum ásamt frambera fyrir þig vort þacklæti fyri svo margfalda nád og trúfesti, er vér þegid høfum fyrir þína fyribón og forþénustu; þínn fyribón er þad ad þacka, ad vér enn þá lifum, og ad vor nádar-tíd er ecki enn á enda; gefdu oss framvegis þína lífkroptugu nád, og lát oss brúka hana til vors frelsis og sáluhjálpar vorrar. Láttú øll vor fyritæki blessast, og sakir þinnar heiløgu pínu, allar vorar syndir bættar og gleymdar vera; yfirgefi oss aldrei þín náduga hjálp, því hvad værum vér án þinnar nádar annad enn aumar útskúf-





aðar sképnur? kasta oss ecki burt, þó vér vanvyrdt hösum vora útvegudu endurlausn og þína náð, med gálausu líferni, og verdskuldad þína réttlátu reidi og hegningu; hafcu en þá umburdarlyndi og þolinmædi vid oss, vegna þinnar miskunar; láttu þad ávaxtarlausa tréd en þá standa óupprætt, enn þá óupphöggvid, þó þad enga nema skadlega ávöxtu færi; auglýstu þína vegsamlegu náð á þínum endurleystu. Lát tölu þinna trúu þjóna sífeldt aukast, og styrk þá æ meir og meir í trú og elsku til þín. Vér bidjum ásamt fyrir smánurum þíns nafns, sem setja sig upp á móti þér og þinnar nádar lodunum; fyrir þeim hardsvírudu, hverja þinn Andi hefir híngad til forgéfins leida viljad til yfirbotar. Vér bidjum fyrir öllum heiminum, láttu þitt dýrdlega nafn æ meir og meir útbreidast og tignast, og loks þá tíd koma, ad gjörvallur heimurinn vidurkénni þitt nafn og lúti þínu veldi. Amen!

## 63. Hugvekja.

Leggid hug á hid himneska, en ecki á þad jardneska.

Cól. 3.

Allir hlutir sannfæra oss um þad, ad vor mikilvægasta tíd er fyrir hönd-



um, þá lífið er á enda. Gjörvallur heimurinn med öllum sínum umbreytíngum og óstødugleika sannar það, vort eg'd á-sigkomulag, óskir vorrar sálar, veikleiki vors líkhama, sú stutta tíd, sem vér dveljum hér á jørdunni, lífsins vidstødnlaust hrádi, í einn ordi ad segja: allir hlutir prédika oss þann sannleika, ad vér sénim áqvardadir til ad lifa eilíflega. Þó fáum vér hér umenn sterkari fullvissu þegar vér adgætum sjálfa oss, sem þá, er af Jesú Kristi erum frelsadir. Allar þær qvalir og þjáníngar, sem Jésús þolad hefir, allir þeir velgjørníngar, sem hañ hefir oss afrekad med sínni verdskuldun, eru jafnmargar roksemdir fyrir því, ad sála vor sé ágvordud til eilífrar sælu. Ómælanlega gledi-orsok høfum vér af þessari yfirvegun; en — aumkunarverdir eru margir vorir medbrædur, sem framgánga eptir sínum egin tilhnegíngum, en gleyma þeirri eilífd, sem Gud hefir þeim fyrirhugad. Samt sem ádur, þó þessir ólúckulegu villist af sønnum luckuvegi og gleymi sínni farsæld, gleymdu þó ecki, sála mín! ad þú lifir hér í heimi til þess, ad þú megir eilíflega lifa; þitt blindada hjarta gjørir þér syndina girni-

lega, en gleymdú ecki ad lastanna háska-samla ánægja ætti ad vera þeim vidbjóds-leg, sem þeckir eilífdarinnar yndisfullu gledi. Þegar þú stendur vid, þreytist, edur ætlar ad horfa til baka á gudhrædsl-unnar vegi, æ! gleymdú þá ecki, ad dygd-anna vegur hefir luckusæl afdrif í eilífd-inni. Þegar þessa lífs þreyngíngar ætla ad gjøra þig hugláusa og magn-þrota, gleymdú þá ecki, ad þad er hin mesta van-virda og ólucka, ad gefa eilífdarinnar farsæld vid þessa heims fallvöltu lucku. Þegar þú nú loksins skilur vid þetta jard-neska hreysi, gleymdú þá ecki, ad eilífdin, til hverrar dáudinn færir þig, mun full-komlega umbuna þér þenna lítilfjørlega missir, sem þó ecki má nefnast svo, held-ur ávinníngur. Eilífdin, til hverrar vér erum ákvardadir, veri því vort stød-uga mark og mid, en tilhugsan hennar skal gjøra oss hæfilega til, ad brúka vel þann stutta tíma, undir hverjum kominn er vor gjørvalla lucka eda ólucka í eilífdinni. Vér skulum því med varúd og gætni brúka vorar fáu lífsstundir á jørdunni. Vér skulum ítarlega athuga allar vorar gjørdir og dæma um þær eptir því end-urgjaldi þeirra, sem vér á sídan vænt-



um í eilífdinni. Lángt sé frá oss ad láta vorar óskir og ástundun einúngis mida til þessa stutta og fallvalta lífs lucku og ánægju. O! eilífdarinnar Fadir! kénn oss þenna vísdóm og innrættu djúpt í vornm sálum, ad vér skapadir sénm og endurleystir til þess vér lifum eilíflega. Hvad værum vér, ef þetta væri oss hulid? hvad væri vort líf og vor daudi, ef vér ecki trhdum þessu? en — þó gjøra þessa heims stundleg gædi svo opt ad engu hjá oss þenna gudlega þánka. AE! vyrdstu nú sjálfur, gódi Gud! ad vekja þeña þánka hjá oss og vidhalda honum í sálu vorri! Sék þú sjálfur nád til þess, ad vér ecki ad eins höfum eilífdarinnar umtal á vørunum, heldur ad heñar ydislega tilhugsan megi stoduglega innrætast vorri sálu. Um þessa nád bidjum vér þig, eilífi, ástkjæri Fadir! Kénn þú oss ad hugleida þad á þessari stundu, ad vér eigum kost á ad verda innbyggendur annars betra heims og þín børn í eilfdinni. Einnig þessi dagur og sérhverr hans tími er vor undirbúnings tíd undir þá sídustu umbreytíngu. Þegar þú stjórnar oss, munum vér brúka sérhverja stund til eblingar vorri sounu velferd, en vid

sérhverja tilleckun til ens vonda, sem qvikuar í hjartanu, við sérhverja þjáníngu, sem vér líðum, við sérhverja freistíngu, sem oss mæta kann, sífellt hughreystast við þá íhugun, að vér lifum hér til þess, að vér megum síðarmeir lifa hjá sjálfum þér eilíflega.

## 64. Hugvekja.

Vissu lífs eilífs lér, Lausnarans sígur mér, megnar
ei mig að fæla, myrkur grafar né kjæla, um
ferð all-litið gef eg, í Jesú lífs-von hef eg.

Svo myrk og hulin, sem oss er hin ókomna tíð og þau tilfelli, sem fyrir oss liggja, er það þó efalaust, að ókomna tíðin er oss mikilvæg, því vér eigum fyri höndum endalausa eilífð. Omögulega gétur þessi veröld verið sá staður, hvar allt, sem mannedli voru er ætlað, kunni að mæta oss. Væri hún vors síðasta takmarks og farsældar land, mundi hún ecki — hversu girnileg, sem hún virðist — vera svo eymda og armæðufull, sem hún opt er í raun og veru. Vor líkhami hefði þá ecki heldur svo margar umbreytíngar og veikleika að stríða við; þá ætti líka vorrar sálar ósedjanlega farsældar



laungun hér kunna ad mettast, en í vorri hérvistar ástandi verdur tilgángur alls þess nálæga veraldarinnar, lífs vors og sálar og vorra gjørvallra tilfella vera oss óskiljandi, ef vor sídasti samastadur ætti ad vera hér í heimi. Nej! Guds forsjónar fyrirætlan med oss, hlýtur ad ná miklu lengra eñ til þessa stutta og mædusama lífs. Vér erum vissulega áqvardadir til lángtum ædri hluta, eñ einúngis ad gráta hér í lífi og gledjast, eda ad lifa stutta stund og deya svo aptur; þó eckert í heiminum gæfi oss hér um nockra upplýsíngu, þá mætti þad þó vera daudi vors Frelsara. Mundi Guds Sonur hafa dáid einúngis til þess, ad vér yfrid stutta stund kynnum ad njóta fárra ánægjufullra augnablika og lystisemda þessa vors skamvinna lífs? Mundi hañ hafa nidur af himnum stígid einúngis til ad gjøra oss svo skamvinna stundar dvöl á jørduñi léttbæra og yndislega; en hverju þúng og sorgleg er hún þó ecki allmørgum vorra medbrædra? Mundi hann hafa úthellt blódi sínu oss til frelsis, en vér þó ecki varir verda vid not og ávexti þessarar dýrmætu endurlausnar? ellegar, strax og vér hefdum þessa varir ordid, missa alla

hennar nádar heill og not og huggun í dauðanum, værí vort líf þá eilíflega brotið? Nei! vissulega sannfærir oss verdskulldan vors Frelsara þar um, að vér áqvardadir og ætladir sèum til lángtum ædri og lángvinnari farsældar. Efalaust mun annar og betri heimur oss geymdur, hvar vèr njóta munum þeirrar luckú, að vera á medal Jesú endurleystu, gæddir lángtum ædri, fullkomnum enn hèr í heimi er mögulég, med ødrum ordum: vèr munum eilíflega lifa. Þegar vèr þannig virdum fyrir oss vort líf hèr í heimi, fær það í vorum augum allt annad útlit. Hverr einn partur þess, hversu lítilfjörlegur sem hann er, verdur oss þá mikilvægur, þar hann er náqvæmlega samtengdur oss fyribúnum ódaudlegleika; vér megum því ecki reikna þetta nálæga líf eptir þeim fáu døgum, sem það vara kann, heldur eptir þeim tilgángi, hvers vegna það er oss gefið og hvartil það midar; þess vegna verdum vèr að lifa þannig, sem vèr óska mættum best að búa oss undir þá óendanlegu áratølu, er vèr eigum fyrir høndum að lifa. Samqvæmt þeim ásetningi og þessu hugarfari viljum vèr, med Guds nád, leit-



ast vid ad laga vort lif þañ tima æfiñar, sem en þá eptir eigum; veri sá þanki sífeldt vakandi í vorri sálu: ad vér ecki séum á-gjvardadir fyrir heiminn, heldur himninn; því stødugri, sem hañ verdur í voru hiarta, því framar á vort líferni á jørdunni ad lík-jast voru komanda lífi í himninum; þá skal himnesk ánægja fylla vort hiarta; þá skulum vér keppast eptir ad ødlast eilíf gædi; þá ber oss nú ad elska þá hér, sem sídarmeir eins muni verda vorir lags-brædur í himninum. Innrættu oss þetta hugar-far, gódi Gud! med kroptugri nád-arverkun þíns Anda; hverju blessud verd-ur oss þá ecki sú nálæga tíd, hversu mikil vor gledi, vor sálar rósemi, vor lucka bædi í lífi og dauda!

## 65. Hugvekja.

Í verndar þinnar skjóli og skugga, skulum vér
lifa sorga frí, fyrir ótta, fyrir uggá, feidi
gódum jafnan í. Gud! þín miskun eilíf er;
eins framvegis gef oss hér, allt hvad þurf-
um og til þinnar ávalt þénar dýrdarinnar.

Vidhald vors lífs er eitthvert mesta dásemdar verk Guds, á hverju vér á sérhverju augnabliki þreifa megum;

þegar vér yfirvegum vors líkhama veiku býggingu og ſkodum þær óteljandi háſka-ſemdir, ſem honum eru búnar. Þegar vér adgætum vora vangætſlu og hyrdu-leyſi um vidhald vors lífs, megum vér undraſt, ad vér ecki fyrir laungu ſídan urdum daudanum ad herfángi. Efalauſt hlýtur einn Gud ad vera til, er beri allteins mikla umhyggju fyrir hverrar einnar manneſkju lífi og vidhaldi allrar náttúrunnar. Væri hann ecki til, mætti vaggan verda vor grøf, ómálga aldurinn vort endadægur, ſvefninn vor daudi og ſérhverr dagur óláns dagur. Vér lifum þó enn, gétum ennþá hrært limi vora og erum velfleſtir heilbrygdir. Allir þeſsir velgjørningar mega ábreiſanlegar ſannfæra oſs, enn jafnvel ſkiruſtu røkſemdir ſkynſeminnar um þad, ad einn Gud ſé til og ad þeſsi Gud ſé vor Gud, vor Fadir og vidhaldari vors lífs. Værum vér ecki hér um ſannfærdir, mættum vér vid uppruna ſérhverrar morgun-ſólar, vid ſérhverrar nætur adkomu, ótta-fullir renna þaunkunum til hvers eins komandi tíma vors lífs og óſjaldan ſegja vid ſjálfa oſs: þar ſje eg fyrir háſka-ſemdir þær, ſem munu tortýna mér:



þar munu mér óvinir mæta, sem fram-gvæma munu á mér voðann áſetning ſinn; þar ſje eg einn ógudlegann, sem mér ſteðva muni í þá ólucku, sem hann hefir mér fyrirbúna; þar ſje eg votnin, sem munu dreckja mér, eldsvodann, sem mun mig uppbrenna; þar ſje eg fyrir það tilfelli, sem mun kollvarpa mér; med þvílíkum ervðlunnar þaunkum mættum vér vænta ſérhvers ókomins tíma, ef vér ecki hefdum þá örugguſtu fullviſſu um vors Guds nádugu og víſu forſjón og ſtjórn yfir vorú lífi. Af öllu hjarta príſum vér þig, miſkunſami, gódi Fadir! ad þú, á-ſamt trúnni um þína forſjón, gefur oſs ſvo dýrmæta huggun og rósemi. O! hverſu vanvyrdum vér ecki þína gæðſku, ef vér en þá erum vantrúadir, sem höfum ſvo mikl-ar rökſemdir um þína forſjón. Séf ad vér aldrei ſénum óþacklátir, heldur ſifeldt þack-látlega minnumſt, hverſu vér reynt höfum þína trúfoſtu gæðſku, og ætíð meir og meir upphvetjumſt til ad ſetja allt vort trauſt á þig, og þetta ſkal nú vort fyr-irtæki og áſetningur á þeſſari ſtundu. Í trúnni til þinnar almáttugu gæðſku tøk-um vér óqvídnir komandi tímunum. Svo veikur og vanmegna, sem vor líkhami er,

treystum vér þó þínum krapti, sem vidheldur oss og styrkir. Svo skamsýnir sem vér erum til ad fyrirsjá þær háskasemdir, sem oss kynu mæta, treystum vér þó á mátt þiñ og visdóm, sem sier þær allar og ert máttugur ad afvenda þeim. Vér vitum ecki siálfir hvers vér egum ad óska oss, eda fyrir hverju vér egum ad óttast; vyrdstu siálfur ad uppfylla allar vorar óskir, sem nytsamar eru, og frelsa oss frá ollu vondu, sem kynni skada oss. Uñ oss æ ad lifa undir þiñi umsjón, undir Jesú nád, og undir stjórnun þess heilaga Anda, og njóta þeirrar sælu, ad elskast og blessast af þér, þá gaungum vér óskélfdir á móti sérhverju lifsins hættulegasta tilfelli, sem oss mæta kañ, þared vér höfum þañ ad reida oss uppá, sem er almáttugur, og ollu vill og kañ ad snúa oss til besta.

## 66. Hugvekja.

Betri er einn þurr biti, láti madur sér nægja, enn fullt hús matar med þrætu, Ordsqv. 17, 1.

Þau eru efalaust best og heilladrjúgust luckukjör fyrir hvern einn af oss, sem sérhverjum í sinn stad eru úthlutud, hverju ójofn og þar hjá undar-



leg, sem oss allopt vyrdist útdeiling þess-ara Jarðnesku heims luckú, yfir hvert vort óánægða hjarta ósjaldan heimuglega meglar, mun það þó reynast efunarlaus sanleiki, að sá alvaldi Stjórnari allra hluta útbýti þessa lifs gæðum með vísdómi og gæðsku þanig, sem hans alvitska sjer hverjum einum best hentar. Að vera um þetta í hjarta sinu sanfærður, er ecki lítil lucka, því þessi fullvissa viðheldur sannrt sá'ar rósemi, varðveitir hjartað frá nagandi ófund og eyðir mátalausum umqvörtunum; hversu ánægðir byrjum vér ecki sérhvern dag og endum han eins rólega, þegar sérhverr af oss er fulltrúa þar um, að sú lucka, sem Guð úthlutar oss, það ástand, er han hefir sett oss í og þan tilfelli, sem han áqvarðar oss, séu besta hlutskiptið, er í vort skaut gat fallið, og að sjálfir vér aldrei hefðum getað valið eða óskað oss anars betra. En — máské þessi sinis ánægja sé á þessari stundu fjarlæg voru hjarta; máské óskir þær hvarfli oss í hug: o að eg væri eins ríkur, eins lucku sæll, sem margir aðrir meðbræðra minna! máské þessi ósk og eptirlángan verði hjá oss enn þá sterkari, þegar vér náqvæmar gáum gæfum útbýtingu þess-





ara lucku gæda og þykkjumst vàrir verda hverju misjafnt þeim útbýtt er medal þeirra, sem oss finnst midur enn vér hafa til þeirra unnid. En — vitum vér þá sjálfir hvers vér óskum? máské vér verdnum annars hugar, þegar vér samjöfnum því vér höfum vid hitt, sem oss vantar. Séu vor kjör ad nockru leiti eit annara, eru þau kmorgu aptur miklu betri. Máské vér egum engan kost á ad njóta þessa heims gæda og hans lystisemda med frjálsu og hindrunarlaust; en undir eins erum vér frír frá svo mörgu illu; fyrir margföldum freistingum til ens vonda erum vér óhultir; oss mætta þá lángtum færri tækifæri og ginníngar til ad styggja Gud, til ad meida samvitsku vora og lída skipbrot á vorri trú; færri óvini egum vér þá ad strída vid, sem sækjast eptir vorum fátækdómi. Margir medbrædra vorra lifa máské í lystisemdum og gledja sig á margann hátt; en — munum vér fyri þad ógæfulegri, ef vér finnum því sterkari laungun hjá oss eptir því himneska og þess meiri frid í sálu vorri; máské þad ásigkomulag, sem vér öfundum svo mjög adra af, megi gjöra oss lífid yndislegt og gedfeldt, en þá vér fáum



nú ecki lifad sældar lifi, kunnum vér þó
med því meiri hjartans gledi og rósemi,
ad þenkja til daudans og loksins skilja vid
þetta lif, sem þeim luckulegu fellur opt
svo þúngt ad yfirgéfa; þann jardneska
ríkdóminn, er þeir einúngis leitudu sér
ánægju í, vildu þeir aldrei þurfa ad missa.
Pad ásigkomulag, sem vér óskum oss, er
máské eptir vorri meiníngu og heimsins
áliti betra og gedfeldara, enn hitt, sem
Guds áqvardan hefir sett oss í, en þó efa-
laust eptir hans vísdómi og bestu rádstöf-
un oss lángtum betra. Géf þú oss, o
Gud! ad þessar hugleidíngar um vor
luckukjör og ásigkomulag í lifi þessu, hafi
þá kroptugu verkun í hjarta voru, ad
rósemi vorrar sálar megi þar vid rótfest-
ast og aukast; géfdú oss nád til ad efla
vora sáluhjálp í því ástandi, sem þér hefir
þócknast ad setja oss, án nockurs vyls, ó-
ánægiu og óþolinmædi. Vardveittú
oss frá drambsemi, þócknist þér ad géfa
oss þessa lífs lucku, en frá örvilnun og
efasemi, þó þú létir óláns tilfelli bera oss
ad höndum. Géfdú oss þar á mót nád
til ad auka vid upplýsíngu vorrar skyn-
semi og ætíd ad líta lengra, framyfir
takmörk þessa nærverandi lífs til annars

betra heims og vid þá skodun upperfast til ad afneita þessum heimi og því, sem í honum villa kann fyrir oss sionir á því himneska, en lifa gudrækilega, réttilega og hóflega hér á jordunni, ánægdir med hvad helzt þín mildi úthlutar oss.

## 67. Hugvekja.

Réttlæti gódsmanns gjörir hans veg sléttann. Ordsqv. b. 11.

Sú ætti ad vera vor kappsamleg ástundan, á medan vér lifum í mannlegri sambúd í heimi þessum, ad vér ávinnum oss svo elsku og gédþocka vorra medbrædra, ad vér gjöra kynnum oss vissa von um, þegar vor hérvistar tíd er á enda, vinir vorir og kunníngjar hefdu orsök til ad sakna vor og syrgja vorn missir og sérhverr rádvandur harma vorn vidskilnad. Takist oss þann-ig ad hegda oss á medan vér lifum, megum vér þegar álíta vort líf lucklegt á jördunni, því aldrei verdur loflegra likvers súngid yfir moldum vorum, heldur enn þegar gud-hræddir og rádvandir úthella vid lík-kistur vorar þeirri hjartans ósk: Gud gæfi hans líki kæmi nú í hans stad, úr því ecki vard lengur audid ad njóta hans samvista!



en þar á móti fær það litla huggun og ánægju veitt, þegar vér högum þannig voru lífi, að vér vitum oss hafa til einkis lofstýrs eða saknaðar unnið að oss öndudum, og eckert liggur lofsverdt eptir oss, því hvað eru audür, yfirlæti eða lystisemdir? lofstýrs fyrir þvíumlíkt viljum vér eptirtölulauft unna þeim fávísu, sem ákafast sækja eptir þessu, en þanninn viljum vér lifa, að rádvandir sakni vor, og vinir syrgi vorn missir. Vér skulum ástunda, að gefa þeim, er oss þeckja, orsök til að blessa vora minningu, og að álíta oss verduga lofstýrs fyrir vort líferni, og einlægrar sorgar yfir vorum missir. Ef vér leggjum kapp á að lifa dygdugu lífi, ástundum vér gudrækni, miskunsemi, rádvendni, hófsemi, svo munu jafnvel óvinir vorir verda leiðast til að lofa vorar dygdir, og hversu freklega, sem þeir ofsunda oss, þó láta oss á stundum njóta sannmæla. En auk þessa má það huggunar ríkt vera ættingjum vorum og vinum, að njóta gladværrar fullvissu, af voru dygduga líferni, um vorrar sálar eilífa fögnuð og sælu, þar vér lifað höfum í Guðs ótta, og deyandi afhendt honum með öruggri trú sálu vora, sem hana

gaf. Eckert fær betur aflétt þeirra sorg, eckert betur afþurkad þeirra harma-tár og eckert framar gladt þá, en eptirlánganin ad ná oss inan skams í somu sælu høfn og vér sigldum innf rétt á undan þeim. Nú þegar viljum vér taka fyrir oss ad lifa þanig, ad þó vér brádlega deyu ættum, verdi vor daudi samt bædi loflegur og sáluhjálplegur. Til ad ødlast þvílika endalykt, þurfum vér ecki ad óska oss gráhærds gamalmenna alders; þó vér skilja egum vid þetta líf midt í vorum blómstrandi aldri, høfum vér samt yfrid lengi lifad, þegar vér ad eins lifdum dygdugu og rádvøndu líferni; þvi margur leggst sá gamall í grøf, hvers dygdugu athafnir í lífinu fundust færri teljandi en árin, sem hann lifad hafdi, en þeim vísa fundust dagar sinir aldrei offáir, þvi allir vóru þeir prýddir loflegum dygdum. Þvílíkrar hrósunar skulum vér leita oss, þanig ber oss ad lifa, ad engin sá rádvandur fylgi oss til ens sídasta legstadar, sem ecki blessi vor bein í grøfinni, og finni vort líferni verid hafa uppbyggilegt og gott. En margur mætti sá vera, sem, ókendur af almenníngi, gángi út frá þessu lífi, og verdi þvi fáum harmdaudur; en þad skal oss liggja í léttu rúmi, þegar vér



ad eins getum áunnid oss vors Dómara velþóknun og notid útvaldra vegsemdar. O! þegar vér einúngis ódlumst ad vera í þeirra sæla hópi, er oss þad fyri minnstu þó engin grafskrift hrósi minníngu vorri, né vor vidskilnadur verdi af morgum harmadur. Eptir þessari hrósun fyrir Gudi, viljum vér einkum keppast; hans velþóknun mun endurnæra vora sálu, þegar vér eptir vorn dauda máské enga hlutdeild fáum í manna lofstýr.

## 68. Hugvekja.

Snú þér til Guds þíns, vertú miskunsamur og réttvís og treystú ætíd á Gud. Hós. 12.

Þessi skal þá vera sú stund, á hverri vér viljum snúa oss til Guds, yfirgéfa vora syndsamlegu vegu, en keppast eptir sönnum Guds ótta. Einhverntíma hlýtur þó ad því ad koma, ad vér tökum oss fyrir hendur þad verk, hvers framqvæmd vér svo opt ad undanförnu höfum slegid á frest. Lif vort er stutt og daudans tími óviss; hvert augnablikid er dýrmætt; sönn ydran mjög sjaldgæf; en þess dæmi svo mörg, ad manneskjum verdur í skyndingu burtu kippt. Hvern




in mættum vér draga yfirbót vora nudan til ókominna tíma? vitum vér þá, neina dandinn svipti oss lífinu midt á þeim árum, sem vér brúkum til þjónustu heiminum og syndinni? audveldlega getur þad adborid, ad Herran, sem vér væntum ecki koma mundi fyrr enn ad qvöldi dags, koma kunni ad morgni, eda inni midjánu dag og krefja oss til reikníngs; en jafnvel þo þetta yrdi ecki, þó ad daudinn yfirfélli oss ecki voveiflega, þó ad vér lifdum til elli-ára og yrdum saddir lífdaga, munum vér þá hafa fúsari tilhnegíngu og meiri krapta til betrunar og yfirbótar vorrar, heldur en nú? nei, sjærri fer því! því lengur, sem vér lifum í andvaraleysi og syndum, því framar forherdist vort hjarta, því heldur uppræktist hjá oss oll tilfinníng til ills og góds, og því hugsunarlausari gjörumst vér um frelsi vorrar sálar. Drottinn á rád á sérhverjum aldri, og sérhverri stundu vors lífs, ecki er þad ofláungt til þess, ad vér brúkum þad allt, hvert heldur þad verdur lángt eda stutt, til dýrdar honum, sem gaf oss þad og hét oss í umbun ódaudlegu lífi. Nú skulum vér því afhenda oss öldúngis þér á vald, almátt-



ugi Fadir vors lífs! nú skulum vér hlýdnast þinni røddu, sem vér svo tídt høfum daufheyrst vid! vér viljum nú velja oss þann veg, sem híngad til hefir verid oss svo qvidvænlegur; vér viljum nú afneita þeim lystíngum, sem verid hafa oss svo kærar og slita oss frá heiminum, sem híngad til hefir haldid oss faungnum. En — o vor Gud! hversu opt høfum vér ecki haft sama ásetníng? optlega høfum vér svarid þér eilíflega ad elska þig, en eins opt brotid þetta særi aptur. Fá eru þau augnablik, sem vér fengum stødugri stjórnun haldid yfir hjarta voru. Þúsundsinnum, já, optar, høfum vér gjørst þér óhlýdnir, eptir ad vér þo ad øllu leiti gáfum oss þér til þjónustu. Hversu opt høfum vér ecki mátt sanna sjálfir, hversu breiskir vér erum og ótrúir, þegar vér á samri stundu drýgdum þær syndirnar umhugsunarlaust, sem vér á næsta augnabliki ádur létumst hafa mesta vidbjod á? hversu marklaus eru þá øll vor heit, gódi Gud! fyrst allur vor ásetníngur, allt vort hjarta er svo hvikult og umbreytanlegt? O Drottinn! kom þú oss til hjálpar med þinni nád! vér høfum nú nockud hrærst vid þessa íhugun, æ!

láttú þessa hræringu vidhaldast í vorri sálu. Vér hofum nú tekid fyrir oss góðann ásetning; æ! styrktú oss til ad vidhalda og framfylgja honum! vér heitum þér enn á ný hollustu og trú um alla eilífd, æ! styrk oss til ad halda þetta heit, svo vér ecki med ótrygd brjótum af oss þína náð, og kollum yfir oss þína reidi, né tokum, midt í heimsins solli, aptur þad offur, sem vér nú færum þér, á medan vér enn þá hugsum um þig og sálu-hjálp vora. Láttú þá blýdni, sem vér nú sverjum þér, þá elsku, sem vér nú lofum þér ad audsýna, þann ótta, í hverjum vér heitum ad framgánga, ecki verda eins skammvinn og þessa bæn vora. Styrk oss, svo vér mættum æ stodugri verda í þinni þjónustu, minna meta heimsins glis, og styrkjast gégn ollum freistíngum. Vardveittú oss frá óstodugglyndi og þeim svikrádum, sem heimur þessi hefir oss bú-id. Undir þinni varatekt og adstod vonum vér ad fá framgengid þér þóknanleg-ar hér, eptir enn híngad til, og vogum ad vænta oss þeirra verdlauna, sem þú hef-ir fyrirheitid þeim, sem eru þér trúir allt til daudans.



# 69. Hugvekja.

Komid til min allir þér, sem mæddir erud og þreyttir, eg vil géfa ydur endurnæringu. Matth. 11.

Vort gjørvalla líf á jørdunni er fullt af mædu og sorgum; eitt andstreymid fylgir — svo ad segja — hinu á eptir; hversu marga glada og luckulega tíma fáum vér talid á móti hinum sorglegu? Færri eru þeir dagar oss hugfastir, á hverjum vér nutum hreinar gledi án sorgá, þegar allt var þó samfara, sem gledia mátti vort hjarta, svo sem: heilbrygdi vor og velgengni og vina og frænda vorra hugar rósemd og andans fridur. Sjaldreynt mun ad allar vorar óskir veitist oss í einu; séum vér ríkir, vantar oss á stundum heilbrygdi; séum vér heilbrygdir, vantar opt ríkdóm; høfum vér þetta hverttveggja, vantar opt trúrra vina adstod og yndi, já, opt hid allra markverdasta, vantar samvitsku rósemi. Hvert vér høfum mikid eda lítid, høfum vér þó aldrei allt, sem vér óskum oss; stundum hrellir oss eitthvert nálægt mótlæti, stundum koma oss aumar og vesælar manneskjur fyrir sjónir, hverra eymdir uppvekja vora medaumkun; stundum gagntekur oss

skelfandi ángist, annadhvert af vaknadrar samvitsku áklögunum, eda allt of hastri blóds-hræríngu. Stundum fyllumst vér óróa af óvæntum skada, sem oss ber ad höndum, eda ef eitthvad þad brást oss, sem vér gjørdum oss vissa von um, ellegar hulld hönd Guds forsjónar typtadi og audmýkti oss. Þegar vér íhugum þá daga, á hverjum oss mætt hafa einhver þesshattar óblíd tilfelli; þá daga, sem vér eydt höfum í sælliíi, svefni eda syndugri dægra-styttíngu; þegar vér minnumst þeirra daga, sem vér brúkudum til framqvæmdar hvísu ósæmilegu áformi; þegar vér loksins íhugum þá daga, sem vér vorum sjúkir, eda og midur ánægdir; þegar vér, segi eg, yfirvegum nú alla þessa daga vors lidna lífs, hverja vér hardtnær álíta megum eins og þeir aldrei hefdu til verid, og berum þá saman vid hina, á hverjum vér í raun og vern höfum nockru godu af stad komid, ellegar vid þá daga, á hverjum vér nutum sanna heilla, þá munum vér finna, ad mjög lítid eda ekkert verdur lífdaga vorra, um hverja ecki megi med fullum rétti adqveda med Jobs ordum: madurinn af qvinnunni fæddur, lifir stutta



stund og er fullur órósemi. Hvernig mundi oss þá farnast, ef vér lifa ættum þessu órósama og sorglega lífi, án þess ad ega þañ ad, sem med vísdómi og gædsku vidheldur lífi voru? æ! þá hefdum vér med réttu nóg efni og orsök til ad vera ó-þolinmódir og óska oss daudans. En þar-ed allt þetta mætir oss undir stjórnun og umsjón þess miskunsama og almáttuga Guds, megum vér gladir og ánægdir vera med hvad helzt, sem ad höndum ber. Þetta er sú mikla huggan, sem gledur oss, þegar vér á sérhverjum degi íñgaung-um svo ad segja nýtt líf. Trúar traustid á almáttugum heimsins stjórnara, bland-ar hugann og gledi í allar vorar sorgir, í þessu nærverandi lífi. Þær reksemd-ir, sem vér ád undanförnu fundum um hans nádarríku stjornun, gjörir vort sinni rósamt og ánægt. Hañ mun stýra voru gjörvalla lífi eptir síñi alvísu gædsku þañ-ig, ad oss jafnvel í mótlætinu gésast mun nóg orsök til ad vegsama hañ og vér mun-um á nærverandi tíma fiña nóg efni til þess; jafnvel naudir þær, undir hverjum ymsir medbrædra vorra verda ad greina og andvarpa, fá oss þar um sañfært, ad Gud höndlar nádarsamlega vid oss, þar-




ed hañ gjört hefir eymdir vorar oss lángtum þolanlegri eñ margra añara. Já, í öllum tilfellum munum vér þar um ad raun komast, ef vér ad eins adgætum Guds undrunarlegu vegu, ad hañ leggur mañeskjuñum ad soñu byrdi á herdar, en undir eins hjálp til ad bera hana.

## 70. Hugvekja.

*Mín sála gledur sig í Gudi heilsugjafara mínum.* Lúk. 1.

Hversu mædufullt, sem þetta líf er á stundum ad álíta, vantar oss þó ecki, á medan vér lifum, gledi og síñis ánægju, ef vér sañkristnir erum, þegar vér lyptum vorum augum í hædirnar til Guds, sem hefir oss skapad; þegar vér vyrdum fyrir oss hans óendanlegu og þar hjá svo gædsku og gódgjördasömu hátign; þegar vér setjum oss lifandi fyrir sjónir hans dýrdlegu og elskuverdu eginlegleika, med hversu yndislegri gledi uppfyllist þá ecki sála vor? Þessarar ánægju og gledi megum vér daglega adnjóta, ef ad vér taka vildum oss fyrir hendur ad skoda og hugleida dásemdarverk Guds bædi í



náttúrunnar og náðarinnar ríki; daglega höfum vér það fyrir augunum; ætíð er oss því unnt, að skémta oss við þeirra prýði; aldrei ættum vér að letjast í því, að upporfa sjálfa oss til elskunnar við Guð, með nágvæmri aðgætslu hans undrunarverðu dásemda, því að vanrækja það, er að gleyma Guði, sem með svo augljósum, svo aðdáanlegum hætti, hefir auðsýnt oss svo mikinn kjærleika, og látið oss reyna sína undrunarlegu og gæðskurríku vegleiðslu þannig, að vér að minnsta kosti við endalok lífdagana munum viðurkénna mega: að hann hafi alla hluti vel við oss gjört. Já, þegar vér með rolegri aðgætslu skoðum þann veg, um hvern hann hefir leiðt oss, finnum vér yfrið stóra orsök til rósemi og ánægju. Þegar vér skoðum vort egið ástigkomulag, og minnumst þar hjá þess innilega kjærleika, sem Guð hefir auðsýnt oss, fáum vér nóg efni til að gleðja oss af gjörvöllu hjarta. Guð gefur oss luckn og blessun til alls, sem vér tökum oss fyrir hendur; hann gefur oss heilbrygði, glaðt sinni, krapt og lyst til að erfiða, hann snýr frá oss háskasemdum og ólucku tilfellum, útbýtir oss þvílíkum luckn-kjörum, að vér enga orsök höfum til að óska oss annara

betri; hvad má oss uppørfa til gledi og ánægju, ef ecki þetta? og þad því heldur, þegar vér adgætum, hversu mikid Gud hefir oss gott gjørt framyfir marga adra af medbrædrum vorum; en þegar vér rennum nú augunum til þeirra sælufullu himinsins hýbýla, og íhugum þann yfirgnæfanda fognud, sem vér egum þar í vændum, hvad má þá af jardneskum heillum og lucku jafnast vid þvílíka gledi vorrar sálu? þad er því undir vorum vilja komid, hvert vér lifa munum framvegis í lucku og rósemi edur ecki; séum vér midur ánægdir, þá er vantrú vors egin óstoduga hjarta orsokin, sem ecki velur þau medøl, er efli vora sønnu ánægju. Skyldum vér þá vera miskunnarlausir vid sjálfa oss, og gjøra oss sjálfum lífid þúngt og mædusamt, þar sem vér gætum adnotid annars betra? enganveginn! þad skal æ gledja og hughreysta oss ad vér egum Gud ad, og ad hann er vor trúfasti vinur og hjálpari í allri neyd; af hans mildiríku nádar-hendi viljum vér med þacklátu hjarta medtaka þá ánægjufullu tíma, med hverjum hann gledur oss í þessu lífi, og hrynda burt allri sorg og qvída, þanninn prísum vér Gud med vorri gledi, og med vorri



finnis ánægju, en giörum oss siálfir lífid þægilegt og yndisfullt.

## 71. Hugvekja.

Glediid ydur og fagnid, þvíad ydar verdkaup er mikid á himnum. Lúk. 6,

Ad vísu má þad undrum sæta, ef vér á engan hátt látum oss leida til yfirbótar og sinnis umbreytíngar, hversu margar og mikilvægar upphvatníngar og ladanir, sem Gud þar til frambýdur oss. Ordugleikin, sem vér meinum oss mæti í voru ydrunar verki, fær því þó aldrei valdid, því Gud, en ecki vér, framqvæmir í oss bædi viljann og verkid, en þar á mót vekur máské íhugan stærdar og fjölda synda vorra efasemi hjá oss. Sá qvidi ætti frá oss burtu ad hverfa, eda, hvert mundi betra, ad særast af vidvarandi samvitsku ángist og ótta, vegna drýgdra mótþróa synda og daglega vakna upp vid þessa invortis qvöl, ellegar hafa goda samvitsku, sem fridud og roleg er ordin med sannri yfirbót? ellegar, hvad kan ad olla því, ad vér erum svo tregir til ad snúa oss af alvöru til Guds? máské syndir þær, sem vér, til egin olucku vorrar, alid höfum í




voru brjósti, séu oss svo gèdþeckar, og oss falli ordugt ad hafa þær eins og óvini? en hversu lengi á þetta hættulega tál, sem svo optlega hefir oss blindad og stofnad til vorrar olucku, ad hafa yfirrád yfir vorum besta ásetníngi, framar enn bestu og heilsusamlegustu áminníngar, vidvaranir og uppvhvatníngar til eginn lucku vorrar? viljum vér þá einkis meta vors elskurika Frelsara nád og ástsemi, þá, med hverri hann á hérvistardögum sínum tók svo ástúdlega ad sér ydrandi syndara, og tekur enn med somu elsku þeim á móti? viljum vér þá ajora ad engu med vorum mótþroa allt þad ómak, alla þá umhyggju, sem vor gódi Gud ber fyrir því, ad fá oss leidda til apturhvarfs, og þar med frelsa oss frá vorri egin fordjorfun? o! ad vér hugleida vildum hverninn vér frelsast mættum úr hættu þeirri, sem vér stofnum oss i! efalaust er þad, ad sá sami miskunsami Gud, sem lætur sér svo annt vera um ad frelsa oss, og med sínum Anda verkar hid goda í vorum hjortum, hann, sem útbreidir sinn nádar-fadm á móti oss allan daginn, ad þessi sami Gud mun þo eins efalaust álita oss fyrir sína ovini, ef hans

 

náqvæma umbyggja fyrir oss verdur af oss forsmád og þanninn ad engu, ef ad vér ecki viljum láta oss leida til apturhvarfs vid hans mildiríku nád; lokkuns gaungum vér þá sjálfrádir út í þá ólucku, sem vér keppumst eptir, og þá hlýtur straffid, sem vér sjálfir bokudum oss, ad verda því nukla þýngra. Í þeim sama himni, sem gledi er yfir sérhverjum syndugum, sem ydrun gjörir, enn binna nosn, sem áfram ana í syndunum, vidurstygd fyrir Gudi, Englunum og hans heilogu, því med syndum og ydrunarleysi styggja menn Gud og brella hans gódu Anda; og hvert vildi sá ad lokunum flýa, fyrir hvern eckert athvarf edur hæli var leingur á jördunni! þegar ydrunarlaus sála med ótta og ángist hlýtur loks ad skilja vid þetta jardneska, og himininn, sinn í hvern eckert óhreint eda almenniligt, eckert, sem elskad hefir ógudlegleika og lýgi, koma kann, er henni apturluktur, hverr verdur þá hennar samastadur, hvílik hennar kjör, onnur enn eilíft spott og vanvyrda og hrelling! vegna egin velferdar vorrar, skal vor einlægast áseturingur sá, á medan ér enn þá hofum tíma til yfirbotar, ad leita af alvoru nádar hjá

Gudi og láta oss leida af hans kjærleiks-fullu vidvørunum, til ad forda oss háska þeim, sem hinum oblutvondu búinn er, sem uppegna sér á móti Guds réttlætis reidi; því hvernig fengjum vér afbórid hana? O Gud! vyrdstú ad leida oss á þeim vegum, um eydimork þessa lífs, sem leida til þíns sælufulla himins; vertú æ vor leidtogi í lífinu, svo ad vér, fyrir þína nádarríku adstod, ad lokunum leida fáum í þeim farsældar heimkynnum, hvar útvaldir gledjast af þeim sælufullu verdlaunum, sem þar eru fyrirbúin þeim, er þig elska. O Herra Jesú! leid þú oss jafnan med ordi þínu og anda til þessarar farsældar! o Jesú! géf oss þann sóma!

## 72. Hugvekja.

Þú, hinn mikli og voldugi Gud! Drottinn Zebaoth er þitt nafn, þú ert mikill í rádum og máttugur í athofnum. Jer. 32.

Hared vér erum svo ófrámsýnir til ad sjá víslega fyrir hegum vorum, en kraptar vorir reynast svo veiklir til ad efla vora lucku, er þad ecki lítilvæg huggan fyrir oss, ad Gud, undir hvers stjórnun vér stondum og í hvers valdi er ad



bæta allar vorar þarfir, er svo mikill í ráðum og máttugur í athöfnum. Vér vitum ecki hvað oss mæta mun á næsta degi, jafnvel ecki á næsta tíma; en hañ, sem niðurraðað hefir og áqvarðað fyrirfram sérhverrar mañeskju tilfelli, og fyrirhugað þeirra luckn-kjør, hann sier ecki einúngis fyrir, hvað á næsta tíma og morgundegi mun aðbera, heldur er einnig augljóst og nakið fyrir hans alskygna auga, allt sem í voru gjørvalla lífi mun oss mæta; og svo ráðþrota, sem vér einatt verðum, þegar vér viljum forsjállega sjá fyrir lucku vorri, svo krøptug eru hans ráð, sem hjálpa oss eins opt í vandræðum þeim, sem abla oss áhyggju og ángistar qvölda. Þar eð vér erum nú svo fullkomlega sañfærðir hér um, því erum vér þá svo fastiña, að láta vort blindaða húgskot og hjartans tilhneigíngar ráða vorum fyrirtækjum? því felum vér þá ecki allt vort ráð og áform á vald Guðs óendanlegu speki og stjórnun, þareð ályktanir hans ráðs einar eru vísar og sáluhjálplegar fyrir oss; ef að vér ætíð breyttum þañig og vendum oss á, að vera ánægdir með þessa Føðurs vors vísa og náduga vilja, mundum vér síður orsøk hafa til að ángrast eptir-

á yfir vorum fyritœkjum. Qvídalausir mundum vér renna augunum fram til hinna ókomnu tímanna, ef vér með gaumgæfnl íhugundum, að sá Guð, sem áqvarðað hefir oss til handa allt það, sem framkoma mun á komandi tímanum, er mikill í ráðum og máttugur í athöfnum. Þessi fullvissa leiði oss frá þeirri fásinnu, að trúa betur vanvitsku vorri enn Guðs ó-endanlegu vísdómi; frá því, að treysta framar vanmætti voru, en almætti hans, sem ollu megnar. Otelulegar röksemdir sannfæra oss um það, hvërsu vís, hve máttugur, hve gœdskuríkur Guð er, sem viðheldur lífi voru. Aldrei skal fávitska vor gjöra lítið úr vísdómi hans, né treysta vanmegni voru jafnt og hans almætti; með verdskulduðu þakklæti skulum vér viðurkénna hans góðgirni; fyrir Guðs alvísa augliti, viljum vér lítillækka oss og géfa honum dýrðina fyrir allt, það góða, sem hann auðsýnir oss. Þegar vér þannig forum að ráði voru, vogum vér að vænta oss blessunar Guðs og lífsins ánægju og farsældar. O Guð! géf þú oss þessa lucku og kénn oss æ betur og betur að þeckja vanmætti vort og fásræði. Láttu oss aldrei dyrfast að fram-



koma fyrir þitt alsjáanda auga með drambsömu og stærilátu hjarta, sem í nockru stóli uppá sig, heldur þeckja og viðurkéña, að vér æ séum veikar og hjálparlausar sképnur, sem í öllu komnar erum uppá þína miskun og náð. Hvergi, neima frá þér, voldugi Guð! væntum vér aðstoðar og hjálpar, þegar oss ligg- ur á, en þegar vér þannig selium oss á þitt vald með auðmýktarfullu og einlægu hjarta, láttú oss þá ætíð finna hjá þér ráð og krapt. Auðsýn þig gjörvallri kristni þinni, sem hennar trúfasta ráð- gjafa og hjálparmann, og frelsaðú öll þín börn af þeim vandræðum, sem nú eða héðan af kyña að mæta þeim. Gjör að engu ráða-brugg hinna óguðlegu, en heyrðu óskir ráðvandra; þegar vér erum efablandnir og ráðþrota í voru áformi og fyritækjum, géf oss þá vísdóm til að þeckja og velja það besta, og krapta til að framqvæma það. Lát oss í öllu, sem vér gjörum, tölum eða hugsum, hafa þinn vilja oss fyrir augum og breyta ept- ir honum í öllu; þitt undarlega og dýrð- lega ráð, leiði oss farsællega í gégnum alla mæðu þessa lífs og motlætingar, og að lokunum iñ í aňars betra heims vistar-

verri, hvar vér med gledisaungum dýrkum þig og sýngjum: mikli og sterki Gud! Drottinn Zebaoth er þitt nafn, þú ert mikill í rádum og mektugur í athøfnum!

## 73. Hugvekja.

Þad port er þraungt og sá vegur er mjór, sem til lífsins leidir, og þeir eru fáir, sem rata hann. Matth. 7.

Ecki verdur því nejtad, ad mørg er mæd-an og margfaldur ørdugleikinn, sem oss mætir á fyrisettum vegi í gégnum heim þenna til himinsins. Vegurinn, sem vér gánga skulum er yfrid mjór og portid þraungt, sem vér egum um ad fara; en — hverju ørdug og mædusøm, sem gánga þessi mætti finnast oss, er þad þó skylda vor ad velja þenna veginn, en ecki láta þær þrautir, sem á honum kynnu mæta, fæla oss af honum. Þad er ad sönnu satt, væru þessar þrautir óyfirvinnanlegar og ef vér búast blytum vid óteljandi þjanfng-um og endalausu mótlæti, mætti þad verda ørvæntunar efni fyrir oss, en vér høfum, eptir nærverandi ástandi voru, nóg medøl í høndum til þess, ad vegurinn verdi oss greidfarnari, strídid gédfeldara,



sem vér á honum beja blóðtum, og heillafull von þess, er vidtekur, þegar veginn brýtur, gjörir allt léttbærara. Satt er það, ad vegur þessi er mjøg ógreidur, en endir vegarins, ef vér til hans lítum, er því vegsamlegri. Oblugir eru óvinir þeir, sem vér egum hér vid ad strída, en hinn, sem med oss er, er lángtum oblugri; veikir eru vorir kraptar, en Jesú máttur yfirgnæfir vort vanmegni. Pared vér høfum nú hvílíka upphvatníngu og hugar-styrkíngu, væri það eckert affsøknar-mál fyrir oss, ad klaga yfir krístinndómsins ørdugleika; vér viljum því á oss taka þetta heilnæma ok og bera þessa léttu byrdi. Allra Jesú soña strídsmaña dæmi skulu hér til upphvetja oss; þeir hafa márgir mátt reyna alla þá mædu, sem kristiñdómuriñ olla kañ, og þegar vér samanberum vorar léttu þjáníngar vid brautir þær, sem þeir lída hlutu, hversu lítid eru þá ecki vorar ad reikna á móti þeirra? hverki píslir né píntíngar høfum vér lidid fyrir Jesú sakir; hverki høfum vér hans vegña þurft ad afneita ríkdómi, metordum né velgengni; en allt þetta og þadan af meira hlutu þeir fyrstu evangelíí játendur ad lída, skyldum vér þá ecki þola vilja litla mædu eda stutt-

og léttbært stríd, já, hvad enn þá er meira, hlaut ecki Jesús siálfur ad þola svo mikid, ádur enn hann inngánga fêck í sína dýrd! allt frá fædíngu hans til daudans, var hans líf fullt mædu; fullt erfidis og sorgar; ættum vér þá ecki ad vilja líkjast honum einnig í þessu? fjærri sé þad oss, ad skora oss undan, ad bergja á líkum kaleik og hann! vér hofum nú fyrir augsýn Guds tekid fyrir oss þann ásetníng ad umbera allaun ordugleika, sem kristid líferni útheimta kann, ad krossfesta vort hold med þess girndum og lystíngum í ollu, ad eptirfylgja Jesú án moglunar, og fúsir ad taka þeim mótlætíngum, sem hann vill á oss leggja; ecki skal neitt bágt eda óþægilegt á vorri Pilagríms-reisu hræda oss frá, ad framgánga á þeim vegi, sem oss er fyrirsettur; nóga endurnæríngu munum vér finna, þegar vér med rádvendni kostum kapps um, ad vardveita skyldur vorar; vér felum oss þvi á hendur þinni styrkjandi og helgandi náð, miskunsami Gud! án hverrar vort áform mun ad engu verda; efl þú oss í strídinu vid syndina, ad vér ecki látum oss locka af dæmum og adferd hinna ógudlegu; gef oss þann vís-



dóm, ad vér ecki látum oss giña af lastaña útvortis skíni né vellystinganna tillockunnum. Hjálpa oss ad gánga hugudum fram á gudhrædslunnar vegi og loksins ná því takmarki, sem endar alla vora mædu, umbunar alla vora fyrirhofn. Hversu rósamir munum vér þá ecki reña augunum til ens umlidna og skoda allañ þañ ordugleika, sem vér hofum yfirunnid! hversu kroptuglega munum vér þá ecki sañfærast þar um, ad mjói stiguriñ, sem vér framgaungum á, var sá besti og beinasti fyrir oss til ens eilífa lífs! hversu ástúdlega munum vér þá ecki þacka þér, ad þú leiddir oss um hañ til vorrar eilífu farsældar!

## 74. Hugvekja.

Hverr er eg?

Þad er sú spurníng, sem vér, hverr í sinn stad, daglega gjora ættum sjálfum oss; því hverr, sem aldrei gaumgæfir sitt ástand, eda hvert hañ taki framforum nockrum á dygdaña vegi, ellegar, forherdist í lostum, er nærsta illa fariñ; en ef vér stíngum nú hendiñi í vorn egiñ barm og reñum þaunkunum til sjálfra vor, má efalaust margur af oss játa; ad allt til þessa

þessa dags, höfum vér aldrei med réttri eptirtekt íhugad þetta efni eda soñu svarad uppá spurníngu þessa, vér höfum svo lengi eydt lífstundum vorum í heiminum, án þess ad hafa lagt alúd nockra á, ad lifa samqvæmt vorri óqvordun, Guds ordi og skynsemiñi. Látum þad nú nóg vera, ad vér híngad til eydt höfum svo mörgum stundum í þvílíkri vanvitsku, rétt eins og draumi; þessa stund skulum vér nota til ad yfirvega med athygli tilveru vora, hvad vér séum og til hvers skapadir. Af sjálfum oss urdum vér ecki til, Guds almætti mindadi oss í upphafi og gaf oss þá veru, sem vér höfum. Frá honum komu allir þeir fullkomlegleikar, er sálu vorri og líkhama veittust, en í hans valdi er ad taka þá aptur, þegar hañ vill. Vor líkhami er af jördu myndadur, af jörduñi nærist hañ, en verdur loks rotnadur ad jördu aptur. Nem því hér um augnablik stadar, kristinn madur! hugleid, hvert þú hafir orsok til ad stæra þig af líkhama útliti þínu, elleg-ar upphrokast yfir adra. Sú smeckbetri fæda, sem þú máské nýtur og þau stáðlegri klædi, sem þú máské bera kañt frañyfir adra, gjora þig engu þörmætari enn þú í

 

rauñ réttri ert; vér erum allir áþeckir því, sem vér daglega undir fótum trodum, dupt af dupti og jord af jordu, en vér erum þar ad auki andi, og þó þeim önd anleda anda, hvers líking vér vera áttum, nærsta blíkir ordnir; ýfrid lítid hefir skynsemi vor til ad bera af vísdómi þeim, sem honum var í ondverdu meddeildur; vilsiñ hefir heldur eckert eptir af sakleysi því og heilagleika sem hañ var prýddur med, og tilhnegíngarnar gánga hjá oss svo frekt út yfir tilhlýdileg takmörk, ad þar vid eydist sálarinnar rósemi. Sá alvaldi Yfirherra, sem skapadi mañeskjurnar, setti oss til þess í heiminñ, ad framqvæma skylduñ þad verk, er hañ áqvardad hafdi sérhverjum af oss; en þetta fyrisetta verk verdur, því midur! af ofmorgum forsómad, eda ad minnsta kosti gjort verr eñ vera ætti. Þad mun loksins sérhverr af oss siña mega, þegar ad reiknings skapar tímiñum kémur, en Herrañ á óvæntri stundu kallar oss burtu hédañ, og sá alvísi Dómari útbýtir eiñum og sérhverjum umbun eda straff, eptir því, sem eiñ og sérhverr, á medañ hann lifdi hér í heimi, hafdi tilunnid; þá mun þad ad lokinu auglýsast, ad vér engannveginn gjordum þad, sem oss bar.

Svo dróſama, ſem þeſſar hugleidingar mættu nú gjøra oſs, ſvo rólega og fridſtillta gjorir oſs aptur ſú yfirvegan, ad vér ſéum kriſtnir, ſem eguim von á ad verda ecki dæmdir eptir ſtrángaſta rétti, fyrſt vér af Jeſú erum endurleyſtir, ſem ecki einúngis bætti fyrir vorn ófullkomleika og afbrot vor, heldur útvegadi oſs hylli Guds og rétt til ad heita hans børn, ſem mega gledja ſig hér í tímanum vid þá ſælu von, ad odlaſt á ſídan hlutdeild í eilífri farſæld, þegar vér áſtundum ad lifa hér, ſem kriſtnir. Veri þar fyrir ſú alvarlegaſta áſtundan vor ad lifa ſvo, ſem kriſtnum ſomir, ebla Guds dýrd og farſæld vorra medbrædra undir eins og vora egin, ad ſvo miklu leiti oſs er møgulegt. Med þvílíkum lifernis- og þenkingarhætti mun ſérhverr af oſs éfalauſt ſmacka þá lífs heill og ánægju, ſem hann aldrei ádur þeckti. Med róſamri gledi ſkiljum vér þá vid lífid, þegar daudinn kallar, því ſamvitſkan ber oſs þá vitni, ad vér af alvøru høfum lagt ſtund á ad framqvæma í lífinu vort fyrirſetta verk, en Guds Andi mun þá ſálina gledja med von dýrmætuſtu umbuna. Í bleſſadri endurminn-



ingu verdur þá vort nafn og minning á jördunni, en vor fögnudur í eilífdinni óútmálanlegri enn nockrum hér hafdi í huga komid.

## 75. Hugvekja.

Dragdu ecki undan ad snúa þér til Drottins, slá þú ecki á frest frá einum degi til annars, því reidi Drottins mun hastarlega koma og yfirfalla þig á hefndarinnar degi. Syr. 5.

Í engu efni er undandráttur hættulegri enn í voru ydrunar-verki; margföld höfum vér dæmi haft, sem sannfæra um þad og eilífdin mun á sídan sýna oss enn fleiri óttaleg þeirra, sem burtrycktust ádur enn byrja vildu yfirbót; þared þeir táldrógu sjálfa sig, ad þeir enþá mundu fyrir höndum eiga lánga lífdaga, en nádu þó ecki þeim tíma, sem brúka skyldi til betrunar; sjáum vér þá ecki í huganum vora mynd á þessum ólucklegu? því er midur! vér megnum vidurkénna: ad vér hingad til höfum verid allteins hyrdulausir um vora yfirbót. Guds lánglundar-gédi megum vér þacka, ad oss þegar ecki er burtu kippt midt í voru andvaralausa og dofna ástandi. Vér sjáum þá





háskasemd, sem vér stofnum oss i, med því ad draga undan vora yfirbót. Vidurkénna megum vér fásinnu vora i því, ad gjöra oss vissa von um ár og daga, þar sem vér varla megum reida oss uppá ad lifa næsta augnablik. Vid svo margar upphvatníngar til ydrunar, hugsudum vér ósjaldan líkt Felix: i annad sinn, þegar eg fæ tóm, vil eg snúa mér; en af hverju vitum vér, ad oss i annad sinn muni betur farnast? festa ecki lestirnir þess meir rætur, því lengur, sem þeir æfdir eru? forherdumst vér ecki æ meir og meir vid syndsamlegann vana i löstunum, og verdum um leid því meir frábitnir því góda, og hverr hefir sagt oss, ad vér lifad fáum þann tíma, ad vér tekid fáum sinna skipti? mun ecki daudinn géta rykt oss óvorum i einu vetfangi burtu? máské og ádur enn nockurr sjúkdómur bodi hans nálægd? hvad fullvissar oss um, ad Gud en vilji láta oss heyra sína nádar rödd, hverja vér svo opt höfum forsmád? og hvernig megum vér vænta þess, ad heilagur Andi enn þá hér eptir vilji klappa á dyr vors hjarta, eptir þad vér svo þráfaldlega höfum neitad honum inngaungu? nei, aldrei skulum



vér framar vera svo fásinna, ad treysta á svo óvist? þetta augnablik, um hvert vér med vissu sagt getum: ad þad sé vort, skulum vér endurkaupa; á grøldstundu þessari viljum vér nú heyra þá røddu vors Guds, sem kallar oss til apturhvarfs: hvert veit, nema vér í nótt eda med morgundeginum fáum þá skélfandi røddu ad heyra: manneskja! þú skalt deya og ecki lifa! æ! látum oss þá álita oss svo sem þegar deyandi, er vænta megum daudans á hverri stundu og þad nú framqvæma, sem vér vildum láta oss hugfastast, þegar vér á banasænginni liggjum fyrir daudanum; látum oss audmýkja oss fyrir Gudi, undir eins og vér vogum ad tileinka oss Jesu réttlæti, sem í daudanum verda skal vor einka huggan og styrkur! látum oss fela vora sálu þeim Gudi á vald, í hvers hendum vér óskum henni ad hvíla, þegar hún skilst vid líkamann! látum oss strída á móti þeim girndum, sem gjøra mundu oss samvitskunnar áklaganir þúngbærar í helsóttinni, ef vér létum sigrast af þeim. O Gud! þú, sem nú vekur þessa þanka í hjarta voru, þú, sem nú minnir oss á þessa svo naudsynlegu forsjálni, gefdu oss krapta og støduglyndi til ad framqvæma þetta, sem vér

ásetjum nú; kéñ oss ad endurkaupa tídina og ætíd minnast þess, hverfu dýrmætt, en þar hjá fallvalt og ódfluga vort líf er, svo vér verdum ættum eilífleg sáluhólpnir.

# 76. Hugvekja.

Gángid í elskunni, eins og Jesús Kristur hefir oss elskad og sig sjálfann útgéfid fyrir oss, til fórnfæringar og offurs Gudi. Eph. 5.

Ef vér hugleida villdum, hverfu dumrædileg sú elska var, med hverri Jesús Guds eingétinn Sonur elskadi oss syndugamenn, þá mundum vér sinna þad, ad nú eckert ætti oss fremur aunt ad vera, enn ad hjá oss mætti aptur ó mót vekjast sú heitasti og hreinasti kjærleiki til hans, því heldur, sem þad er ecki einúngis vor skylda, ad elska vorn Jesúm af gjörvöllu hjarta, heldur er lika vor sanna lucka undir því komin, bædi um tíma og eilífd, ad vér lifum og deyum í elskunni til Jesú. Hverfu mikid er þad ecki, sem Jesús, bædi med sínu lífi og dauda, hefir fyrir oss gjort, svo ad vér skyldum elska hann! eda, hvad gétum vér ímyndad oss, ad hann frekar gjora mætti fyrir vorar sakir, heldur eñ hañ gjort hefir til



þess, ad lada til sin vora hjartans ásts gat hann lidid meira enn þan smánarlegasta og qvalafyllsta dauda, til þess ad afreka oss eilífa sáluhjalp? hverja örækari sannfæríngu mátti hann géfa oss um þad, hversu heitt hann oss elskadi, helldur enn þá, ad hann, oss til góda, tók á sig forsmán í stad sinnar eilífu dýrdar; eymd og volædi, í stad guddómlegrar sælu, orbyrgd fyrir ríkdóm, dauda fyrir líf? hversu hardt, grimmt og tilfinníngarlaust er þá ecki þess hjarta, sem ecki vill elska þenna vorn Jesúm aptur á mótt fyrir þvílíkann kiærleika! o! vor elskuríki Jesú! styrk oss siálfur í elskunni til þín, ad hún mætti verda svo sterk, ad enginn hlutur megni ad skilja oss vid þinn kiærleika. O! vér hljótum, vér viljum elska þig, svo ad bædi líf vort og daudi vitni um vorn kiærleika til þín, vér viljum vér lifa, o Jesú! án þess ad elska þig, er alls enga sanna ánægju ad finna í þessu lífi; hvergi er oss audid huggun edur hæli ad fá í þreyngíngunum, mædu og motlæti þessa lífs, ef ad oss ecki audnast ad vera í nád hjá þér, og vita oss undir þinni mildiríku stjórnun. Sannfær oss æ betur og betur um þá sælu, sem sérhvert þitt trúr þjonog barn á í vændum. Þegar

vort hjarta vill leida oss afvega til ad hlýdnast heimsins tælandi girndum, lát oss þá hugleida, hversu viljugur þú hafir synjad sjálfum þér jardneskrar gledi og þar med skuldbundid oss til ad afneita heiminum en eptirfylgja þér. Ef vér rötum í þá villu og ólucku ad lifa í syndunum, minnu oss þá á pínungar þær, sem syndir vorar bökudu þér, svo þarvid leidast mættum til ad fordast syndina. Ef ad vér keljumst undan ad bera þann litla mótlætis skerf, sem þú hefir oss útmælt, set oss þá kroptuglega fyrir sjónir þá pínu og sjálfs afneitun, þann kross og dauda, sem þú undirgéckst fyri vorar sakir; þinn kærleiki uppfylli allt vort hjarta, stjórni voru líferni og veri loksins vor huggan í daudanum; því hverr dauddagi er sáluhjálplegri en sá, þegar oss andnast mætti ad deya í þínum kærleika? ó Jesú! Í honum og þinni sameiningu finnum vér ómrædilegann sætleika, sem lángt yfirgengur allann daudans biturleika. Þad skal þar fyrir vera vor stadfasti ásetningur svo ad lifa, ad vér deyandi mættum vera þínir; vér viljum því slíta oss frá ollu, sem taka má vort hjarta til fánga. Mótalausa elsku til ens jardneska viljum vér úr hjartanu

uppvæta, en eckert nema þig, krossfestt og upp aptur risni Jesú! af gjörvallri sálu elska; eins þá, er vér í dandanum ecki sáum lengur þenkt um nockurn hlut, skulu þó allar vorar hugrenningar hjá þér síð ast stadar nema, en þá vér gaungum út frá heimi þessum med þeirri huggun, ad vér deyum í þér, munum vér efalaust inngánga í betra heim, med þeirri öruggu von, ad mega eilíflega med þér lifa. O! hvílíkur þánki er þetta: eilíflega ad lifa þér, Herra Jesú! Hér í heimi fáum vér aldúngis ecki skilid, hversu mikils þetta er verdt, en þegar vér innfluttir erum í vort eptirþreyda fódurland, munum vér ad fullu reyna og skilja, hversu sæl sú sála er, sem lifir þér.

## 77. Hugvekja.

Nád sé med öllum þeim, sem elska Drottinn vorn Jesúm Krist einlæglega. Eph. 6,

Yfirvega þú, sála mín! med gaumgæfni og undrun kjærleika Frelsara þíns. Gácktú til Bethlehem, skodadú hann, sem er ljómi Guds dýrdar, í þénara mind, í eymdum og þreyngíngum. Fylgdú honum fet fyri fet í gégnum hans lærdóms-

ríka líf hér á jörðunni. Sjáðú hans góðgjarna kjærleika, með hverjum hañ læknaði sjúka, styrkti veika, huggreysti auma og tók syndara til náðar. Sjáðú hvernig hañ, sem þó aunglysti svo mikiñ mañkjærleika, var af mönnum ofsóktur, smáður, hæddur og, svo saklaust og heilagt hans framferði var, þó qvaliñ og píndur. Gáck þú á eptir honum iñí Gethsemane aldíngard og horfðú á stríðið, er hañ þar hlaut að útstanda, sjáðu erfiðið, sem hañ þoldi, sjáðu tárin, sem hañ felldi, teldu andvörpin, sem hañ stundi fram, skoðaðú blóðsveitañ, sem hañ úthellti, yfirvegaðú þá bæn, sem hañ þar gjörði til síns himneska Föðurs og hugleiddú með háleitri undrun þá hlýðni, með hverri hañ leggur sig undir vilja síns Föðurs. Haldtú eñ áfram og far með honum uppá fjallið Golgatha, stattú kyrr þar, á skoðunar plátzi alls þess mesta, er guddómuriñ nockurntíma gjört hefir og sjáðú það undrunarverðasta, sem kjærleiki nockurntíma hefir framqvæmt, sjáðu þeña Jesú, síns Föðurs soñu einkind, sjáðú hvar hañ héck nakiñ á trénu, á meðal tveggja morðíngja, í gegnumstúngiñn með nöglum og af böðlum umkríngdañ; en — sjáðu, hvernig hañ styrkist af elskunt



í svo mörgum pínslum, hvernig elskan þrýsti honum til að leggja sig undir þessar qvalir og hrærdi hañ til að umbera þær þolinmódlega. Sjádu hvernig hañ tæmdi qvalañá bitrasta kaleik, og var eins fús að deya fyri sína óvini, og fyrir þá að taka á sig mañdóm. Hvernig er það mögulegt, að þú, sála mín! hrærist ecki við sjón þessa? hvernig er það mögulegt þér falli það órdugt, að taka þañ ásetning fyrir þig, að elska þiñ Jesúm aptur á móti, þegar þú hugleidir þvílíkañ kjærleika, og það er þó allt, sem þiñ píndi Velgjörari krefur af þér, að þú aptur á mót elskir sig. En hverr kjærleiki getur ordid nógu sterkur, nógu breñandi til þess, að þú med honum fáir endurgoldid það óútmálanlega góda, sem hann hefir gjört þér? að sönnu er það þér ecki mögulegt, að elska hañ eins heitt, og hañ hefir þig elskad, en hañ krefur einúngis af þér einlægañ kjærleika, jafnvel þó hann veikur sé. Kom þá, sála mín! og offra honum allri þinni eptirlaungun, allri þinni von og öllum þínum óskum! að elska hann æ meir og meir med sífeldt varandi öruggu trausti, að trúa á hann, og med einlægu, rádvöndu og audsveipnu hjartalagi, að leggja þig æ viljugri og

vilsiugri á hans vald, þetta skal vera þin innileg ósk, sem þú leitist við að uppfylla. Sýndu því í daglegri framferdi þinni verkanir þess kjærleika, sem þú ber til Lausnara þins. Hugsaðu opt um það, hvörsu heit sú elska var, er hann til þín bar; spyr sjálfa þig: hvert eitt edur annad syndatæki, sem þú áformar, ellegar synd, er þér kémur í hug ad drýgja, standast megi med kjærleika þeim, er þú ert þínum Frelsara skyldug ad sýna? gleym því aldrei, ad oll sú lucka og blessan, sem þú nýtur á sérhverjum degi þíns lifs, helgast af því dýrmæta offri, sem þinn Endurlausnari frambar þann dag, er hann fyrir þig píndur var. Þetta uppveki og hrýsti þér til á sérhverju augnabliki þíns lifs, að renna augunum til Jesú kjærleika og med þacklæti minnast hans pinu og dauda.

## 78. Hugvekja.

Allt mitt ráð til Guðs eg set, á mér sinn vilja verda lét, mér bið eg hans miskun hlífi, heilsu, vit, líf, sál, heidur, fé, hans vernd jafnan befalad sé, nú og í eilífu lífi.

Á medan vér erum á vegferdar reisunni, sem oss er ágvordud í gegnum líf-



þetta, er vissulega engin lucka meiri enn sú, ad vera þess fullviss, ad vér sífeldt framgaungum undir umsjón og nákvæmri varatekt þess Guds, sem er óendanlega máttugur og miskunsamur; þad skal því vera vor eilíf gledi, ad halda oss til hans og setja á hann vort gjörvallt trúnadar-traust; eda því skyldum vér hafa svo egin velferd vora, ad treysta á sképnurnar, sem eru eins vanmáttugar og vanvita og vér sjálfir erum? nei, Drottinn er vor Frelsari, hann er vor leidtogi, hann er vor verndari; hans óendanlegi vísdómur sier og þeckir allar þær háskasemdir, sem lífi voru eru búnar, hans almætti getur verndad oss í allri neyd og sérhverri jafnvel mestu hættu. Gædska hans er sífeldt reidubúin til adstodar, og synjar oss aldrei hjálpar í nockurri neyd. Þetta hofum vér sjálfir svo margopt reynt á vorum umlidnu lífsstundum; þegar enginn madur né nockur mannleg hjálp gat oss minnstu bjorg veitt, var hans hjálp oss nálæg, og þegar enginn heyrdi þær sáru klaganir, sem vér í einrúmi leynilega frambárum af sorgbitnu hjarta, stód hans miskunar eyra opid fyrir vorum qveinstofum, hann

kaldi vor kár, heyrdi vorá grátbeidni; og þvi skyldum vér þá ecki trúa á hann, og vonu til hans miskunar á vorum ókomnu æfi-dögum? sikeldt á medan vér lifum i heimi þessum, erum vér umkríngdir af háskasemdum, og hverr veit hvad oss i nótt edr á næsta degi mæta nunni. Vér viljum engu qvída, en afhenda oss á vald vors Guds visu og almáttugu forsjónar, hann mun fyrirsjá hættu þá, sem yfirvofir, og útryckja oss af neydinni med sínum voldugu armi. J vanvitsku vorri er vor huggan sú, ad Gud sjálfur er vor Frædari, sem kennir oss þann mikilvægasta lærdóm, sem er: ad óttast hann. Miskunarríki Gud! vér felum vort hjarta þér á vald, gjör þad sjálfum þér þóknanlegt, upplýs vorn skilníng, helga vorn vilja og yardveit vora gjörvallsa sálu óstraffanlega til þins opinberunar-dags! en vér veit og hrasandi börn þín sjáum svo marga afvegu fyrir oss, sem leida kunna oss frá þér, margar villu-götur, á hverjar vér ráfa kunnum af réttum vegi; kenn oss þvi ad þeckja alla afvegu, allar tálsnörur, sem gjöra kunna oss ólucklega, og vardveittu vora fótstigu, ad vér ecki hrösum; kom vorum veikleika til

hjálpar og vidhaldtú oss á þeim sáluhjálp-
lega vegi, sem leidir til himinsins. Þitt
auga, o Gud allrar gædsku! líti í nád nid-
ur til vor aumra á þessari stundu; þú hefir
leidt oss iñ í heim þeña, þín náduga for-
sjón leidi oss því á réttum vegi um heim-
inn. Snú ecki augliti þínu frá oss, þeg-
ar vér bidjum þig, en géf oss, fyrir vors
Frelsara Jesú sakir, allt þad, sem þú sér
oss nytsamlegt; jafnvel mótlætingum
viljum vér gladir vel taka frá þiñi hendi.
Styrk oss med þinni hjálp og gled vort
hjarta med þiñi huggun. Þiñi nádugu
stjórnum felum vér á hendur, o vor Gud!
vort gjörvalla líf; yfirgéfdu oss ecki og
tak ecki þína nádar-hönd frá oss, vor Gud
og vor heilsugjafari! Amen!

## 79. Hugvekja.

Ecki ad eg hafi þad þegar höndlad, edur sé þegar fullkominn, eg stunda þar eptir, hvert ad eg gæti þad einnig höndlad, eins og eg er af Kristi höndladur. Phil. 3.

Þegar vér, eptir erfidi dagañs, hvílumst á nóttum og njótum svefnsins endurnæringar, erum vér eins og daudir án tilfiñíngar og adgætslu þeirra háskasemda

sem þá andveldlega kyssu nálægjast og yfirfalla oss. Þetta ástand vört er nærsta sorgleg afmálan þess tilfinníngar- og adgjørdaleysis, í hverju sála vor eydir tíd sinni. Tilfinníngarlausir erum vér vid svo marga velgjørníngá, sem vor gódi Gud lætur oss njóta, svo ad hverki hans typtanir né bendíngar fá oss vakid af vörum andvaraleysis svefni; dofnir erum vér til ad gjøra þad góda, og afskiptalausir um þær háskasemdir og hindranir, sem tálma oss í gudhrædslunnar og dygdanna framforum. Vér gaungum fram líkt og hálfsofandi og í draumi, umhyggjulausir fyrir því, sem oss mæta kann, án þess vér adgætum, hvad um vorrar ódaudlegu sálar velferd lída muni. Í þvílíku ástandi hefir máské margur af oss nú lengi lifad æfi sinnar, og þannig, svo ad segja, sofid mörg ár burt. Mál er því fyrir oss vördid ad vakna loksins af þessum hættulega værdar dúr, og láta Guds ord og skynsemi vora leida oss til ad gegna þessum gudlegu upphvatníngum, til adgætslu velferdar vorrar. Láttú því, sála mín! Guds raddir, sem til þín talar í hjarta þínu, hafa þá verkun, ad þú ecki einúngis heyr-



ir, heldur og framfylgir þeim hræringum, er þú finnur Guds Anda hjá þér verka. Vaknadu því ecki ad eins um stund, heldur varast þú ad falla aptur í sama andvaraleysis svefn; láttu þér nægia, ad þú híngad til hefir sofid burt þín bestu ár. Vertu nú árvokur, og tak vara á sérhverri skyldu þeirri, sem Gud af þér krefur. Svo opt hefir Gud ad undanfornu til þín hrópad; vakna þú, sem sefur, og rís upp af dauda! heyr nú á þessari stundu þessa rödd, sem krefur af þér, ad géfa gætur ad þinni velferd. Gættu ad, hversu margar háskasemdir þig umkríngja, í hverjar leti þín og svefn kann audveldlega ad varpa þér. Sérhverr dagur þinnar æfi, sérhverr tími þíns lífs, bjoda þér út í nýa orustu; vak því og stríd, svo þú missir ecki þá kórónu, sem þér er heitin ad strídslokunum eptir unninn sigur; eda meinar þú ecki, ad endurminníng þinna, í andvaraleysis svefni, eyddu lífstunda, muni loksins sárlega qvelja þig, ef þú lætur þig ecki vekja, ádur enn sídasti dauda svefn aptur lykur þín augu? hugsa æ til þessa á hverju qvoldi ádur enn útaf sofnar, og lát þá tilhugsun þrýsta þér til ad bera umhyggju fyrir þinni eilífu velferd, ádur enn þú lykur þínum augum.

En hvernig fáum vér þessu orkad, nema þú, vor Gud! hjálpir og styrkir oss? eins og vor líkhami á morgnana verdur ad njóta þín ad til ad fá borid sig og vidhaldist á hverjum degi, allteins og ecki midur þarf sála vor þinar hjálpar, bædi til ad uppvakna af syndanna svefni og líka til ad haldast sífellt vakandi. Æ! miskunna þig því yfir oss, miskunnarríki Gud! þú þeckir og sér hvers dauslr, latir, kaldsinna og duglausir vér erum til alls góds. Uppliſga því med þínum Anda vort hjarta og upphvet vora sálu til ad brúka forsjálega sérhvern þann tíma, sem þú unnir oss. Gjör oss adgætna um háskasemdir þær, sem sálu vorri eru búnar og eptirtecktasama um miskun þina vid oss, fúsa til ad gjöra hid góda og áhyggjusama ad forsóma engin þau tækifæri, sem þú géfur oss til ad taka vara á frelsi vorrar sálar. Leidi þá, o vor gódi Fadir! sálu vora til yfirbótar, þitt ord, þinir velgjörníngar, þinar typtanir þín þolinmædi og þín vægd vid oss! aldrei viljum vér hédanaf strída gégn þvílíkum upphvatníngum, aldrei hédanaf láta þína nád til forgéfins vid oss framkoma. En ef ad vér skyldum rata



i þá ógæfu, ad andvaraleysi og syndaña svefn sígi ad oss á ný, veki oss þá af hön- um þín nádar raust, svo vér ecki út af sofnum til ens eilífa dauda, heldur odl- ast mættum þad eilífa líf, sem er þín nádargjöf fyrir Jesúm Krist vorn End- urlausnara. Amen!

## 80. Hugvekja.

Þegar þú kallar, mun Drottinn svara þér, þegar þú hrópar, mun hann segja: sjá! hér em eg. Esa. 58.

Vér værum vissulega hinir óþacklát- ustu af ollum sképnum Guds, ef vér framar þjóna vildum syndinni, þar ed Jesús er fyrir hana dáinn; med þess- háttar adferd forsmádum vér Guds nád, afneitudum Gudi og vanvyrdtum vorn Frelsara, já, vér egndum þar med á ný yfir oss Guds straungu reidi. Eilíflega skál lángt frá oss þvílíkt óþacklæti, því- lík skélfileg vondska á moti vors Frelsara þægilegu upphvatníngum og ástúdlegu lodunum skulum vér ecki lengur forherda vort hjarta. Af allri sálu og med kjær- leiksfullu hjarta, skulum vér þacklátlega vidurkéña allt þad góda, sem hañ hefir oss

gjört; med sífelldri æfingu í dygdunum skulum vér leitast vid ad feta í hans fótspor, sem sitt dygda-dæmi hefir oss til eptirbreytingar eptirlátid. Sína bitru pínu hefir hann ad sönnu fyrir oss lidid, svo sem straff vorra synda, en med henni hefir hann jafnframt géfid oss þvílíkt dæmi uppá þær ædstu dygdir, ad þess líki aldrei fyrr né sídar fundist hefir, og þetta Jesú dygda-dæmi í hans píslum skal æ vera oss munstur í voru liferni. Ad kappkosta, ad líkjast honum æ meir og meir, er því eins fullkomin skylda vor, og hitt er vor huggan og sáluhjálp, ad hann med því, sem hann leid vor vegna, keypti oss med svo dýru verdi. Frá því ad eptirfylgja þessu vors Frelsara dæmi, ættum vér eckert ad láta oss fæla, hverki heimsins óþacklæti, hád né forsmán; allt eins og hann, egum vér hógværd ad sýna vorum ofsóknar-mönnum, þögn og medaumkun þeim, sem hæda oss, þolinmædi þeim, sem gjöra oss órétt til; ástunda sákleysi, þegar vér erum baktaladir, og bidja: Fadir! fyrirgéf þeim, því þeir vita ecki hvad þeir gjöra; eins og hann egum vér viljugir ad leggja oss undir þad, sem vor himneski Fadir vill vera láta, og leit-



ast vid ad verda brædrum vorum til uppḣvatníngar, gagns og nota; eins og hañ, med liúfu gédi lída hvad medþarf til almennings heilla. Sjái vor himneski Fadir þörf á ad brúka hardar typtanir til undirbúníngs sálu vorri til hins eilífa lífsins, egum vér sjálfum oss ad afneita, taka krossinn á oss og fylgja vorum Frelsara á eptir, eptir því, sem oss er fremst mögulegt. Ef ad vér, eins og hann, yrdum svo staddir, ad offra hlytanum bænum og táratollum, egum vér, eins og hañ, ad géfa Gudi dýrdina og vissulega vænta þess, ad hann bænheyri oss og hjálpi til sins himneska ríkis; þó ad vér þola mættum óvina vorra baktal og ofsóknir fyrir vor bestu verk og hreinasta tilgáñg, þá látum oss ecki þar vid hindra frá ad gjöra gott; þó ad ástvinir vorir yfirgéfi oss, þegar vér erum í naudum staddir, þá umberum þann missir med gódu gédi, en styrkjum oss því framar í öruggri trú á þeim lifanda Gudi. Ef ad því koma skyldi, ad sála vor yrdi yfirgéfin, svo vér sæum eckert ljós, enga gledi né huggun, þá látum oss í þvílíkri vorri stærstu neyd hugsa til vors Medalgángara qvala-hróps fyrir vora skuld;

Gud miñ! Gud miñ! því hefir þú yfirgéfið mig? og ecki sleppa traustinu til Guðs, sem mun miskuna sig yfir oss á haggværri tíð, og kroptuglega halda oss við sinn kjærleika, þó vér í þann svipinn yrðum hans ecki varir. En þegar lokfins kémur að vorum burtferðar tíma, látum oss þá afhenda í hans hendur vorn anda, sem hann hefir endurleyst, þá munum vér, í trúnni til hans, sigra vorn síðasta óvin. Sælir erum vér, þegar vér þannig færum oss Jesú endurlausn í nyt, þá munum vér, miðt í öllum þessa lífs umbreytingum, finna rósemi, og í sjálfum dauðanum líf og krapt. O Jesú! þú, sem fyrir oss ert dáinn, géfðu oss náð til að hafa þessi not af þínum dauða. Gjörðu oss alltaf þér æ líkari, og styrk oss til að fylgja þér eins fúslega eptir, hvert sem þú leiðir oss á þeim vegum, sem þyrnifullir eru, eður hinum, hvar blómstrunum er stráð á götuna. Þér við hönd framgaungum vér óhultir, því þegar vér njótum þinnar leiðsögu, mun enginn afvegur fá oss leidda af rétta veginum. Leið oss, elskulegasti Jesú! eptir þínu ráði, og meðtaktu oss lokfins til þinnar dýrðar, Amen!



## 81. Hugvekja.

Vér, elskanlegir! þar Guð elskað oss þannig, þá erum vér og skyldugir að elska hverr annann. 1. Joh. 4.

Vér erum skyldugir að bera bródurlegann kjærleika hverr til annars, eins og þeir, sem Jesús hefir endurleyst og hverjir vera vilja hans lærisveinar og eptirfylgjendur. Hversu hjartanlega hefir hann ecki elskað oss og miskunað sig yfir oss? skyldum vér þá ecki miskunandsýna medbrædrum vorum? Fyrir vorar sakir fórufærdi hann sínu lífi; fyrir oss úthellti hann sínu blódi. Hvernig fáum vér þá endurgoldið þessum vorum sálarvini alla hans trúfesti, sem hann hefir oss audsýnt? O! eckert hofum vér, sjálfir allsþurfandi, það, sem vér fáum endurgoldið honum med. En þó vér af elsku til hans mettum vorn húngrada bródur, dryckjum þañ þyrsta, klædum hiñ nakta, komum lítilmagnanum til adstodar, vill þó vor Jesús meta það eins og vid sjálfann hann gjort væri. Med viljugu hjarta skulum vér láta í ljósi vid hann þetta merki og þenna vott vors þackláta hjartalags. Hañ gjordist forlíkan fyrir

vorar syndir, þó ecki einúngis fyrir vorar, heldur og fyrir allra manna syndir; munu þeir þá ecki allir, hverjum hann þvílíkann kjærleika audsýnt hefir, vera eins dýrmætir, eins mikils metnir af vörum Endurlausnara, og sérhverr af oss, og því skyldum vér þá forsmá nockurn einn af þessum, sem hann hefir svo ástkjæra, og vyrdir svo mikils? eda skulum vér skammast vor ad kalla þá vora brædur, sem Jesús ecki blygdast ad kalla svo? nei, fjærri sé því! hvernig kynnum vér ad tilheyra Kristi, ef ad oss skortir þau kénnimeikn, af hverjum hans lærisveinar þeckjast ega? ef ad vér ecki sífeldt hofum oss fyrir augum hans dæmi til eptirbreytni? vér viljum því ástunda ad verda svo sinnadir, sem hann, og kappkosta, ad láta hans kjærleika verda í oss kroptugann, svo ad vér, ef Guds vilji krefur af oss þetta offur, fúsir láta kynnum lífid fyrir brædur vora. En vér grátbænum þig, o! þú eilífi kjærleiki! ad þú sjálfur viljir géfa oss og innræta hjarta voru þetta hugar-far; án þinnar nádar yrdum vér sífeldt allt eins kjærleikslausir, vanþacklátir og ó stodugir, og vér hingad til verid hofum; en þegar



þinn kjærleiki drottnar í voru hjarta og þinn Andi stjórnar oss, þá leidumst vér framvegis til þvílíks siñislags, sem hverjum kristnum vel sómir. Géfoss náð, ad efla það, sem vidfrægja megi þína dýrd og gjör hvern af oss í sinn stad þér líkann í hógværd og mannelsku, svo vér ad þínu dæmi mættum þá leida á réttann veg, er villir fara, vidrétta fallna, hughreysta auma og snúa syndurum aptur til þín. Hversu mörg tækifæri frambýdur oss ecki sérhverr dagur vors lífs, til ad vera það í raun og veru, sem vér heitum: gódir, kristnir menn? mörgum naudstöddum mundum vér hjálpad fá, marga villuráfandi leidrétt, marga hrasandi studt og marga óluckulega gjört lucksæla, ef vér legdum ástundun á þvílík kristileg gódverk. Mörgum mundum vér med bænum vorum géta ordid ad notum, þó vér ecki med odru fengjum þeim hjálpad. Æ! láttú, gódi Jesú! skyldu þessa verda vors lífs mikilvægasta fyritæki, sem vér öllu framar kappkosta mættum ad uppfylla. Vér upplyptum til þín vorum hjörtum og bidjum þig: ad álíta allra þiña endurleystu naudþurftir. Þegar vér framgaungum rádvandlega fyri þínu

auglitì, vyrdstú þá ad líta nidur til vor í náð og géfa oss þá blessun, sem þú hefir afrekad og lofad ad veita oss; en þegar vér í naudum og vandrædum staddir, fellum þér á hendur vor efni og bidjum þig um vorar naudþurftir, vyrdstú þá nádarsamlega ad bænheyra oss af himnum ofan og veita eptirþreyda hjálp, þá mun þitt dýrdarfulla nafn dýrkad og tilbedid verda af öllum þínum trúudu börnum, nú og til eilífdar. Amen!

## 82. Hugvekja.

Gud vill ad allir menn verdi sáluhólpnir og komist til sannleiksins vidurkénníngar. 1 Tím. 2.

Svo eru þau hjálpar medöl mörg og kroptug, sem nádarríkur Gud hefir oss í tje látid, til frelsis vorum sálum, ad vor er einkóm skuldin, ef vér ecki færum oss þessi medöl verduglega í nyt og sjálfa mættum vér sárlega naga oss og ásaka, ef vér færum þeirrar farsældar á mis, sem oss er géfin ad ega vissa von um ad ná. Gud hefir gjört allt, sem verda mætti oss til hjálpar, en vér, vér höfum ecki þyggja viljad þessa frambodnu hjálp. Allir hans velgjörníngar og rádstafanir



um oss hafa til þess midad, ad gjöra oss sálnhölpna, enn sjálfir höfum vér unnid svo, ad vor fordæming aukast mætti. Allt hvad Jesús leid, hefir hann lidid til ad frelsa oss frá lögmálsins bölvun, en hversu opt forsmádum vér ecki fríviljuglega þá blessun, sem hann afrekadi oss? hann lét eckert ógjört, er oss leida kynni til betrunar, en vér forherdtumst því framar; hann vildi vora sáluhjálp, en vér sjálfir fordæmingu vora; hann vildi géfa oss himininn, en vér fávísir dárar, vér völdum þann veg, er oss leida mátti í hinn ólucklegasta samastad; um þetta munu á sídan alltof margir eilífléga ófarsælir bríxla mega sjálfum sér, þad mun þá naga þá, og þad mun óaflátanlega þeirra píslir auka. Med þvílíkum áklögunum mun þeirra egin samvitska fordæma þá, og þeir sjálfir vidurkénna þann Guds dóm réttvísann, sem yfir þeim gengur. Jesú blód, sem þeirra vegna einnig úthellt var, mun yfir þeim hefnd hrópa. Sá odrum hugg unar-ríki þánki, ad þeir sén endurleystir, fær ad eins aukid á sorg þeirra og eilíf, en of sein, ydran mun þá sífeldt qvelja. En vér, vér lifum enn, og enn þá má yfir-





bót vor og ydran verda oss nytsamleg, og þó allsvaldanda Guði-þóknadist nú ad þurtrycka oss úr heimi þessum, mætt-um vér þó játa, ad hann allt hefir til þess gjört, ad vér verda mættum sáluhólpn-ir; en þar hjá vidurkénna hvernig vora óþakklæti vid hans nád; vér mættum sanna Dóminn réttvísann, sem hann yf-ir oss uppsegir. En þú, þolinmódi misk-unnar-ríki Gud! þyrmdu oss enn, já, géfdu oss enn þá tíma til ad ydrast vors óþack-lætis og þverúdar! vorar syndir, med hverjum vér vanvyrdt hofum Jesú for-þénustu, ógna oss; æ! lát vora særdu samvitsku, finna rósemi, finna huggun vegna þeirra pinsla, sem vor Jesús þol-ad hefir. Lát oss ecki leidast til örvænt-ingar af áklögunum samvitsku vorrar, heldur finna hugar-hægd í því forlíkun-ar blodi, sem vor Endurlausnari hefir út-hellt; og hafi sú qvøl, sem hann vor vegna þoldi, híngad til verid ávaxtarlaus á sálum vorum, æ! lát hana þó ecki verda þad hédan af; allrasíst þegar ad því kémur, ad vér yfirgéfa skulum heim þennann. Láttu þér ecki leidast, med þinn-ar nádar sáluhjálplegu verkunum, ad hræra vort hjarta, og géf ad þad hlýdid,



viljuglega fylgi þinni roddu; en þú, vor dýrmætasti Endurlausnari! vyrdstú óafláttanlega ad bidja fyrir oss, og med þínum Guddóms krapti ad beygja vor hjörtu. Þó oss synjad verdi allra heims heilla og gledi, viljum vér med rólegu gédi umbera þad, þegar ad eins þín pína ecki verdur á oss ávartarlaus; lát hana æ vera vora einustu huggun í lífinu, voru styrk í lífsins þreyngíngum og mólæti, og lókstins vora endurnæríngu í daudanum, einkum þá, þegar umlidnar syndir hrella oss, þegar vor vaknada samvitska ógnar oss, þegar gráfarinnar og dómsins nálægd gjörir oss óttafulla. Æ! vertú oss þá nádugur, ó Jesú! og styrk oss med krapti þíns dauda, ad fá sigradann allann otta, hrædslu, efasemd og ógnanir, Amen!

## 83. Hugvekja.

Eg held alla hluti skada ad vera, á móti ágæti þeckíngarinnar vors Drottins Jesú Krists. Phil. 3.

Híngad til hofum vér svo lengi hugsunarlaust lifad um syndir vorar og straffid, sem vér hofum fyrir þær verdskuldad, ad fáum sinnum hefir oss þad í

hug hvarflad, er vekti hjá oss minningu vorra misgjørda, en hversu mjøg mættum vér þó ecki óska oss, ad fram ana ecki alltaf í svo stroffúnar verdu páukaleysi, þar þó einhverntíma mun ad því koma, ad margfjøldi synda vorra verdi oss berlega settur fyrir sjónir; þegar samvitskan lokfins vaknar af andvaraleysisins svefni, mun vort tilfinníngarlausa hjarta þó lokfins finna til sinnar eymdar, og guddómlegrar reidi þúngi leggjast; svo sem óbærileg byrdi, á sálu vora; og þó ad þetta veri nú ecki svo hrædlega ad, munnum vér þó síst verda eins rólegir og umhyggjulausir og nú, um afdrif vor, þegar daudinn nálægist. O! þá mun allt þad ógnarlega, sem flýtur af andvaraleysinu, samelnast, og sú byrdi samvitskunnar, sem vér nú finnum svo litid til, verda oss tvøfaldt þýngri; þegar vér þá sjáum óteljandi fjølda synda, sem vér drýgt høfum, þegar all-nálægur daudi og dómur ógna oss, þegar engin rósemi er framar í vorum beinum, né huggan í hjarta voru, hvada vægdar, hvada hælis er þá ad leita eda vænta fyrir oss, nema í þinni dýrmætu pínu, o Jesú! med hverri þú forlíkad hefir fyrir vorar syndir. Eink-



isverdt munum vér þá finna það, sem vér áður brúkað hofdum til að frida og svæfa med samvitsku vora; forgéfins munum vér þá leita allra medala til rósemdar sálu vorri; eckert, oldúngis eckert munum vér þá reyna að géti styrkt eda gladt oss deyandi, nema dauði og pína vors Drottins Jesú Krists. Allt þetta vitum og þeckjum vér nú fyrirfram, en hví leitum vér nú ecki þegar, fyrr enn sótt og dauði aðkemur, þessarar kroptugu huggunar? því látum vér hann ecki í lífinu vera vort einasta athvarf, sem í dauðanum má einn vera vor einasta sáluhjálp, ef vér viljum klaklaust afkomast? hví leitum vér oss ecki nú þegar á heilbrygdu dogunum rósemi fyri sálu vora, ádur enn ángistarinnar tími aðkémur? nema þú sjálfur, gódi Gud! hrærir og tilreidir vor hjortu, munum vér til endaloka fram-ana í vorn andvaraleysi; settú oss því skírlega fyrir sjónir syndir vorar, svo vér skélfast meg um fyrir þeirri ólucku, sem þitt logmál hótar oss, og þinn reidi, sem vér bokum oss med sonnu yfirtrodslum; en hugga þar hja vort hjarta med því, ad afmála fyrir oss þá fridþægíngu, sem skén er fyrir þinn Son Jesúm; láttú oss í honum finna hreinsun vorra





syndа og frelsun frá fordæmíngu. Þú hefir, o Gud! útgéfid hann til frelsis öllum syndurum, svo ad fyrir hann einann er sáluhjálpina ad finna. Vert hann því, sem endurleysti oss af syndum og eymdum vorum, öll vor huggan og von; allt vort traust setjum vér til hans miskunar, sem forlíkadi fyrir allar þær misgjördir, er vér drýgt höfum og drýgja munum; þitt alskygna auga sjer fyrir þær syndir, sem vér í qvöld eda á morgun munum styggja þig med; en, hyrm oss, vegna vors Frelsara Jesú Krists! med hans adstod viljum vér fordast allar syndir, en ástunda ad framgánga rádvandlega fyri þér. Styrk oss í þessum ásetníngi, svo líferni vort verdi til dýrdar þér, sem dáinn og upprisinn ert fyrir oss, þá munu allt, sem oss mætir, verda oss heillasamt, en vér vissir um þína vernd og elsku um tíma og eilífd.

## 84. Hugvekja.

En — þér erud komnir til fjallsins Zíons og til borgar lifanda Guds, til hinnar himnesku Jerúsalem, til Englanna margra þúsunda og til safn-

S



Sadar og samkundu frumgetinna, hvetra nøfn skrifud eru á himnum, og til Guds, sem er allra Dómari, og til Medalgaungu-manns ens Nýa Testamentis, Jesú. Ebr. 12.

Vér, sem egum ecki hér í tímanum nema stutta stundar-dvøl, getum enganveginn gjørt oss ljósa þanka um eilífdarinnar varanlegleika, þó vér margfalda vildum þá stærstu tølu, sem vér fáum uppqvedid, já, þó vér reiknudum hvert sandkorn í sjónum á móti þúsund árum, og mæla þar eptir eilífdina, getum vér þó alls enga greinilega hugmyndun gjørt oss um hana, því eilífdarinnar ára-tala hefir engan enda. Þessi oss óskiljanlegi varanlegleiki eilífdarinnar skal vera oss kroptug upphvatning, ad haga þannig øllum vorum fyritækjum og athøfnum á medan vér lifum í heimi þessum, ad vér gódri hlutdeild náum í eilífdinni, og lifa mættum þenna ókomna ára-fjølda fullsælir. Jafnvel þó vér fáum ecki med þessum líkhamans augum sjed sælu þá, sem hinir réttlátu hlotid hafa í bústødum útvaldra, viljum vér því optar yfirvega þad, sem heiløg Ritning hefir oss um þeirra ásigkomulag opinberad, og þar af

leika oss fullkomnari vissu um þeirra sælu. Þó himininn sé oss enn þá, sem ókennt land, viljum vér þó optar vyrda fyrir oss vors Guds og Frelsara kjærleika, sem hefir heitid oss í honum eilífri sælu; vist! Vér viljum yfirvega þær mikilvægu útréttíngar, sem hann hefir gjört til þess ad ávinna oss í himninum eignar-rétt; þá ómælanlegu mædu, sem Jesús undirgéckst, til þess ad fá oss verduglega tilreidt undir vistarvern þessa samastadar, sem þó kostadi hann svo margar andvarpanir, svo mörg tár og svo bitrann dauda, skulum vér setja oss fyrir sjónir. Þar af fáum vér gétid nærri, hversu mikil sú sæla vera megi, sem vér njóta munum í eilífdinni. Finnist tídin oss laung, þángad til vér náum ínngaungu í þenna sælustad, rennum á medan augunum þángad á undan oss og hugleidum hversu lítill og ómerkilegur tíma-púnktur oss vyrdast muni, jafnvel hinn lengsti manns aldur á jördunni, þegar vér lifad höfum í þessari sælu þúsundsinnum þúsundir ára; en, vér þurfum ecki ad renna þaunkunum svo lángt til ókomunn tímanna, til ad sannfærast um, hversu stutt líf þetta er; látum oss ad

 

eins (huga, hverſu ódum þau ár eru út-
runnin, ſem vér lifad hofum hingad til;
hverſu margir medbrædra vorra líf ſitt
enda munu á þeſſari nóttu, og máſké ein-
hverr af oſs, þegar vér minnſt ætlum,
verdi í þeirra tolu, ſem daudinn á henni
yfirfalla kann. Vor heilbrygdi líkhami
géfur oſs enga fullviſſu um þad, ad vér
aflifad fáum þeſſa nóttu; margir af þeim,
ſem eins heilbrygdir og vér, lögdu ſig til
hvílu ad qveldi, lán kaldur nár, ádur enn
morgun-ſólin yfir þeim upprann; eda
má ecki margur af oſs, ſem erum til ára
komnir, einatt finna til umbreytingar og
veikleika í líkhama ſínum, ſem þegjandi
mætti vekja oſs grun um þad, ad vér
hofum ecki ad ſtóla uppá lánga lífdaga?
og hvernig fáum vér vidurkénnt þenna
ſannleika, og þó undir eins framgengid
í ſinnuleyſi, og þó undir eins bundid vorn
huga vid þad jardneſka, og þó undir eins
verid umhyggjulauſir fyrir eilífdinni?
en ſvo er þó varid voru blindada hjarta;
ſérhver ſannfæring um daudans ná-
lægd, gjorir ad eins mjog litla verkun á
ſálu vorri. Vér framgaungum á med-
al enna deyjandi; vér finnum ſjálfir, ad
vér daudlegir erum, og þó lifum vér eins

og vér alls engann missir hefdum ad óttast; vér metum vora stuttu tíd svo litils, eins og vér vænta mættum, ad gjörvöll eilífd væri hér vid jordu bundin; inprenta þú, o Gud! þann sanleika djúpt í vorar sálir, ad vor hérvistar tíd er stutt, svo vér mættum vitrir verda; kenn oss ad hugleida, ad líf þetta er eckert, en eilífdin allt. Styrk vora trú, svo ad vér æ hlýdum þér, en ecki heimsins flárádu ginníngum; láttu vor hjörtu æ vera hjá þér, hvar vor fjársjodur er, og bera ad eins moguleguslu umhyggju og ástundun fyrir því, ad oss eilíflega megi vel vegna.

## 85. Hugvekja.

— Auga þitt, Drottinn! á mig sjer, allstadar, ertú nærri mér.

Ekkalaust hlýtur sú íhugan ad vera heimi ógnarleg, sem elska lestina, ad Gud er alvís og allstadar nálægur; hversu óttafullur má hann ecki verda, þegar hann hugleidir, ad Guds alskygna auga sjer þær andstyggilegu syndir, sem í leyndum drýgjast, og ad allar ránglætíngar eru honum augljósar, sem huldar vera, kynnu fyrir manna sjónum; hversu mætti hon-



um eckt bregda vid; þegar hann hugsar um þad, ad þessi Gud þeckir alla þá ránglátu vegu, sem hann gengid hefir, oll þau smánarlegu medol, sem hañ brúkad hefir til framqvæmdar sínum fyrirtækjum, ad hann sjer hans leynilega hatur, hans girnda-brúna, hans huldustu lystíngar og alla hans hjartans þánka? og þegar hann þá yfirvegar, ad þessi Gud, fyrir hverjum oll vidurstygd hans lastafulla hjarta er opinber, hefir endalaust og ótakmarkad vald til ad gjora sáluhólpinn og til ad fordæma og ad engin manneskja fær umflúid hans straff, hverju má þá ecki syndariñ skélfast vid þessa umþenkíngu? eñ svo óttalegt, sem þad hlýtur ad vera fyrir hiñ mótviljuga syndara, ad vyrda fyrir sér Guds allstadar nálægd og alvitsku, svo huggunar-ríkt er þad fyrir þig, sála mín! þegar þú med ótta og forsjálni framgengur rádvandlega fyrir augsýn Guds; hversu hughraust ertú þá ecki, þegar þau tillfelli bera ad hondum þér, sem gjora kunna þig órólega, þó menn baktali þig eda dæmi med kjærleikslevsi, hversu gledilegt er þá ecki ad géta sagt med Job: minn vitni er á himnum! þegar þú kémst í vandrædi

þau, sem þú ecki treystist ad ráda fram úr, en allir þínir vinir yfirgéfa þig, og þú finnur hvergi hjálp, hvílik huggan er þá ecki ad hugleida þad, ad Gud er þinn trúfasti ástvinur, sem aldrei mun yfirgéfa þig? þó olucku tilfelli flycktust ad þér á allar sídur, hversu huggunar-rikt er þad ecki fyrir þig, fáir þú þig hughreysta med því, ad hann sé hjá þér, í hvers hondum ad standur þín lucka og ólucka, og ad hann stjórnar ollum tilfellum síña barna þeim til velferdar? þegar þú í leyndum ákallar Gud þinn, hversu styrkist þá ecki þín trú, þegar þú hugleidir, ad hann géfur gætur ad bænum þínum og skilur þíns hjarta heimuglegasta andvarp? þegar þú tekst á hendur umhyggju þeirra yfirgéfnu, fátæku og naudstoddu, án þess þú gjörir þad odrum opinbert, hversu má þad ecki gledja þig, ad Gud adgætir þitt godgjordasama hjartalag, og telur alla þá velgjorninga, hverium þú í leyndum útbýtir? þegar eitt-sinn ad því kémur, ad þú leggst í þína sóttarsæng, yfirgéfin af allri mannlegri hjálp, ó hversu audveldt mun þér þá ecki veita vid ad skilja, þegar þú hugleidir, ad Gud og Jesús er þér nálægur, og



ser þína dáudans ángist, og er reidubúinn ad frelsa þig frá ollu vondu! O Drottinn vor Gud! géf þína nád til þess, ad þessar hugleidíngar aldrei hvarfli oss úr hjarta! géf ad heilagur ótti fyrir þinni allstadar nálægd megi þreyngja sér inn í vora sálu, svo opt, sem syndarinnar tál-dragandi freistíngar vilja locka oss af-véga, en þar hjá veri énngan þinnar nálægd-ar vor huggan og traust í ollum þessa lifs mótlætíngum. Sértú med oss, hverr kann þá ad vera á móti oss? standir þú oss til hægri handar, erum vér øruggir og ó-qvidnir, hvad sem ágengur.

## 86. Hugvekja.

Vor borgar réttur er á himnum. Phil. 3.

Vér høfum enn þá á qvøldi þessu endad einn dag vegferdar-reisu vorrar, í gégnum líf þetta til eilífdarinnar, og einn dagur sømu reisu er oss fyrir hønd-um ad næsta morgni, spari Gud þáng-ad til lífsstundir vorar; allteins og Pí-lagrímar eda vegfarendur erum vér í þess-um heimi, hvar vér egum ad tilreida oss undir annad betra líf. Ecki er þvíad neita, ad ótti og skélfing má hjarta vort upp-

fylla, þegar vèr hugleiðum orduglleika reisu þessarar og vegarins oþægilegleika, vorsholds fordjorfun og vanmátt vorn; hversu audveldlega kunnum vèr ecki á afvegu villast og missa sjónir á fodurlandinu, sem vèr kèppumst til? hversu márgir eru þeir ecki, sem gengið hafa þennann veg á undan oss, er látið hafa sig leiða afvega af vegarins ordugleika og dæmum hinna ógudlegu? Vèr megum fyrir því óttast, fyrst hold vort er veikt, en tillockanirnar til ens vonda miklar, að vèr víkja kunnum af þeim vegi, sem vèr áttum að gánga. En — o Jesú! þú, sem einnig gjördist vegfarandi hèr á jorðunni, vertu með oss og leið oss svo vèr víkjum eckt af þeim oss fyrirlagda vegi á fordjorfunarinnar villustiga. Ef að heimsins blindandi sjónhverfíngar ætla að locka oss, þá láttu oss skoða með upplýstum augum þá sonnu farsæld, sem hinum er vís, sem þèr eptirfylgja. Þó að márgir kunni finnast þèr ótrúir, þá láttu oss þó ætíð finnast í tolu þinna sonnu lærisveina. Ætli jafnvel vort egið hjarta að leiða oss afvega, þá vertu því jafnan máttkari með þínum bendíngum. Ef dauðans dalur, um hvern vèr gángá egum



égnar oss, þá láttú oss grilla ljóma þess staðar, hvers innbyggendur vér eiliflega verða egum. Alltaf verðum vér þo ecki Pilagrímar hér á jorðu, vor vegferdar-reisa mun loks enda taka, vér munum að lokunum komast til þess foðurlands, sem oss er áqvarðað á himnum. Lát oss þángað reña þaunkunum, þegar oss tekur að finnast vor Pílagríms gánga ofláng-varandi og hugga oss í sérhverri þessa lífs mæðu og motlæti við það, að vér nú þegar með trúñi fáum hér í lífi tekið nockra hlutdeild í þeirri fullsælu, sem vér egum í vændum á himnum, já, þegar hér í lífi erum vér sælir. Vér verðum hér á jorðuñi þegar varir nockurs parts þeirrar farsæld ar, sem á síðan mun umbuna mæðu vora og erfiði. Vors Foðurs kjærleiki, Jesú Kríste náð og heilags Anda sameining styrkir oss. Nú þegar fiñum vér verkan-ir guðdómlegrar velþócknunar og hugg-ana ens komanda heims. Géfðú oss náð til að styrkjast æ betur og betur við þessar og þvílíkar heilsusamlegar hugleiðingar þá stuttu tíð vér egum eñ fyrir hondum að ráfa á þessum sjálfsafneitunar og reyn-slu vegi. Hjálpaðú oss sjálfur sífellt að taka vara á þeirri skyldu, sem verða á vor

yðja og vor sáluhjálp á síðan í himninum, vor umgengni, vor langan, vor von, vor lucka veri þar, hvar vér óskum oss lengst ad búa! láttú þá dýrd, sem þú þar hefir afrekad oss, vera oss øllum hlutum dýrmætari, svo vér aldrei førum heñar á mis, vegna óvídurqvæmilegs framferdis! géf oss nád til, þegar hér á jørduñi, ad verda í hlýdniñi, audmýktinni og kjærleikanum líkir þeim fullkomlega réttlátu, í hverra umgengni vér á síðan fagna munum! en þegar vér loksins komnir erum vora Pílagríms reisu til enda, þá leid oss, sem þína kjørnu himinborgara, iñí þitt dýrdar ríki, til ad njóta þar fullkomiñar sælu, er vér hér á jørdu í trúñi væntum oss!

## 87. Hugvekja.

Hvernig skal eg endurgjalda Drottni alla hans velgjørnínga, sem hann hefir audsýnt mér? Psálm. 116.

Ef vér íhugudum velgjørnínga Guds med sonnu alvørugéfni, sem Davíd Konúngur, þá mundum vér og vid sérhvers umhugsun, jafnvel ens miñsta velgjørníngs Skapara vors, fiña yfrid nóg efni til ad undirtaka med Davíd: Drott-



inn! hvernig á eg ad endurgjalda þér alla þá velgjorninga, sem þú hefir audsýnt mér? vid líss vors nágvæmari yfirvegun finnum vér yfirgnæfanlega orsök til, ad kannast vid hans obreytanlegan velgjordir. Ef ad vér verdum þeirra ecki svo optlega varir, er einúngis vor óadgætsla, vort tilfinníngarleysi og óþacklæti skuldin; því enginn tími lídur sá, ad egin reynsla vor láti oss ecki þreifa á gædskn Guds; og þó ad eckert væri annad enn vor andardráttur, þá verdskuldar þó þessi velgjörníngur, svo lítill, sem hann í fyrstu sýnist, óendanlegt þacklæti; og hvernin fáum vér þá minnst einúngis eins tíma, án þess, undir eins ad minnast hans gódgirni? jafnvel nú á þessum tíma, sem vér brúkum til þessara heilogu hugleidínga, megum vér vidurkénna: hvernig fáum vér endurgoldid alla Drottins velgjorninga, sem hann hefir oss audsýnt? og hvad megum vér þá ecki segja um þá daga og þau ár, sem vér aflifad hofum? Drottinn! vér kunnum ecki ad segja annad enn þetta: ad vér séum óverdugir allrar þeirrar trúfesti, sem þú hefir látid oss í tje, og aldrei kunnum endurgjalda þér þína velgjorninga. Því hvar med

gætum vér goldid allt þad góda, sem þú hefir vid oss gjört? máské med voru þakklæti? já, þó ad vort þakklæti væri svo óendanlegt og svo heitt eins og hans kjærleiki, væri þad enginn betalíngur; máské med voru framferdi? já, ef ad vér ecki værum svo syndugar sképnur, sem án hans adstodar ecki megnum ad lifa honum þóknanlega; máské þá, þegar vér í eilífdinni verdum Englunum samlíkir? en jafnvel eilífdin sjálf, er ofstutt til ad prísa hans gædsku, og sjálfra Englanna lofsaungvar of veikir til ad dýrka hann verduglega. Allar sképnur, sem eru á himni og jördu, megna undir þá játníngu taka: hvernig skal eg endurgjalda Drottni, alla hans velgjörnínga, sem hann hefir audsýnt mér? Vér viljum þó, hverr í sinn í stad, vidurkénna þetta til dýrdar hinni gædsku, og játa med David: Drottinn! minni er eg allri þeirri miskun og trúfesti, sem þú hefir audsýnt þínum þénara. Ad sönnu er vissulega eingin sannleikr audsjáanlegri enn þessi, en þegar vér géfum gætur ad flestra manna framferdi, þá mættum vér leidast til ad efa þetta satt ad vera. Fjöldi þessara til nádar teknu skopudu sképna, láta hjarta



síns drambsemi og óþacklæti hañig villa sig, ad þeir gleyma þeirri undirgéfni, sem þeir áttu Gudi ad sýna og jafnframt sínum audvyrdilegleika og vanmætti, já, gleyma Drottni, sem þá skapad hefir. Hversu naudsynlegt er þad þvi ecki, ad vér sifellt iñprentum hjarta vorn, hversu óverdugir vér erum Guds nádar og hans velgjørninga og vanmegna til ad endurgjalda þá. En — iñprenta þú sjálfur, gódi Gud! þetta sinnislag sálu vorri, svo ad þín gædska og vor óverdugleiki sé ofs sifellt fyrir augum. Lát ofs vid sérhvern velgjørning, sem vér medtokum af þinni ástríku hendi, líta til þín, sem Hofunds allrar vorrar luckn; med audmýkt og þácklæti njóta þinna velgjørda og þvi framar, sem vér lærum ad þeckja, hversu vanmegna vér séum til ad endurgjalda þinn kjærleika, þvi ákafari lát þú ofs vera i þvi, ad þjóna þér og þvi iñilegar syngja þinu nafni lof. Lát ofs æ fúsa færa þér offrid, sem þú eitt krefur fyrir þína velgjørninga, med gledi fórnfæra sjálfa ofs þér, med ollu þvi, sem vér hofum til, já, prísa þig med sálu og lífi, sem eru þín eign.

88. Hug-





# 88. Hugvekja.

Hverr ert þú?

Hvad erum vér, vesælar sképnur! þegar vér samlíkjum oss vid þann óteljandi fjølda Guds skøpudu sképna? hversu lítid, já, øldúngis eckert verdur úr oss, med øllum vorum hroka, þegar vér skodum oss sjálfa med athygli; hvad erum vér? ormar, handfylli østu, dupt-korn, sem ecki gétur stadist hægan vindblæ, og þó, svo vesælir, dirfumst vér ecki ad sídur svo opt ad setja oss upp á móti vorum almáttuga Skapara, og þessi vor óendanlegi Skapari ber þó jafnmikla umsorgun fyrir oss, og hinum stærstu síns handaverka. Hans almáttuga hønd, sem uppiheldur óteljandi veraldar hnøttum, vidheldur einnig oss; hans vísdómur, sem ágvardar Køngaríkjanna kjør, stjórnar einnig øllum vorum kjørum. O! hversu nádarsamlega lítillækkar Gud sig til vor, sem erum þó ecki nema skuggi! því lætur hann sér svo annt vera um ormsins luckn? því leitar hann tídum ár eptir ár lítilsverdra sképna, og þad svo fúslega? hvad vinnur hann vid þad, þó sála vor frelsist? hverki kann hann fyri

þad verda sælli né dýrdlegri; og hvad missir hann, þó vér yrdum fortapadir? öldúngis eckert; því þó vér og allir menn glötudumst, er samt tala hans ríkis innbyggjara óendanlega stór, til ad vegsama hans miklu verk og vidfrægja hans dýrd um alla eilífd. Nem hér stadar, sála mín! og líttu med lotníngu og undrun inn í Guds miskunnar djúp. Elska, ógrípanleg elska er þad, sem hrærir vorn Gud til ad líta nidur til vor, og giöra oss hluttakara sinnar sælu. Hans Sonar pína, med hverri vér erum forlíktir, giörir oss fullvissa um, ad Gud elskar oss, og ad vér af honum vænta meigum himnesins sælu. Lofadur og tilbedinn sértu af oss, miskunnur-ríki Gud! Drottinn er mildur og gódur, hans vegir eru eintóm miskun og sannleiki þeim, sem halda hans sáttmála og hans vitnisburd: lofad veri nafnid Drottins fyrir þad, ad hann stýrir oss og efnum vorum, ecki eptir vorum fávísa hugþótta, heldur eptir sínum vísdómi; ad hann höndlar vid oss, ecki eptir vorum syndum, heldur eptir sinni miskunsemi. Vér undrum med audmiúkt og gledi þínar heilögu ráds ályktanir til vorra heilla, já, undrum mikilleik þinna miskunseinda;

það yfirgengur vorn skilníng, að þú, eilífi Guð! kallar oss, sem ecki erum nema hismi og þó þínir óvinir, til sælu þinna dýrdlegu útvöldu, en hitt má þó samt vera oss óskiljanlegra, að vér oktum svo lítils þessa miskun og forsmánum þá himinsins sælu, sem þú frambýdur oss. O nei! svo skulum vér ecki lengur breyta. Med hrærdu hjarta vidurkénnum vér þinn elskuríka tilgáng og viljum, ad voru leiti, svo framt oss er mögulegt, stunda til hans framqvæmdar. Þú útbreidir þinn fadm á móti oss; vér viljum flýta oss til þín og láta oss af þér umfadma. Þú gjörir allt hid besta til ad draga oss til þín; æ! viljugir viljum vér koma og fylgja þínum ástúdlegu tilløduninum. Þú frambýdur oss himnaríkis sælu; eptir henni viljum vér képpast, en meta því lítils hid jardneska og fallvalta. Þessi skal vor ásetníngur, þessi vor kappsamasta ástundan vors lífs alla vora daga hédanaf. O Jesú! vor Drottinn og vor Gud! hjálpa þú oss sjálfur til ad ødlast þessa sáluhjálp, hverja þú hefir afrekad oss med þínu dýrmæta blódi; því hvad notar oss øll jardnesk vegsemd og



velgengni, ef vér ödlumst eckí á sídan í himnínum þá eilífu arfleifd, sem vér eg-um eptir ad keppast á medan vér lifum hér í heimi?

## 89. Hugvekja.

*Hverr, sem ecki verdur brotlegur í ordi, hann er fullkominn madur.* Jak. 3.

Allir þeckjum vér hversu ördugt þad veitir, ad dempa vórar tilhnegingar, þegar freistíngar bera ad-hondum og tækifærid, til ad fullnægja þeim, ó-straffad. Vissulega munn sérhverr af oss hafa reynt, ad þad ecki kostar all-litid ómak ad sporna vid því, ad vondar tilhnegíngar brjótist út í verkinu, einkanlega ef lockandi freisting til ad fullnægja þeirri, sem strídir á oss, kémur óvörum ad; en hægra veitir þó opt ad stýra gjördum sínum enn ordum. Þad er því ecki um skör fram, ad Postulinn Jakob segir: Hverr, sem ecki verdur brotlegur í ordi, hann er fullkominn madur. Hversu opt fær oss ecki-sloppid óadgætt ord af munni? ord, sem annadhvert eru ödrum til mödgunar eda hneixlis, ángurs eda skada? Þetta

verdur traudlega varast, þvi á stundum
ber það vid, ad þó ord vor sén i sjálfu
sér meinlauslega meint, verda þau má-
ské tekin á tvo vegu og þannig ordid efni
til módgunar. Eitt ord fædir gunad
af sér og fær þannig gefid tilefni til ill-
deila, rysfinga, haturs, málaferla og
illverknadar, ef ecki er adgætt i tíma?
Ecki einúngis illyrdi, heldur jafnvel mis-
skilníngur orda, hefir opt komid miklu
illu af stad i heiminum. Hverju mikil
naudsyn er það þvi ecki, ad gæta þess
ætid ad temja túngu sina? Sá, sem lætr
ur sér stjórna af kristilegri mannelsku,
talar ad vísu eckert það vísvitandi, er
ødrum megi til ángurs eda meins koma;
en það má samt verda honum óviljandi,
ad hann ljósiri þvi upp, sem leynt átti
ad vera; tali það, med vissu eptir ødr-
um, sem þó er ósatt; minnist á eitthvad
það, er ryfjar upp fyrir ødrum gamalt
sorgar-mein. Verdi madur þess var,
ad hann hafi hér i brotlegur ordid, er
það sjólfsøgd skylda hans, ad bæta úr
þvi aptur, verdi þess audid, sem ecki er
ávalt hægt, þvi talad ord verdur ecki
aptur tekid. Ósannindi géta menn ad



sonum aptur kallad; en betur hefdi þó farid, ad þau hefdu ókolud verid, bædi honum, sem taladi og hinum, sem fyrir þeim vard. Eptirtektaverd er því sérhverjum varúd sú, er hinn vísi Sirach gefur: vitir þú nockud íllt, þá seig ecki eptir; þögn gjorir þér enganu skada; seig þad hverki vini þínum né óvini, fáir þú gjort þad med gódri samvitsku. Ágæt er þessi lífsregla, því ord læsa sig út eins og eldur í sinu; þau berast vids vegar. En — mikill er munur á því, hverjum hættast er ad verda brotlegum í ordum. Eg vil hverki tala um þó, sem hafa gaman af því, ad uppljósta lýgi, bera út ósannindi og lyga þvætting odrum til óhródurs, né um hina, sem leggja í vana siñ, ad hæda þann vesæla, gabba þann einfalda, reita þann brádlynda til reidi, baktala adra og rægja og bera út þeirra sonn og ósonn lýti, brixla þeim, sem eitthvad hefir áordid: því sídur vil eg hinna géta, sem misbrúka túngu sína til blóts og klám=yrda, er sérhver heidvyrd eyru mega blygdast vid ad heyra. Sérhverr þessara sýnir þad med þvílíku athæfi, ad hañ einkis vyrdir Guds bod, dygd eda kristilega sid-





prýdi, ad kjærleiki býr ecki í hjarta hans; því hversu má þad, í raun réttri, álitast minni synd, ad firra einn rósemi sinni og gódu mannordi, sem því dýrmætasta í lífinu, en ad ræna hann eignum? Lygarinn og sá bakmálugi, eru, ad Postulans Páls vitni, allreins útilokadir frá Guds ríki, sem þjófar og mordingjar, og sá, sem fer med blót og skammarlegt tal, segir sami Postuli, ad sé á medal þeirra, sem stæri sig af löstunum. Um þvílíka vil eg nú ecki tala, þar lestir þessir, þó ad þeir séu, því midur! allt of almennir og þecktir, eru skammarlegri enn svo, ad alla heidvyrda menn ecki hrylli vid þeim. Þó menn nú ecki væru valdir af þesshattar glæpum, er samt hætt vid ad allmargir verda kunni á annann hátt brotlegir í ordum, bædi af sjálfum vana og gédslagi. Af vana og íllu uppeldi eru margir svo málugir, ad yfir engu fá þagad; þeir uppljósta ecki ad sönnu annara brestum og ávyrdingum af íllvilja eda í því skyni ad skada þann, er þeir tala um, heldur af laungum til ad géfa ödrum fregn um sérhvad, er þeir vita eda frétt hafa, satt eda logid. Þessi ávani er bædi vondur og skadvænn, fyri

 

hverjum þeim af alhuga ber ad taka sér því sterkari vara, er finna sig til hans hneigda, og þurfa því hafa nákvæmari gætur á sjálfum sér, sem löstur þessi fær ecki einungis vordid sjálfum þeim olländt mesta vansa, heldur ber eins opt vid, ad þeir, af óhlutvöndum mönnum, sjálfum þeim jafnvel óvitandi, eru hafdir til ad útbera lognum óhródur um adra menn og koma þanninn, med málædi sínu, miklu illu af stad, en sjálfum sér í vondt rykti, sem þvattmenni, og í háska. Sönnu gætni þarf hinn gamansami og brádlyndi ad hafa á ordum sínum; sá gladlyndi, ad hann blandi ecki skémtunar tal sitt med hædni, frekjufullri og ósæmilegri ordakérskni; en sá brádlyndi: ad hann ecki í brædi tali illyrdi þau, brixli eda smánaryrdi; sem hann eptir á mætti óskud óska. Audsætt er hér af, ad ecki er minni naudsyn ad gæta orda sinna en gjörda og thuga: ad vér styggjum Gud, skodum sjálfa oss og vanvyrdum vorn náunga allteins med syndsamlegum ordum og syndsamlegum athöfnum. Látum oss því, kristnir menn! varast ad misbrúka þá dýrmætu Guds gáfu, málfærid vort, odrum til meins,

til lýgi, málædis, fíblslegrar rædu og ósæmilegrar kérskni, heldur tali hverr af oss samleika vid sinn bródur, og þad eina, sem uppbygging er i og ánægja ad heyra, þá mun Guds Andi byggja hjá oss, og vér verda elskuleg börn vors Födurs, sem á himnum er.

## 90. Hugvekja.

Allt hvad þér gjörid, þad gjörid af hjarta. Cól. 3.

Ad hjartans einlægni stjórna egi öllum vors lífs athöfnum, ef þær eiga ad þócknast Gudi, er öllum audvitad, sem þeckja, ad öll hræsni og skynhelgi er honum vidurstygd. Vér vitum, ad sá alvísi Gud, sem ransakar hjörtun og nýrun og veit hvad med manninum býr, verdur ecki blindadur med nockru hræsnis yfirskyni, líkt og skammsýnir menn; hann dæmir því ecki eptir útvortis áliti, eptir því, sem augad sjer edr eyrad heyrir, heldur eptir hjartalaginu; eptir því hvert hann metur þad gótt edur illt; eptir því, sem hann þeckir sannarlig tilgáng athafna vorra ad vera gódann eda vondann, eptir því fellir hann réttvísan



Dóm um einn og sérhvern. Hvad niá oss þá meir áríðandi vera, enn að gæta þess í öllum vorum athöfnum og breytni, bædi vid Gud, sjálfa oss og adra, að vér gjörum allt med einlægu hjarta, svo sem framm fyrir augsýn þess alltsjáanda Guds, fyrir hvers augum jafnvel vorir heimugleguſtu þánkar ætíð standa opnir og augljósir? Einkanlega ber oss þess að gæta í vorri Guds dýrkun og þjónuſtu, að hún sé af hjarta, en ecki af hræsni, og aldrei gleyma því, sem Jesús hefir kennt oss: að þeir, sem Gud tilbidja, eiga að tilbidja hann í anda og sannleika, því svo vilji Gud tilbedinn vera, svo að aldrei segist um vora Guds þjónuſtu, sem Gud sjálfur fordum klagadi yfir um Gydínga lýds: þetta fólk nálægist mig med vorunum, en þess hjarta er lángt frá mér. Þvílík Gudsdýrkan, hvert sem hún skédur af hræsni edur sidvenju eintómri, opinbert eda heimuglega, sé hjartans einlæg alvara ecki ordinu og útvortis breytni samfara, er því engu midur andstyggileg Gudi, enn Gydínganna hræsnisfulla Guds-þjónuſta, á hverri hann sjálfur vitnadi, ad hann andstygd hefdi. Alkunnugt er oss og, hve-

líkt vej Jesús hrópadi yfir skynhelgi og hræsni Skriftlærdra og Phariseara; á sínum hérvistar-dögum. Um alla þá, sem meina sig ad dýrka Gud med einberri útvortis þjónustu, segir Postulinn Páll: ad þeir hafi skyn gudhrædslunnar, en afneiti hennar krapti. Ecki midur er hjartans einlægni oss naudsynleg vid sjálfa oss. Hversu opt dregur oss vort egid hjarta á tálar, bædi med því, ad locka oss til syndsamlegra athafna, sem tilhneigíngarnar áfýsa til, jafnvel þó óblindud skynsemi þecki þær rángar ad vera? edá, til ad dylja eda fegra bresti vora fyrir sjálfum oss og ödrum? Einkum ríður oss á, ad læra rétt ad þeckja vort egid hjarta, og þad í þess edli, sem breiskast er, eda til hvers vér erum helzt hneigdir, þess vegna med vakandi gaumgæfni ad varast þær freistíngar, sem fyrst vekja þess hræríngar, og spornast vid, ad þær fái rætur fest í hjarta voru; hvadan torveldara veita muu, ad fá þær sídan upprættar. Jafnmikla varúd megum vér á því hafa, ad sjálfselskan aldrei leidi oss til ad afsaka edur fegra, fyrir sjálfum oss né ödrum, bresti vorar og ávyrdíngar, heldur sannan med



hreinskilnu hjarta og sjálfs medhalds- laust einlæglega vidurkéña þá andmjúkir og blygdunarfullir fyrir Gudi og sjálfum oss. Sonnu hjartans einlægni egum vér í ordum og øllum athøfnum ad sýna ødrum: aldrei tala vid adra osanníndi, lýgi, né gagnstædt því, sem vér hugsum, hvar med vér annars verda kynnum ødrum ollandi skada. Látum oss þar fyrir aldrei glyma Postulans hollu áminñingum: hverr einn tali sañleikann út af hjartanu vid sinn bródur. Í sama máta egum vér, í allri vorri umgengni og breytni vid brædur vora, ad láta í ljósi einlægni vors hjartalags. Eptir því kærleikans bodordi, sem Kristur hefir oss géfid, ad elska náúnga vorn eins og sjálfa oss, erum vér skyldugir til ad unna ødrum og hjálpa til góds, med sønnu alúdlegu velferd, sem vér vildum oss sjálfir kjósa af þeirra hendi. Já, ecki einúngis egum vér þánnig med ordum og athøfnum ad audsýna ødrum allt þad gott, sem vér eptir ásigkomulagt vorn, erum efnugir um, heldur med alúdlegri adferd ad sanna, ad oss sé allteins annt um þeirra gagn og lucku, sem um vora egin; láta í ljósi, ad oss gángi

allteins til hjarta þeirra neyd, eins og þo hana sjálfir lidum. Hvílík adferd géfur þeim lídandi ecki minni huggun enn útlát mikil, jafnvel eitt medaumkunar-tár, sem þú, kristni mañvinur! er ecki hefir efni til ad hjálpa þínum naudstadda brodur, fellir yfir hans eymd, er honum endurnærandi rauna-léttir, þegar hann sjer, ad medaumkan þín er af einlægu hjarta-þeli; alúnusa sú, sem þú útbýtir verdugum þurfamañi, med glödu gédi, hefir bædi í Guds augum og þess, sem hana þyggur, tvofaldt verd, þvíad gladur gjafari er Gudi þeckur. Med því mótt, eptir Postulans Páls bodi, svo ad gjora allt af hjarta, hvad vér gjörum, megum vér trúa því, ad allar vorar athafnir verdi oss og ödrum heilsusamlegar og Gudi þócknanlegar.

## 91. Hugvekja.

### A Jólum.

Mikil eru verkin Drottins! hvad hann skickar, þad er loflegt og dýrdlegt. Ps. 111.

Þessa játningu megum vér gjora, um sérhverja rádstöfun og verk Guds, allt hvad hann vill og verkar, þad er allt



saman mikid og dýrdlegt. Allt eru þad verkanir hans óendanlega almættis, vís-dóms og gædsku. Allt er þad meira enn vor veika skynsemi fái gripid: Mikid er þad verk Guds, ad géfa oss mönnunum lífid; en mikid er og þad, ad hann lætur orminn lifa í duptinu. Losleg eru þau undrunarverk Drottins og dýrdleg, med hverjum hann vidheldur öllum lifandi og líflausum hlutum, er hann skóp, en allteins dýrdlegt og loflegt er vidhald sér-hverrar sképnu fyrir sig. Mikid var þad verk Drottins, ad hann fastsetti og nidur-radadi sólarinnar og stjarnanna vissa gángi, en mikid er og þad verk Drottins, ad ákvarda sérhverri manneskju í heim-inum sín vissu kjör og tilfelli. Loflegt og dýrdlegt var þad verk Drottins, ad senda brand af himni og vatn af hellunni, en allteins dýrdlegt sýnir sig hans al-mætti í því, ad géfa ávöxt á jordina og vatn í brunninn. Allt hvad Gud gjör-ir er mikid, loflegt og dýrdlegt, hvert þad er í því stóra eda smáa, á himni eda á jördu, allt ber þad vitni um hans óend-anlega vísdóm og almætti, allt stefnir til þess, ad hann prísast kunni fyrir þá farsæld og gledi, sem hann útbreidir yfir

sitt gjörvalla ríki. En öllu framar má þó þessi lofsaungur Davíds um verk Drottins, ega heima um holdtekju Guðs Sonar, sem er þvílíkt Guðs verk, er yfirgengur öll önnur, og er oss þess vegna því ógrípanlegra; en því auðsjáanlegri eru oss í þessu dásemdarverki margir Guðs eginlegleikar. Hér lærum vér að þeckja þá alvitsku Guðs, sem með undrunarverðum vísdómi fann föllnu mañkyni hjálpar-meðalið, og framqvæmdi eins aðdáanlega það, sem hans vísa ráð hafði ályktað, syndugum heimi til frelsis; hann géfur, í persónu síns eingétna Sonar, mannkyninu Frelsara og Endurlausnara, er því á ný veitti mista farsæld, og leiði það til himinsins. Með því, að Guðs eilífi Sonur tók á sig mannlega náttúru, og framband sig í mannanna stað, sem þeirra fríviljugañ borgunar-mañ, mátti hañ þeirra vegna fullnægju gjöra Guðs réttlætis krofum, og sameiníng Guðdómsins við Jesú mañdomlegu náttúru gjörir það, sem Jesús leið og gjörði til heimsins friðþægingar, ómetanlega dýrmætt í augum Guðs; hversu megum vér ecki dást að því vísa ráði Guðs, sem fañ þetta fullkomna frelsis meðal, er eins ljóslega vottar



náð hans og miskun og heilagleika hans og réttlæti? O! hversu ljóslega sýnir sig einig almætti Guðs í holdtekju hans Sonar? hañ verður gétiñ af heilögum Anda og fæðist af meyu; hañ verður hluttakandi mañlegs holds og blóðs, en þó ecki syndariñar, sem þó vill loda við hold vort og blóð jafnan. Hañ er, sem Sonur Guðs, svo náqvæmléga sámeinaður mañlegri náttúru, að vér, eptir Ritníngariñar orða tiltæki sagt gétum: Guð er í holdinu opinberaður; hverr fær sér í hug leidt, að þessi undur Jesú holdtekju hefði skéð géfað án þess, að guddómlegt almætti hefði það verkað? já, hér megum vér viðurkéña að Guð skipað hafi endurmiñíngu fiña dásemdar verka, sem Englar og meñ með heilagri undrun mega tilbiðja. Ecki síður lærum vér að þeckja hér í holdtekju Jesú, trúfesti Guðs og sañsögli. Hans vísdómi þócknaðist að opinbera moñunum fyrirfram þetta sitt áqvarðaða ráð. Fjögur þúsund ára liðu þángað til Messías kom, frá því fyrst var géfið Fédrunum fyrirheitið um hañ, og á hinum síðustu árunum vyrðtist, sem heityrði þessi mundu aldrei framkoma, þegar Guðs fólk var herleidt í framandi land og Davíðs ætt,

af hverri Messías skyldi fædast, var kóngin í fátækdómi og vanvyrdu; en ecki ad sídur birtist lofsins hin fyrirheitna Ísraels huggan. Frelsari þjódañá kom med øllum þeim kéñimerkjum, sem fyrisøgd vóru. Hann fæddist á medal þess sama fólks, af sama ættlegg og fyrispád var ad hann koma mundi Hañ birtist á þeim tíma og med þvílikum atburdum, sem gjerdu hann audþeckjanlegan frá øllum Adams nidjum. Þannig sýndi Gud sig hér í sañordañ, hvers lofanir ecki bregdast, svo sannadi hann trúfesti sína, med hverri hann á sérhverjum heims aldri annadist mañkynsins velferd. En einkanlega sýnir sig í Jesú holdtekju sá guddómlegi kjærleiki og miskun, oss til allra bestu huggunar. Íhugan Guds vísdóms og almættis, sem er svo augljós þar vid, má maklega uppfylla vort hjarta heilagri undrun, en þegar vér undir eins reñum augunum til sjálfra vor, skodum oss, svo syndugir, aumir og lítilsverdir, sem vér erum og samanberum vorn audvyrdlegleika vid ómælilega hátign Guds, uppfyllist hjarta vort, sem von er, ótta og skélfingu; en reñum vér augunum til Guds elsku og miskunar, upplífgast vort hjarta



aptur af fagnadarfullu þacklæti vid Gud; uppá þessa elsku Guds til syndarana, uppá hans óumrædilegu miskunsemi vid mannkynid, opinberar Jesú holdtekja oss þad órækasta dæmi; hér auglýsir Gud sig, sem Gud, ríkan af miskun, vegna sinnar miklu elsku, med hverri hann elskadi oss frá eilífd í sínum Syni Jesú Kristi og himin og jord kungjora oss kjærleika Guds. Skopun og vidhald allrar veraldar sannar, hversu hann elskar sín handaverk, ad hans nádarrík forsjón lætur sig varda um hagi vora, sjer oss fyrir lífsins naudsynjum og lífsins lystisemdum; þetta ber vitni um þad, hversu honum sé annt um manneskjuna. Sú hjálp, hann andsýnir oss, þegar vér erum í vandrædum, sú blessan, med hverri hann farsælir vor fyritæki, géfa oss um þad fullvissu, ad himnana alvaldi Gud er vor elskuríkur Fadir, og sú þolinmædi og umburdarlyndi, sem hann hefir med oss veikum, vottar nóglega hans vorkunsama kjærleika til vor veikra manna; í einu ordi: allt hvad Gud frá fyrstu skopun gjort hefir á ollum oldum vid mankynid, er og vottur þess, hversu Gud hafi manneskjur kjærar; en sú elska hans, sem er opinberud í sendíngu hans Sonar í holdid, yfirgengur





öll önnur Guds miskunar og kjærleiksverk, hún gengur lángt yfir alla mannlega skynsemi. Hér er sá eingétni Sonur Födursins, sem útgéfinn er heiminum til frelsis; hér er sá heilagi og saklausi, sem á gvardadur er til synda forlíknunar; hér er sá alleina sæli, sem í holdinu uppá sig tekur fátækt, veikleika og eymdir; hér er himinsins Herra, sem gjörist géstur og framandi á jördunni, hvar han á ecki hæli, er hann megi höfdi sínu ad halla; en — vegna hverra lætur han þvílík eliskunnar undur í ljósi? föllum í heilaga undrun og tilbidjum Gud! þad er fyrir oss mennina, já, til sáluhjálpar syndugum heim! hefir Gud svo mikin kjærleika audsýnt, ad senda sinn Son í höldid, til þess ad leida oss frávillta til hans aptur, svo hann fengi tekid oss seka á ný til nádar og um tíma og eilífd veitt oss svo mikid gótt, ad vér aldrei hætta skyldum ad prísa hans elsku; til alls þessa sendi Gud oss sinn Son. O! mikil eru verkin Drottins! Dýrd sé því Gudi í hædum, fridur er á jördu og því er hjá mönnum Guds velþocknan!



## 92. Hugvekja.

### A sídasta dag Ársins.

Dróttinn hefir mikla hluti vid mig gjört, hans nafn veri eilífslega vegsamad! Lúk. 1.

Sé nockurr sá dagur ársins, sem oss vekja ætti til alvarlegs eptirþánka, er þad víst þessi, sem endar þad. Þegar vér ferdast hófum eins lángann spöl vegferdar vorrar, og heilt ár er, edur 365 dagar, er þá ecki tilheyrilegt litla stund vid ad stáldra og líta til baka til vegarins, sem farinn er; kannské sú adgætsla yrdi ecki gagnlaus fyrir oss í framtídinni, á þeim vegi, sem enn máské ófarinn sé. En hvad er þad þá, sem oss kémur fyrir sjónir á þessa afldna árs vegi? Efalaust þad, sem sérhverr af oss, nægast reynt hefir, hefdi hann veitt því eptirtekt, nefnilega: velgjörníngar Guds og hans óbreytt gædska, sem á sérhverjum dags morgni þess árs, sem nú er þegar endad, var ný og férsk yfir oss. Farsæla finnur nú sérhverr af oss vid ársins enda þá vegu, er forsjón Guds leiddi hann um á umlidinni árs tíd; miskun vóru þeir einúngis og nád. Þetta vidurkénna nú med verdugu þacklæti þeir, af oss, sem allt árid út

notið hafa lifsins ánægju í húsi sínu, af ununarsamri umgengni með ekta-maka og börnum, og hverra lifs næringa út-vegu forsjón Guðs hefir svo blessað, að þeir nægtir hafa til sins og sinna lifs viðurhalds; þetta viðurkénna nú þeir af oss, sem á þessu umliðna ári ratað hafa í hættur og háskasemdir, ellegar vand-ræði þau, sem þeir sáu sér engann bjarg-ar-veg frá að komast, en urðu dásamlega frelsaðir, þegar neyðin aðþrengdi, sem mest. Þetta viðurkéña jafnvel þeir sjúku og sáru, sem stunið hafa undir þúngri likhamans vanheilsu á þessu ári, en fundu stiðandi endurnæringu og hugsvölun í eymdum sínum, einúngis í Jesú lær-dóma huggunar-ríku fyrirheitum; já, hverr er sá af oss, sem eckl finni það og viðurkéñi, þegar hann rekur með ná-qvæmri athugasemd þenna siñ nýfarna lifs feril og skeðar hversu hulin hönd Guðs hafði náqvæm afskipti af öllum vorum högum og stjórnaði þeim dásam-lega á stundum; hverr af oss má eckl — segi eg — við endurmiñíngu mánaða, vikna og daga þessa afliðna árs, undirtaka með Maríu Jesú Móður: Drottiñ hefir



mikla hluti vid mig gjört, hans nafn verdi eilíflega vegsamad! en — ef ad oss erú nú vid árs endirinn svo midsjáanlegir allir þeir velgjörníngar og gædska Guds, sem vér notid höfum allt árid út, má oss jafnframt reka minni til hins, hversu vér vorum óverdugir þessara velgjörnínga. Hvers samvitska má nú ecki blygdast, sem upprysja vildi fyrir sér, nedhaldslaust allar þær syndir og misgjördir, er hann árlángt drýgt hefir gegn gódum Gudi, sem gjördi oss á þvi svo mikid og margt gott? má ecki sérhverr af oss í þessu registri finna syndir, drýgdar af ásetníngi edur ávana? syndir í gjördum, í ordum og hugrenníngum? syndir á móti bodordum Guds? og þó má sérhverr þeirra synda einkum var verda vid þessa eptirgrenslun, sem helzt á hann stríddu, og vanum gjordt hann svo æfdann t, ad hann traudlega feck af þeim látid. En hversu mikid er þá ecki og þad góda, sem vér á þessu ári forsómad höfum af því, er vér hefdum gétad gjört, og Guds nádarrík forsjón gaf oss tækisæri til? þessi adferd vör og framferdi þetta gjörvalla ár, má vid ítarlega ransókn vora maklega fylla





oss ótta og skélfingu. Hvernig mundi oss vegna, ef vér ættum vid ársins enda ad standa þann reikning, sem einusinni liggur fyrir oss, fyrir Dómstóli Guds, fyrir brúkun nádar-tímans á þessu ári, sem Gud unnti oss til þess, ad vér á honum leidast mættum af nægd hans nádar-ríku velgjørda til ad elska hann og efla vora egin og vorra medbrædra farsæld? Þetta ár, sem ber þó svo mørg áþreifanleg merki hans gædskuríka kjærleika, høfum vér brúkad honum til módgunar, en sjálfum oss og ødrum opt til vanlucku; en — hvert mundi þá dóms adqvædid, sem þvílíkir Guds gædsku og nádar-tímans foraktendur med fullum rétti mættu vidbúast? efalaust eilíf út-skúfan frá Gudi. Þótt þessi Dómur sé ecki þegar yfir oss uppqvedinn, er engannveginn dygdum vorum eda verdskuldun ad þacka; já, engu, nema óþrentandi þolinmædi og lánglundargédi þess Guds, sem ecki vill syndugs manns dauda, er oss syndugum til einar mestur gledi, hann hefir gefid, jafnvel mestu glæpamønnum þad-huggunar-ríka fyrirheit: ad á hverjum þeim degi, sem hinn ógudlegi snýr sér til hans, vilji hann miskunna honum;



sem hefir unnid þad til vors frelsis, ad útgéfa sinn eingétinn Son í þinn og dauda. Í hans nafni snúum vér oss til þín, nú vid ársins enda, eilífi miskunsemdanna Gud! med sannri hjartans ydrun, fyrir þins Sonar skuld, sem bætti saklaus fyrir oss seka. Vyrdstú ad fyrirgéfa oss allar vorar syndir, sem fleiri eru á þessu ári drýgdar, en oss fái reckid minni til. Lofadur vertú og blessadur, fyrir alla þá nád og óverdskuldada velgjörninga, sem þú hefir oss á þessu ári í tje látid og leyf oss, gódi Fadir! ad enda þad med þeirri huggunar-ríkustu fullvissu og von, ad þín endalausa gædska muni med ársins enda stít á enda komin, heldur upprenna ný og fersk yfir oss, med upprennandi næstu Nýárs-sól.

## 93. Hugvekja.

### Á Nýári.

Gud! til þín var mér varpad allt frá módurlífi, þú hefir borid umhyggju fyrir mér. Ps. 71.

Undir þessa Davíds medkenníngu tekur efunarlaust á þessu Nýárs qvöldi, sérhverr af oss, sem minnist þess, hversu

nádarsamlega hann leiddur er af forsjón Guds, allt frá fædíngunni fram á þetta ár. Allar vorar afliðnu lífsstundir bera minnisverd merki þess, hversu Gud á himnum hefir reynst oss sannkalladur Fadir; hverr af oss fær upptalid, þegar hann skodar sitt umlidna líf, allt þad góda, sem Gud hefir vid hann gjört, einúngis á þessu seinast lidna ári, hversu hann stjórnar vorum tilfellum med vísdómi og gædsku, hversu hann bætti vorar þarfir, blessadi vora atvinnu, farsældi vor fyrirtæki, vardveitti oss í háskanum, þyrmdi oss vid allri ólucku, sem jafnvel vor afbrot stofnudu oss svo tídum í; allt vottar, ad hann hefir eckí slitid, til þessa dags, umhyggjuna fyrir oss, sem hann tókst á hendur strax og vér innkomum í heiminn. Frá eilífd hafdi hann ályktad, ad bera umonnun fyrir lucku vorri. Hans alvitska þeckti fyrifram tilveru vora, eins og allt þad, sem þéna mætti til vorrar lucku, því allir vorir dagar, vitnar David, vóru í hans forsjónar-bók skrifadir, þeir ed enn verda skyldu. Hans alvísa rád, o þú manneskja! áqvardadi fyrirfram, fædingar=stad þinn og fædíngar-stund; hann



sá fyrir uppeldi þinn þannig, ad af þvi flaut þad lifs ásigkomulag og ástand, sem þú lifir nú í; hans verndar-auga vakti yfir þér í úngdæminu, svo ad þitt úngdóms gjálífi vard þér ecki ad slisum; ad þú hefir sídan klaklaust og án nauda afkomist, þad áttu Guds mildu forsjón ad þacka. Hann, sem er rádandi sérhvers tilfellum á jördunni, hann afstýrdi þeim hættulega sjúkdómi, sem sotpt hefir adra lifinu, svo hann ecki grandadi þér; hann gaf þér nægilegt lifs uppheldi, þegar adrir veslnduft upp af skorti og húngri; hañ unnti þér allt umlidna árid ánægjusamra og rólegra daga, í skauti þiña ástkjærustu vina og náfrænda, þegar adrir medbrædur þinir á sömu tíd velkjast hlutu í sjáfarins bylgjum, edur lifa ángistarsömu lifi fyrir strídsins eydileggingum, og nú hefir hann loksins látid þig útenda í sömu rósemd einn dag af þessu nýa ári; þessi, eins og allir vorir ókomnu dagar, eru í hans bok skrifadir, þar fyrir einneginn þinn sídasti lífdaga vorra. Þín mánadatala er hjá Drottni, segir Job, hann hefir sett þér víst takmark, og yfir þad kémst þú ecki. Efalaust mættum vér meiri qvidboga bera fyrir adkomu þessa vors enda-

dægurs, ef vér væntum þess skyndilega; en hvílík huggan fyrir þig, kristna manneskja! ad daudi þinn er áqvardadur ad rádi þíns Guds, þegar hann sier þér hentugast vid ad skilja. Þú mátt trúa því og hugga þig þar vid, ad hann, sem svo náqvæma fodurlega tilhlutun hefir audsýnt sig ad hafa med lífi þínu, muni ecki sídur vera þinn Fadir í daudanum; med öllum sínum atvikum er þinn andlátsdagur af honum áqvardadur fyrifram, hvert hann skal adkoma seint eda snemma, á sjó eda á landi, á medal framandi eda vina, á þessu byrjada edur ödru ári, eptir lángvarandi sjúkdom edur og hastarlega; þessi og óteljandi fleiri tilfelli, sem hér med eru sameinud, og þér mega á andláts-tíma verda mikilvæg, hefir þinn vísi og gódi Fadir svo framsett, og þeim þannig fyrifram nidurradad, ad sem nytsamast verda kynni fyrir velferd þína, vini og vandamenn, sem eptir lifa. Ecki kallar hann þig einu augnabliki fyrri í burtu, enn hann sier ad besti tíminn fyrir þig, sem hann beid eptir, er kominn, ecki leggur hann á þig meira í helsóttinni, né lætur þig lengur lída, enn hann sier velferd þín útkrefur, allt hlýtur þad ept-



ir hans vilja ad béna, hér til hesta. Hvert þessi dagur, sem enda á líf vort, adkoma muni á þessu eda odru ári, vitum vér ecki. Guds alvísu gædsku prísum vér fyrir þad, ad hann hulid hefir þennann dag fyrir oss; en, látum þá, án þess ad gjora oss um hans adkomu nockra ángistar þánka, þessa óvissu, sem vér sveynumum í um hañ, géfa oss vid árs byrjunina þá hugvekju, ogvidnir fyrir daudanum dáglega, vid honum ad búast; en þessi vidbúnadur er í því innifalinñ, ad hverr og einñ af oss leggi allt kapp á ad afleggja þá löstu, sem hañ veit sig hneigdann til, en stundi eins alvarlega ad taka framforum í dygdum og mannkostum, sem láti sig í ljosi í voru dagleg liferni, einkum med því, ad efla af mætti annara lucku og velgengni jafnt vorri egin, og gjora og studla til svo mikils góds á medal brædra vorra í heiminum, sem vér megnum, ad dæmi vors Guds, sem audsynir sérhverjum af oss svo mikinn kjærleika; þegar vér ástundum, ad brúka þannig sérhvern dag þess nybyrjada árs, megum vér fyrirfram fullkomlega vona, ad þad verdi oss luckuár, því þá megum vér fyllilega reida oss med oruggu trúnadar-trausti uppá Gud,

sem í sinni hendi hefir vor ókomnu tilfelli og stýrir þeim øllum oss til besta; hvert sem oss mætir á því sorg eda gledi, medlæti eda mótlæti, sem vér aldrei med egin varúd edur vitsmunum vorum fáum hindrad, erum vér í hendi vors Guds, sem er vor Fadir, og vér vitum og reynum, ad hann aldrei lætur sín børn til skammar verda, sem med hlýdnu hjarta fulltreysta honum. Þó daudinn mæti oss á þessu ári, erum vér þar um allteins sannfærdir, ad sá dagur, sem hann ákvardar ad enda skuli líf vort, sé af honum fyrisjedur hæfilegastur tími til vorrar burtferdar úr heimi þessum.

Vér afhendum oss þá í vors Guds mildiríku fødurhønd, óttalausir fyrir þessa sídasta óvinar adkomu, þared Gud vissulega bædi mun taka sér á hendur umhyggju fyrir vorum eptirlifandi ástvinum, hvert heldur þad eru binir edur nánustu vandamenn, en leida oss um daudans dymma dal úr þessu útlegdar landi inn í vort eptirþreyda fødurland,



þared øll vor afbrot eru oss fyrir Jesú dauda fyrirgéfin. Í hans nafni biddjum vér þig, vor Fadir á himnum! ad vardeita þessa trú stødugа í vorri sálu, allt þetta ár út. Æ! lát því þessa vora audmjúku bæn, í þessu sama Jesú nafni verda oss já og Amen!



# Bæn í útgaungu Sumars.

Ogripanlega eilífa Vera! vér tilbiðjum þig vorn Guð, viðurkénnum þig vorn Skapara, þöckum þér vorum Velgiorara, og ákollum þig vorn Föður! Þú hefir ecki látið þig vera án vitnisburðar þetta afliðna Sumar, heldur enn endranær. Þú hefir opinberað þig fyrir oss hinn orláta gjafaran allra gæða, þared þú veittir oss svo margt og mikið gott, gafst oss dogg af himni og frjóssamar árstíðir. Þín blíða sól hefir skinið yfir oss, opt vanþackláta, án manngreinar álits: allt bendir oss til þín, og lætur oss þreifa á þeim eilífa sannleika: Drottinn er ollum góður, og hann miskunnar sig yfir oll sín verk, jorðinn er full af hans góðgyrni. Já, miskunna þig yfir oss, og sýn oss þína góðgyrni framvegis, mildi Faðir! Blessa oss þínar gáfur, þær þín orlætis hond rétt hefir oss í gégnum náttúruna. Blessa vorn Sumar: svelta, oll vor heimilis-faung



útt og inn, sem þú gefid hefir oss greind og krapta í þínum ótta ad abla oss, svo vér stadist fáum Vetrarins óblidur. Þegar sólarinnar fagra ljós fer, vid Vetrarins komu, ad depraſt vid vorn kalda bústad, æ! þá vertu sjálfur vor hressandi vonar-sól og hlífdar-skjöldur gegn øllum sárum hugarsorgum, øllum þecktum og óþecktum háskasemdum; fyrirgéf oss tímans, lífsins og þinna gáfna misbrúkun. Heyr vora bæn, fyrir Jesú skuld, álít vora þørf og uppfyll hana, eptir þínum dýrdar ríkdómi, Amen!

## Bæn í inngaungu Vetrar.

Vísdómsfulli aldanna Stjórnari, vor Gud og mildríki Fadir! þú hefir skapad Sumar og Vetur, blídt og strídt, hverjutveggja þessu megnar þú einn ad stjórna þínum manneskjum til besta; þinn vísdómur er óransakanlegur, og þinn vilji óumbreytanleg gædska, þad er vor einka von og huggan þinna veiku, allsþurfandi skepna, sem med tímans straumi og tilfellanna biltingum framleidum vora óvissu dagatølu, sem æfintýri. Æ! vér





þeckjum þad og þöckum þína gædsku, gódi Fadir! sem verndad hefir oss svo dásamlega og vardveitt allt til þessa tíma, ad vér ecki höfum — svo ad segja — steytt fót vorn vid steini. Þú hefir ecki einungis hlíft oss vid öllum slysum aflidid Sumar, heldur þará ofan ríkuglega blessad oss af loptinu, jördunni og sjónum; farsælt vora útvegu og frambodid oss fleiri blessunar gædi til ánægju og þarfa, enn vér höfum haft vit á ad þyggja og færa oss í nyt; já, alla vora naudþurft hefir þú uppfyllt, eptir þínum dýrdar ríkdómi í Jesú Kristi, þad vidurkénir nú vor sála med sonarlegu hjartans þacklæti, er vér þenkjum úti þína óumbreyttu guddóms vernd og vidhöndlun vid oss aflidid Sumar. Vér höfum verid ómaklegir þinnar nádar, en þú hefir oss í tje látid miklar gædsku gnóttir. Þó vér höfum ecki ætíd fengid vorar ómettanlegu, já, opt skadlegu óskir uppfylltar, megum vér þó prísa þína vísdómsfullu gódgirni, sem veitir oss þad eina, er þú sjer oss fyrir bestu og því bljúgir og ydrandi vidurkéña: miñi erum vér allri þeirri miskunsemi og trúfesti, er þú hefir audsýnt oss, já, of óverdugir erum vér til ad þora ad



væuta þess sama af þér framvegis; en fyrir Jesú vors bróðurs sakir, sakir þiña egin órjúfanlegu guddóms fyrirheita, vertú oss framvegis náðugur á komanda Vetri! tak oss 'að þér, sem Faðir, vér viljum vera þín børn, og sem børn felum vér oss með lífi og sálu og øllum efnum á þitt miskunar vald. Vertú vor hlífð í háskanum, vort hæli í nauðunum, vor leiðtogi á øllum vorum óvissu stigum, já, vertú vor allra Faðir og Guð í Jesú nafni, í hans nafni biðjum vér, í hans nafni bænheyr oss, Amen!

---

## Prentvillur:

Bls. 24 línu 20, innsetjist: kjørum.
— 52 — 27, af les gaf.
— 118 — 15 myrkanna l. myrkranna.
— 182 — 1 trusasti l. trúfasti.
— 250 — 6 les nema;
— 270 — 4 kravti l. krapti.



